H. B. Sigmundsson

# MINNINGARRIT

STÚKUNNAR

# HEKLU

*AF ALÞJÓÐAREGLU GOOD TEMPLARA.*



WINNIPEG.
PRENTAD Í PRENTSMIDJU ÓLAFS S. THORGEIRSSONAR.
1913.

# MINNINGARRIT

*stúkunnar*

# HEKLU

*Nr. 33*

*af Alþjóðareglu Good Templara.*



WINNIPEG.
PRENTAD í PRENTSMIDJU ÓLAFS S. THORGEIRSSONAR.
1913.

# *FORMÁLI.*

Þess gerist ekki þörf að hafa langan formála fyrir þessu litla riti. Ýmsum meðlimum stúkunnar þótti viðeigandi að 25 ára afmælis hennar væri minst með því að gefið væri út rit, er bæði þeim sem nú eru meðlimir og hafa verið það, gæti verið ánægja að eiga. Hugmyndinni var vel tekið af stúkunni og var nefnd kosin til að sjá um útgáfu ritsins. Í nefndina voru þessir kosnir: *Bergsveinn M. Long, Ólafur Bjarnason, Guðmundur Árnason,* Húsfrú *Nanna Benson* og Húsfrú *Guðrún Búason.* Þessi nefnd ásetti sér að hafa ritið þannig úr garði gert, að það yrði bæði minningarrit og fræðirit í bindindismálinu. Þess vegna skifti hún ritinu þannig, að fyrst kæmi ágrip af sögu stúkunnar sjálfrar og bindindishreyfingarinnar í Ameríku, og síðan ritgerðir um bindindismálið frá ýmsum hliðum skoðað. Var það skoðun nefndarinnar, að með þessu fyrirkomulagi yrði ritið bæði eigulegt fyrir meðlimi stúkunnar og aðgengilegt fyrir alla bindindisvini. Nefndin sjálf tók að sér þann hluta verksins, sem hún treysti sér til að leysa af hendi, og fékk þá hæfustu menn, sem hún átti völ á, til að taka að sér hinn hlutann. Kann hún þeim beztu þakkir fyrir hjálp þeirra.

Af ófyrirsjáanlegum ástæðum hefir útkoma ritsins dregist nokkuð lengur en til var ætlast í fyrstu. Biður nefndin alla meðlimi stúkunnar að virða það á betri veg. Undirbúningur við ritið, þó ekki sé stærra, varð fyrirhafnarmeiri en í fyrstu var gert ráð fyrir. Einnig hefir ritið orðið nokkuð lengra en upphaflega var gert ráð fyrir, en við því varð ekki gert, nema að breyta efni þess að mun.

Vér vonum að rit þetta verði mörgum, sem lengur eða skemur hafa stutt bindindisfélagsskapinn meðal Vestur-Íslendinga, til ánægju, og veki hjá þeim margar kærar endurminningar ; og bæði þeim og öðrum vonum vér að það verði til gagns. Ef það verður bindindismálinu til stuðnings með þjóð vorri hér vestan hafs, þá teljum vér fyrirhöfn vora vel launaða.

WINNIPEG í OKTÓBER 1913.

ÚTGÁFUNEFNDIN.

## *EFNISYFIRLIT.*


1. Ágrip af sögu stúkunnar Heklu,
   *Guðmundur Árnason.*
2. Minningar með myndum,
   *Bergsveinn M. Long.*
3. Tuttugu og fimm ára minni stúkunnar,
   *E. J. Árnason* og *Sveinbj. Árnason.*
4. Saga bindindismálsins í Ameríku,
   *Guðrún Búason.*
5. Bindindismálið frá sjónarmiði heilbrigðisfræðinnar
   Dr. *B. J. Brandsson.*
6. Bindindismálið frá hagfræðilegu sjónarmiði,
   *Friðrik J. Bergmann.*
7. *Sérstakar myndir:* Hátemplar, Edw. Wavrinsky. — Stórtemplar, Manitoba, R. Marteinsson. — Good Templarahúsið íslenzka í Winnipeg. — Embættismenn stúkunnar Heklu, er hún var 25 ára. — Nokkrir meðlimir stúkunnar Heklu.



*Síra* RÚNÓLFUR MARTEINSSON
*stórtemplar.*




*GOOD TEMPLAR HÚSIÐ.*




## NOKKRIR AF STOFNENDUM STÚK. HEKLU

*1. Ólafur S. Thorgeirsson. 2. Guðm. Jónsson. 3. Einar Sœmundsen. 4. Jóna Magnúsdóttir. 5. Andrés F. Reykdal. 6. Halldór Oddsson. 7. Ingibjörg Thorgrímsen 8. Friðfinnur Jóhannesson. 9. Guðm. P. Thordarson. 10. Kristján Guðmundsson. 11: Jón Júlíus.*



## SAGA STÚKUNNAR.

UM það leyti, sem Íslendingar byrjuðu að flytja til Ameriku, var bindindishreyfingin lítið farin að gera vart við sig á Íslandi. Að vísu var sumum mönnum farið að verða ljóst, hvílíka ógæfu drykkjuskapurinn leiddi yfir land og lýð, eins og t. d. Magnúsi Jónssyni presti í Laufási, sem var einn af helztu brautryðjendum bindindismálsins þar. En hjá almenningi var sú skoðun ríkjandi, að sá gæti naumast talist maður með mönnum, sem ekki vildi drekka, að minsta kosti við öll meiri háttar tækifæri. Fyrstu vesturfararnir voru þessum hugsunarhætti vanir, þeir þektu lítið eða ekkert til bindindismálsins, og þess vegna var það ekki eitt af þeim málum, sem þeir tóku sér fyrir hendur að styðja með félagslegum samtökum á fyrstu árum

sínum í hinu nýja landi. Í Winnipeg, þar sem Íslendingar urðu brátt fjölmennastir, voru mörg félög mynduð, og sum þeirra ekki mjög nauðsynleg, áður en því var hreyft að stofna bindindisfélag. Fyrstu samtökin miðuðu eðlilega til þess að létta lífsbaráttuna, sem var oft næsta erfið á þessum fyrstu frumbýlingsárum, eða þá til þess að viðhalda því, sem menn höfðu flutt með sér frá ættjörðinni, og þóttust ekki mega láta falla í gleymsku; og síðan komu samtökin til skemtana og annara ónauðsynlegri fyrirtækja. Ef til vill hafa ekki verið mikil brögð að drykkjuskap Íslendinga á allra fyrstu árunum vestan hafs. En þó svo hafi verið, og þó einhverjir hafi fundið til þess, að hann stæði fátækum innflytjendum fyrir þrifum, þá skorti alla þekkingu á félagslegum samtökum til að draga úr honum. Bindindisfélagsskapur var að vísu vel á veg kominn meðal innlendra manna, en fæstir munu hafa kynst innlendu félagslífi nokkuð að ráði á fyrstu árunum.

Winnipeg var ofurlítið bæjarkríli, þegar Íslendingar settust þar fyrst að á árunum 1876 og 77. Og á næstu fjórum til fimm árunum þar á eftir óx bærinn mjög dræmt. En svo skifti alt í einu um. Árið 1881 hljóp geysi mikill vöxtur í bæinn. Kanada-Kyrrahafsbrautin náði til bæjarins og tengdi hann við austurfylki Kanada. Í einu vetfangi margfaldaðist íbúatalan. Öllu fleygði áfram. Margir urðu efnaðir á stuttum tíma; og atvinna var nóg fyrir hvern sem vettlingi gat valdið. Áfengisnautnin óx að sama skapi og alt annað. Þó var hún ekki hlutfallslega lítil áður,

sem marka má af því, að einum sjö til átta árum áður en fjörkippurinn byrjaði, segir eina blaðið, sem þá var til í bænum, að það sé íhugunarvert, hversu mikils áfengis sé neytt í bænum og fylkinu. En þó hefir fyrst kastað tólfunum, þegar bærinn fór að vaxa fyrir alvöru. Prófessor Bryce segir í Manitobasögu sinni, að árið 1882 hafi ekki verið færri en fjörutíu hótel í Winnipeg. Hafa þau efalaust öll haft drykkjustofur. Þetta var einu ári eftir að fjörkippurinn byrjaði og sama árið sem hann endaði. Íbúatalan var þá tólf til fjórtán þúsund; og hefir þá að minsta kosti verið eitt vínsöluhús á hverja 360 íbúa. Má geta nærri, að Íslendingar hafa drukkið allmikið um þetta leyti, ekki síður en aðrir, enda eru til margar sögur frá þeim tímum, sem ótvíræðlega benda á, að svo hafi verið.

Það var heldur ekki mjög löngu eftir þetta, að farið var að hreyfa því að stofna bindindisfélag meðal Íslendinga í Winnipeg. Árið 1884 kom séra Jón Bjarnason frá Íslandi og gerðist prestur íslenzka safnaðarins í Winnipeg. Hann hafði tekið þátt í bindindisstarfseminni heima og hefir honum efalaust virzt full þörf á að eitthvað væri gert hér í sömu átt. Skömmu eftir að hann kom vestur boðaði hann til fundar til að ræða um stofnun bindindisfélags. Fékk hann í lið með sér kvenfélag nokkurt, sem stofnað hafði verið fyrir nokkrum árum. Árangurinn af þessari viðleitni varð sá, að bindindisfélag var stofnað. Gengu allmargir í það og málinu var yfirleitt vel tekið af Íslendingum. Eftir tæpt hálft ár var meðlimatalan orðin um áttatíu. En úr því fjölgaði

meðlimunum lítið og fundir félagsins fóru að verða illa sóttir. Áhuginn var mestur fyrst en dofnaði þegar frá leið. Allir sem gengu í félagið lofuðu að neyta ekki nokkurs áfengs drykkjar, né gefa, selja eða lána öðrum áfenga drykki, nema eftir læknisráði, svo lengi sem þeir væru meðlimir félagsins. Tilraun var gerð af meðlimum félagsins að koma í veg fyrir að unglingum væri selt áfengi, en eins og geta má nærri, stóðu félagsmenn ekki vel að vígi með að hafa áhrif á innlent fólk. Eitt af því sem mun hafa dregið úr viðgangi félagsins og nytsemi meðal Íslendinga var það, að sömum þótti það standa í ofnánu sambandi við hina kyrkjulegu starfsemi séra Jóns. Efalaust hefir stofnun félagsins samt komið talsvert miklu góðu til til leiðar. Með henni komst bindindismálið inn meðal Vestur-Íslendinga. Hún var fyrsta sporið, sem stigið var í því máli, og fyrsta sporið er ávalt þýðingarmikið í hvaða átt sem er.

Í Winnipeg var um þessar mundir stór og öflug Good-Templarastúka meðal enskumælandi manna, sem hafði verið stofnuð mörgum árum áður, líklega árið 1873, þegar bærinn var rétt að byrja að myndast. Hún hafði verið stofnuð af mönnum frá Ontaríofylki, sem voru með þeim fyrstu, er settust að í Manitoba. Í Ontario voru stúkur stofnaðar rétt skömmu eftir að Reglan var fyrst sett á stofn í Bandaríkjunum. Stúkan í Winnipeg hét „Fort Garry". Hafði hún verið nefnd eftir víginu, er stóð skamt þar frá, sem Assiniboine-áin fellur í Rauðána, og sem enn má sjá leifar af fyrir sunnan búð Hudsonsflóafélagsins á Aðal-

strœti. Í stúku þessa gekk einn Íslendingur, Guðmundur Jónsson að nafni. Guðmundur var einn af framtakssömustu Íslendingum í Winnipeg og reglumaður mesti. Hann er œttaður úr Þingeyjarsýslu og kom snemma vestur með fólki sínu. Átti hann það kunningja sínum, sem White hét, að þakka að hann gekk í stúkuna. White þessi var duglegur og áhugasamur meðlimur Fort Garry stúkunnar og hvatti Guðmund til að ganga í hana. Guðmundur tók þátt í fundarstörfum og kyntist við það lögum og siðum Good-Templarareglunnar, sem kom að góðu haldi síðar, er íslenzk stúka var stofnuð. Mun hann snemma hafa haft í hyggju að reyna að koma á stofn íslenzkri stúku, þegar nógu margir fengust til að sinna því máli.

Um líkt leyti og athygli Vestur-Íslendinga fór að dragast að bindindismálinu fluttist Good-templarareglan til Íslands. Fyrsta stúkan var stofnuð þar í janúar 1884, stúkan ,,Ísafold“ á Akureyri. Hún var stofnuð af norskum manni, sem Ole Lied hét. Á næstu árum voru stúkur stofnaðar á ýmsum öðrum stöðum. Var þess þá ekki langt að bíða, að menn flyttu vestur, sem höfðu verið í stúkum á Íslandi. Þeir menn voru ekki aðeins stuðningsmenn bindindismálsins, heldur einnig búnir að kynnast Good-Templarareglunni og komast að raun um, að hún vœri öflugasti og traustasti bindindisfélagsskapurinn, sem til var. Var það slíkum mönnum að þakka, að íslenzk Good-Templarastúka komst á fót í Winnipeg.

Snemma sumars 1887 tóku nokkrir Íslendingar í

Winnipeg sig saman og héldu fund til að rœða um, hvort ekki vœri tiltœkilegt að stofna íslenzka stúku. Sá sem fyrstur vakti máls á því mun hafa verið Sigurður nokkur Andrésson, bróðir Jóns skólastjóra Hjaltalín. Var hann nýkominn frá Íslandi, hafði verið í Good-Templarastúku þar á Ísafirði. Hann dvaldi aðeins nokkra mánuði í Winnipeg, fluttist þaðan vestur til Tantallon í Saskatchewan og dó fyrir nokkrum árum í bœnum Brandon. Fundurinn var haldinn að heimili manns, sem Einar hét Sœmundsen Hann var œttaður úr Reykjavík og ekki fyrir löngu kominn vestur. Var hann bindindismálinu mjög hlyntur, þó áður vœri hann allmikill drykkjumaður. Hann stóð einnig framarlega í félagsmálum Íslendinga í Winnipeg, sökum hœfileika sinna og félagslyndis. Gerðist hann einn helzti hvatamaður stúkustofnunarinnar. Aðrir, sem gerðust forgöngumenn málsins, voru: Guðmundur Jónsson, sem áður er nefndur; Jón Júlíus, einn af þeim Íslendingum, sem lengst voru búnir að vera í Winnipeg og dugandi maður í félagsmálum; Guðmundur Þórðarson úr Reykjavík, hafði verið í stúku þar áður hann kom vestur, og ýmsir fleiri. Um haustið bœttist við í hópinn Ólafur S. Þorgeirsson, prentari af Akureyri. Hann hafði verið í stúkunni þar og gengt embœtti œðsta templars; var hann því starfinu vel kunnugur. Sendu nú menn þessir beiðni um stofnskrá til stórstúku Manitoba og Norðvestur landsins. Varð nokkur bið á því að stofnskráin kœmi; en á meðan voru fundir haldnir af og til á heimilum forgöngumannanna. Var það gert

bœði til þess að halda áhuga manna vakandi og til að venja þá við fundarstörf. Þeir Ólafur S. Thorgeirsson og Jún Júlíus þýddu siðbókina á Íslenzku og var sú þýðing notuð fyrst um sinn. Loks kom stofnskráin seint í desember og var stúkan þá strax stofnuð; var það gert þann 23. des. 1887 í „Félagshúsinu" svo nefnda, sem stóð á Elgin Avenue og var þá og lengi á eftir aðal samkomuhús Winnipeg-Íslendinga. Stúkuna stofnaði Thomas Nixon, sem var meðlimur stúkunnar Fort Garry og stór-templar Manitoba og Norðvesturlandsins. Stofnskráin er undirrituð af honum ásamt Robert Clutterham, er þá var stórritari Stúkunni var gefið nafnið „Hekla. Hefir sjálfsagt tvent vakað fyrir mönnum er nafnið var valið: að láta það vera sem íslenzkast og eftirtektarverðast. Eru fá nöfn til, sem betur hefðu uppfylt þœr tvœr kröfur en nafnið Hekla. Stofnskrármeðlimirnir voru tuttugu og fjórir að tölu, og eru nöfn þeirra þessi, eins og þau standa á stofnskránni:

*Einar Sœmundsen*
*Ólafur S. Þorgeirsson*
*Halldór Oddsson*
*Guðm. P. Þórðarson*
*Stefán Erlendsson*
*Bjarni Lúðvíksson*
*Kristján Guðmundsson*
*Andrés F. Reykdal*
*Jón Júlíus*
*Sigurður Árnason*
*Friðfinnur Jóhannesson (W. J. Finney)*

*Guðm. Jónsson*
*Halldór Auðunsson*
*Bjarni Jónsson*
*Tómas Jóhannesson*
*Sigurður Sölvason*
*Níels M. Lambertsen*
*Þóra Sœmundsen*
*Margrét Skaftason*
*Jóna Magnúsdóttir*
*Jakobína Guðlaugsdóttir*
*Sarah Simons*
*Ingibjörg Thorgrímsen*
*Sigurlaug Bjarnadóttir*

Í embœtti voru þessir kosnir:

*Ólafur S. Þorgeirsson, œðsti templar*
*Guðm. Þórðarson, vara templar*
*Einar Sœmundsen, ritari*
*Bjarni Lúðvíksson, fjármálaritari*
*Kristján Guðmundsson, gjaldkeri*
*Stefán Erlendsson, kapilán*
*Andrés Reykdal, dróttseti*
*Sigurður Árnason, vörður*
*Halldór Auðunnsson, útvörður*
*Halldór Oddsson, aðstoðarritari*
*Sigurlaug Bjarnadóttir, aðstoðardrs.*
*W. J. Finney, umboðsmaður*
*Margrét Skaftason, gœslum. ungt.*
*Jón Júlíus, fyrv. œðsti templar.*

,,Hálfnað er verk, þegar hafið er", segir máltakið. Það gekk greiðlega að fá nýja meðlimi, þegar stúkan var komin á fót. Ef til vill hefir nýungagirni dregið suma að henni, eins og gerist, þegar eitthvað alveg nýtt kemur upp. Fyrirkomulag félagsskaparins var nýtt og óþekt meðal Íslendinga. En efalaust hefir hitt þó hvatt miklu fleiri til að ganga í stúkuna, að þeir sáu, að hér var þarfur félagsskapur kominn á fót, sem líklegt var að mundi verða íslenzka þjóðarbrotinu í Winnipeg til sœmdar og góðs. Margir hafa þá fyrst komið auga á nytsemi og nauðsyn bindindisstarfseminnar, er þeir sáu, að nokkrum mönnum var alvara að gefa sig við henni og vekja áhuga almennings fyrir henni.

Því miður er fyrsta gjörðabók stúkunnar glötuð, svo ekki er unt að segja neitt um fundarhöld fyrst framan af. Stúkan hélt fundi reglulega í hverri viku í ,,Félagshúsinu", og nýir meðlimir bættust stöðugt við. Í Heimskringlu er þess getið snemma í marz 1888 að meðlimir stúkunnar séu orðnir um 70. Hefir þeim eftir því fjölgað um milli 40 og 50 á lítið meira en tveim mánuðum. Í sama blaði er þess getið að stúkan hafi haldið skemtisamkomu, sem hafi bæði verið fjölmenn og með þeim betri, er haldnar hafi verið meðal Íslendinga í Winnipeg. Af þessu er ljóst að stúkan hefir bæði vaxið fljótt og fengið á sig gott álit.

Um það leyti sem stúkan var stofnuð átti talsverður flokkadráttur sér stað hjá Winnipeg-Íslendingum. Skoðanir manna voru skiftar í stjórnmálum og mörgu fleiru. Trúmálaágreiningur mun líka hafa verið far-

inn að gera vart við sig, þó lúterski flokkurinn væri ennþá einn um hituna. Þeir sem nokkuð gáfu sig við almennum málum fylgdu öðru hvoru blaðinu, Heimskringlu eða Lögbergi, og þau voru sjaldan sammála í nokkru. Öll mál voru rædd af mesta kappi. Að vísu kom flokkadrátturinn ekki beinlínis bindindismálinu við, en eins og oft vill verða, áttu menn erfitt með að vera samtaka um eitt mál, þar sem þá greindi á um svo mörg önnur. Flokkadrátturinn komst inn í stúkuna; ágerðist hann fljótt svo að sýnilegt var, að meðlimunum mundi ekki auðnast að vinna saman til lengdar. Loks kom að því að upp úr logaði og þeir meðlimirnir, sem óánægðir voru með gjörðir meiri hlutans gengu úr stúkunni. Það var í ágústmánuði 1888, sjö til átta mánuðum eftir að stúkan var stofnuð. Atvikaðist það þannig, að manni nokkrum, sem borinn var upp í stúkuna var synjað um upptöku. Tók þá annar *flokkuiinn* í stúkunni upp þykkjuna fyrir hann. En sumir úr hinum flokknum þóttust hafa grun um að maður þessi vildi komast í stúkuna til að auka sundrung í henni. Fór alt í bál og brand á fundi þeim, sem atkvæðagreiðslan fór fram á; og var öllum ljóst að samkomulags var ekki að vænta úr því. Margir gengu af fundi. Sögðu þeir síðan skilið við stúkuna og ráðgerðu að stofna aðra stúku. En með því þetta var í byrjun ársfjórðungs, höfðu ekki allir goldið ársfjórðungsgjöld sín. Er svo að sjá sem sumum þeirra er úr stúkunni gengu hafi verið gefin eftir ársfjórðungsgjöld. En sex miðlimum voru ekki gefin eftir gjöldin. Voru það þeir, sem einna svæsnastir

munu hafa verið. Þeir voru dæmdir í sekt í tilbót; en ekki verður séð með vissu fyrir hvað það hefir verið gert. Þeir sem úr Heklu gengu sendu beiðni til stórstúkunnar um stofnskrá fyrir nýja stúku. Fengu þeir stofnskrána og stofnuðu stúkuna Skuld 27. september. Stofnskrármeðlimir hennar *v*oru 43 talsins. Höfðu flestir þeirra gengið úr Heklu, en þó nokkrir nýir bæzt við. Meðal þeirra voru tveir af stofnskrármeðlimum Heklu: Ólafur S. Þorgeirsson og Sigurlaug Bjarnadóttir. Alt þetta uppistand í stúkunni vakti mikla eftirtekt út á við. Nefndu menn það í spaugi „Heklugosið". Hafa sumir, ef til vill, haldið, að það mundi verða Good-Templarafélagsskapnum að fjörtjóni. En því fór fjarri. Einmitt það að stúkurnar urðu tvær jók áhuga og starfsviðleitni Good-Templara um helming. Stúkurnar keptu hver við aðra. Báðar fjölguðu meðlimum. Samkepnin efldi þær, en lamaði ekki. Þó all-mikil gremja væri í mönnum og langt væri frá því að nokkur vinsamleg samvinna gæti átt sér stað fyrst um sinn, þá létu meðlimir beggja stúknanna sér ant um málefnið. Og smám saman dó deilan út og óvildin hvarf, eins og sýnt verður fram á síðar.

Í júní 1888 hélt stórstúkan ársþing sitt, það fyrsta eftir að íslenzk stúka var stofnuð. Stórstúkan var þá sjálf um fimm ára gömul; hún hafði verið stofnuð árið 1883, en fyrir þann tíma höfðu stúkur í Manitoba verið í umdæmi stórstúkunnar í Ontario, sem vegna þess að hún var fyrsta stórstúkan í Kanada, hefir jafnan borið nafnið Stórstúka Kanada. Á þessu stórstúkuþingi sátu þessir fulltrúar frá stúkunni Heklu:

Einar Sæmundsen, Valgerður Reykdal, Jónína Júlíus, Halldór Oddsson og Páll S. Bardal. Íslenzku fulltrúarnir tóku fullan þátt í þingstörfum og hafa áunnið sér fult traust hinna innlendu félagssystkyna sinna, sem sést bezt á því, að þrír þeirra voru kosnir í embætti stórstúkunnar: Jónína Júlíus, stór varatemplar, Einar Sæmundsen, stór kapilán og Valgerður Reykdal, stór vörður.

Eins og fram hefir verið tekið, er fyrsta gjörðabók stúkunnar glötuð. Hefir hún náð yfir tímabilið frá því stúkan var stofnuð til 31. janúar 1889. Ekki verður neitt séð um það, hvaða mál hafa komið til umræðu á fundum á þessu tímabili. Seint á árinu hefir því verið hreyft, hvað gera ætti viðvíkjandi þeim meðlimum stúkunnar Skuldar, sem skulduðu ársfjórðungsgjöld í Heklu, þegar Skuld var stofnuð. Hefir stúkan tekið þá afstöðu, að þessum meðlimum bæri að borga gjöld sín, og að samkvæmt lögum Reglunnar gætu þeir ekki talist góðir og gildir meðlimir neinnar stúku fyr en gjöldin væru greidd. Þessi skoðun á málinu var auðvitað rétt. Fyrst hefir verið farið fram á við Skuld, að hún léti umrædda meðlimi borga gjöldin, en þeirri kröfu var neitað; þá var leitað álits stórtemplars, og er auðséð, að hann hefir úrskurðað að meðlimum þessum bæri að greiða gjöld sín. Samt færðist stúkan Skuld undan að sinna kröfunni. Gekk í þófi um mál þetta milli stúknanna um langa hríð. Kom til tals hjá Skuld að synja Heklu-meðlimum leyfis að sitja á Skuldarfundum. Voru nefndir kosnar til að koma á sættum, en það tókst ekki. Sum-

ir meðlimir Heklu voru þess fýsandi að málið yrði látið falla niður og allar sakir gefnar upp, en meiri hlutinn var því mótfallinn. Vildi hann halda málinu til streitu og var það gert.

Hagur stúkunnar hefir yfirleitt staðið mjög vel um þetta leyti. Meðlimatalan var fyrsta febrúar 1889 rúmt hundrað, nýir meðlimir voru teknir inn í stúkuna á hverjum fundi. Margir meðlimir unnu ágætlega að framförum stúkunnar og má til nefna: Guðmund Jónsson, W. J. Finney, Guðmund Anderson, Jón Júlíus og konu hans, Kristján Richter, Halldór Oddsson, Þóru Sæmundsen og marga fleiri. Einar Sæmundsen var horfinn úr hópnum. Andaðist hann í Chicago. Fór hann þangað til að leita sér lækninga við tæringu, sem dró hann til dauða. Snemma í marz hætti stúkan að halda fundi í „Félagshúsinu" og flutti í Assiniboine Hall, sem stóð á Ross stræti að norðanverðu rétt fyrir neðan Isabella stræti. Skifti hún þá um fundarkvöld um leið. Höfðu fundir verið haldnir á miðvikudagskvöldum, en nú voru föstudagskvöld tekin fyrir fundarkvöld, og hefir því aldrei verið breytt síðan. Eitt fyrirtæki hafði stúkan með höndum, sem ekki snerti bindindismálið, en var þó þarflegt mjög. Það var að veita nýkomnum Íslendingum tilsögn í ensku. Borgaði hún úr sínum eigin sjóði fyrir kensluna, sem sjálfsagt hefir verið annaðhvort alveg frí, eða kostað þá, sem notuðu hana, mjög lítið. Ýms fleiri mál koma til umræðu á fundum eftir því sem líður fram á árið, og eru sum þeirra mjög þarfleg. Í maí er talað um að nauðsynlegt sé fyrir stúkuna að

koma upp hjá sér sjúkrasjóði. Höfðu nokkrir meðlimir þá verið veikir og þar af leiðandi illa staddir fjármunalega, og var leitað samskota á fundum þeim til styrktar. Málið komst svo langt þá, að nefnd var sett til að semja reglugerð um fyrirkomulag sjúkrasjóðs. En ekki varð þó neitt úr að sjóðurinn væri myndaður að sinni. Sem dæmi þess hversu mikinn áhuga miðlimir stúkunnar sýndu í því að hjálpa bágstöddum bræðrum og systrum má geta þess, að seint á sumrinu voru einum veikum meðlim gefnir um 40 dollarar, sem safnað hafði verið að mestu eða öllu leyti meðal Good-Templara. Var það myndarleg gjöf, þegar þess er gætt, að eingöngu fátækt fólk, að kalla má, var í stúkunni. Um haustið í nóvember er ráðist í að gefa út skrifað blað til skemtunar á fundum. Var í fyrstu ætlast til að báður stúkurnar væru í samlögum um blaðið, en ekki mun það hafa tekist. Var það lesið stöðugt á fundum allan þann vetur. Í fyrstu útgáfunefndinni voru: Jón Kjærnested, Guðný Jónsdóttir og Sigurður Einarsson. Blaðið var nefnt „Hekla". Hefir það efalaust hjálpað til að auka skemtun á fundum; má skilja á sumum fundargjörningunum, að það hafi verið velkominn gestur.

Stórstúkuþingið árið 1889 var ekki haldið fyr en í nóvember. Á því þingi mættu fyrir hönd stúkunnar Heklu: Guðm. Jónsson, W. J. Finney, Eiríkur Sumarliðason, Sigurður Einarsson, Kristján Richter, Guðm. Anderson og G. P. Johnson. W. J. Finney var kosin stór kanzlari, Jónína Júlíus stór dróttseti og Eiríkur Sumarliðason stór vörður. Ágreiningsmál

Heklu og Skuldar kom fyrir þingið. Var lesið bréf frá stúkunni Heklu, þess efnis, að þar sem sumir af stofnskrármeðlimum Skuldar hefðu átt ógreidd gjöld sín í Heklu, þegar stúkan var stofnuð, og þar sem stór templar hafi verið kunnugt um það, og vafasamt sé, hvort hann hafi haft rétt til að gefa út stofnskrá fyr en gjöldin voru greidd, þá biðji stúkan Hekla stórstúkuna að sjá um, að gjöld þessi séu greidd af hlutaðeigendum. Nefnd var kosin til að fjalla um þetta mál á þinginu. Rannsakaði hún málið og lagði til að framkvæmdarnefnd stórstúkunnar væri falið að gera svo út um það, að það kæmi aldrei framar til umræðu á stórstúkuþingum. Á fyrsta fundi sínum, sem haldinn var í desember, tók framkvæmdarnefndin svo málið fyrir og ákvað að stúkan Skuld, eða þeir af meðlimum hennar, sem ættu ógreidd gjöld í Heklu, skyldu borga einn dollar og fimtíu cents til Heklu og hafa síðan fullan rétt til að heimsækja hana. Þessi úrskurður var tilkyntur báðum stúkunum, en ennþá leið langur tími þar til gjöldin voru borguð.

Stúkan hélt afmælishátíð 27. desember. Var hún þá rúmlega tveggja ára gömul. Aðgangur var seldur og nam ágóðinn af skemtuninni hér um bil 22 dollurum, sem runnu í sjóð stúkunnar.

Alt þetta ár hafði meðlimum stöðugt fjölgað. Í byrjun febrúarmánaðar 1890 voru þeir orðnir rúmir 180. Var það laglegur hópur eftir rúm tvö ár, og hafði þó duglegur keppinautur verið á aðra hlið mest af þeim tíma. Þriðja árið byrjaði líka vel í ýmsu öðru en fjölgun meðlima. Í janúar heimsótti stórrit

ari stúkuna og brýndi fyrir henni, að nauðsynlegt væri að koma á fót barnastúku, ef þess væri nokkur kostur. Málið fékk strax góðar undirtektir og var nefnd sett í það. Sú nefnd fór þess á leit við stúkuna Skuld, að hún ásamt Heklu gengist fyrir stofnum íslenzkrar barnastúku. Var þessari málaleitun vel tekið af Skuld og nefnd kosin í henni til að starfa að málinu. Fóru nefndirnar nú að reyna að stofna barnastúkuna. Kom þá tilboð frá bindindisfélaginu gamla um að það vildi gefa stúkunum báðum sjóð sinn 35 dollara, ef þær kæmu upp barnastúku innan ákveðins tíma. Bindindisfélagið var uppleyst og hætt að starfa. Nefndirnar úr stúkunum unnu kappsamlega að því að koma barnastúkunni á fót. Var hún stofnuð 12. apríl. Barnastúkumálið var fyrsta málið, sem stúkunnar unnu að í sameiningu. Var óvild sú, sem verið hafði milli stúknanna allmikið tekin að réna, þú ekki væri enn um heilt gróið. Skömmu eftir að þetta gerðist var deilumálinu milli stúknanna ráðið til lykta þannig að stúkan Skuld borgaði Heklu hin margumræddu gjöld, sem nokkrir af miðlimum hennar höfðu skuldað, er þeir fóru úr Heklu. Jón Ólafsson, ritstjóri var orðinn meðlimur Skuldar. Varð hann þess fljótt áskynja að stúkurnar elduðu grátt silfur út af einhverju. Leitaði hann sér upplýsinga um málið og hvatti stúku sína til að borga lítilræði það sem úrskurðað hafði verið að henni bæri að borga. Var það gert og afhenti Jón Ólafsson einn dollar og fimtíu cents til stúkunnar Heklu á fundi hennar 23. maí. Var þá samstundis létt af burtvikningardómi þeim,

sem lagður hafði verið á hina skuldugu meðlimi, og samþykkt að halda gleðisamsæti og bjóða þangað öllum meðlimum stúkunnar Skuldar. Samsætið var haldið 9. júní í Albert Hall, og lauk þannig máli því, sem efalaust hefir meira en nokkuð annað valdið úlfúð milli stúknanna Heklu og Skuldar.

Margir góðir meðlimir hafa bæzt við fyrri hluta ársins 1890, en eins verður þó sérstaklega að geta. 14- marz gekk Bergsveinn M. Long í stúkuna. Má óhætt segja, að enginn meðlimur hennar hafi unnið með jafnmiklum áhuga og jafn óþreytandi elju og hann, frá því hann gekk í hana og fram á þennan dag. Hefir hann stöðugt gegnt vandasömustu embættum og ávalt borið hag stúkunnar í stóru og smáu fyrir brjósti. En þar sem starfs hans verður nánar getið á öðrum stað, er þarflaust að segja meira um það hér. Um sumarið í júlímánuði gekk Gestur Pálsson í stúkuna. Var hann meðlimur hennar þar til hann dó rúmu ári síðar.

Síðari hluti ársins virðist hafa verið fremur viðburðafár. Um haustið kom áskorun til stúkunnar frá innlendu bindindisfélagi, Dominion Alliance, um að hjálpa til að safna undirskriftum undir bænarskrá til umsjónarmanns veitingaleyfanna, sem færi fram á takmörkun áfengissölu í Winnipeg. Ekki er þess getið að nokkur árangur hafi orðið af viðleitni þessari. Seint í desember hélt stúkan afmælishátíð. Var inngangur seldur og hafði stúkan ofurlítinn hagnað af hátíðarhaldinu.

Næsta ár er mjög svipað þessu. Stúkan stígur engin stór framfaraspor, en starfið gengur þó yfirleitt

greiðlega Til framfara má það teljast að snemma á þessu ári er sjúkrasjóður orðinn til. Hefir hann efalaust myndast árið 1890 þó þess sé hvergi getið á hvern hátt eða hvenær hann hafi verið myndaður. Í febrúar 1891 er veikum bróður veittur tíu dollara styrkur úr honum; það er fyrsta fjárveitingin úr sjúkrasjóði, sem minst er á í fundargerningabókinni. Einhver ráðagerð hefir átt sér stað þetta ár um það, að stúkan tæki þátt í því að koma upp fundarhúsi með innlendum bindindisfélögum, en engin framkvæmd hefir orðið í því máli. Meðlimun stúkunnar fækkaði all-mikið á þessu ári; tóku margir lausnarmiða og aðrir sögðu sig úr stúkunni. Ekki er unt að sjá, hvað marga meðlimi hún hefir haft í ársbyrjun, en á miðju ári voru þeir 123. Hafði þeim þá fækkað um nær því 69 á hálf öðru ári. En þegar svo var komið hafa miðlimirnir farið að færast í aukana með að fá fólk til að ganga í stúkuna; um næstu ársfjórðingamót var meðlimatalan komin upp í 128 og rétt þar á eftir gengu 12 inn á einum fundi. Stúkan endaði þetta ár eins og hin undanförnu með afmælishaldi.

Af meðlimum, sem gengu í stúkuna á þessu ári, má sérstaklega nefna Jón Ólafsson ritstjóra. Hann hafði um hríð tilheyrt stúkunni Skuld. Gerðist hann brátt all-atkvæða mikill meðlimur stúkunnar Heklu.

Stórstúkan hélt ársþing sitt í júní bæði árin 1890 og 91. Fyrra árið var þingið haldið í Winnipeg en hið síðara í Stonewall Manitoba. Af fulltrúum stúkunnar Heklu voru fyrra árið kosnir í embætti í stórstúkunni: Guðmundur Jónsson, stór-kanzlari, húsfrú

Jónína Júlíus, stór-varatemplar; síðara árið var hún endurkosin stór-varatemplar.

Árið 1892 var framfara ár fyrir stúkuna. Margir nýir meðlimir gengu í hana og yfirleitt var vel unnið að málum hennar. Snemma á árinu var samkoma haldin fyrir sjúkrasjóðinn; er það fyrsta samkoman, sem getið er um í fundabókunum að haldin hafi verið í því skyni, en sennilegt er að til sjóðsins hafi verið stofnað í fyrstu með samkomu. Með byrjun nóvembermánaðar var meðlimatalan 183, sem er 55 fleira en verið hafði einu ári áður. Í desember hafði stúkan bústaðaskifti. Flutti hún úr Assiniboine Hall í nýtt samkomuhús, sem Guðm. Jónsson hafði látið reisa og nefnt var North West Hall. Það var uppi yfir klæðasölubúð Guðmundar á suðvesturhorninu á Ross og Isabella strætum; og var lengi helzti samkomustaður Íslendinga. Þegar stúkan var nýflutt þangað, hélt hún afmælissamkomu að vanda.

Á þessu ári gekk Guðrún Jóhannsdóttir Búason í stúkuna. Er hún efalaust fremst allra bindindiskvenna meðal Vestur-Íslendinga og þó miklu víðar væri leitað. Starfi hennar í þarfir stúkunnar og Reglunnar yfir höfuð verður lýst síðar í riti þessu.

Í byrjun febrúarmánaðar 1893 voru meðlimir stúkunnar 187. Má heita að hún hafi staðið í stað það ár, því í ágúst eru meðlimirnir 185. Fá ný mál hafa komið til umræðu á fundum, að því undanteknu að í júlí er samþykt að fara þess á leit við umsjónarmann veitingaleyfanna í fylkinu, að áfengissala verði ekki leyfð á fylkissýningunni það ár. Barnastúkan sem verið hafði undir umsjón og eftirliti beggja stúkn-

anna frá því hún komst á fót, var nú komin í all-mikla afturför. Gekk mjög erfiðlega að fá hentugt húsnæði fyrir hana og fleira virðist hafa verið því til fyrirstöðu að hún þrifist vel. Samþykti stúkan Hekla snemma á árinu að slíta sambandi sínu við barnastúkuna. Hefir hún efalaust ekki álitið mögulegt að halda henni uppi lengur.

Á stórstúkuþinginu 1893 var Jón Ólafsson, sem var einn af fulltrúum stúkunnar, kosinn stór-kanzlari

Á þessum árum átti stúkan marga ötula starfsmenn. Guðmundur Jónsson tók fullan þátt í störfum stúkunnar og gegndi oft embættum æðsta templars og umboðsmanns. Var hann allra manna bezt að sér í lögum og reglum og vildi láta fylgia þeim nákvæmlega Kristján Richter var einn af allra starfsömustu meðlimum stúkunnar. Gegndi hann mörgum embættum, þar á meðal embætti æðsta templars og var þráfaldlega í nefndum. Hann flutti nokkru eftir þetta til St. Paul í Minnesota og hefir dvalið þar síðan. Guðmundur Guðmundsson gullsmiður — flutti síðar til Minneota og mun vera þar enn — var einn hinna ötulustu meðlima; hann gegndi bæði embætti æðsta templars og ritara. Þá má telja Sigurð Einarsson, er var æðsti templar og fjármálaritari, auk margra annarra starfa, sem hann hafði á hendi fyrir stúkuna. Hann flutti alfarið til Íslands skömmu síðar. Hann settist að fyrst á Nesi í Loðmundarfirði í Norður-Múlasýslu og síðar á Hánefsstaðaeyri í Seyðisfirði. Bjó hann þar til dauðadags árið 1901. Var hann helzti forgöngumaður þess að stúka var stofnuð á Þórarinsstaðaeyrum og mjög einlægur og áhugamikill

bindindismaður hvar sem hann var. Sigurður var ættaður frá Sævarenda í Loðmundarfirði. Bræður tveir: Jón Jónsson og Árni Jónsson voru mjög vel starfandi meðlimir. Árni er enn í Winnipeg, Jón er nú kaupmaður vestur á Kyrrahafsströnd. Ennfremur má nefna Þórhall Sigvaldason. Hann dó í Winnipeg árið 1909. Bergsveinn Long, Guðm. Anderson og ýmsir fleiri, sem enn þá eru í stúkunni voru og í tölu hinna atkvæðameiri meðlima á þessum árum.

Fundarbækur stúkunnar frá 18. ágúst 1893 til fyrsta febrúar 1895 eru glataðar. Hvað gerst hefir á því tímabili verður ekki sagt með neinni vissu. Á stórstúkuþinginu 1894, sem var haldið í Brandon lofuðu fulltrúar stúkunnar fyrir hennar hönd að leggja 15 dollara til útbreiðslumálsins, með því skilyrði að sömu upphæð yrði varið til útbreiðslu bindindis meðal Íslendinga; fulltrúar stúkunnar Skuld gerðu það sama. Sveinn Þorvaldsson, sem var einn af fulltrúum stúkunnar á því þingi, var kosinn endurskoðari reikninga stórstúkunnar.

Meðlimum fækkaði árið 1894- Í febrúar 1895 er tala þeirra 139 og í ágúst sama ár er hún kominn niður í 125. En þó stúkan væri í afturför hvað fjölda meðlima snerti var ýmislegt gert á því ári, sem ber vott um vakandi áhuga fyrir bindindismálinu. Stúkan gerði tilraun til að koma í veg fyrir að áfengissala væri um hönd höfð þjóðminningardaginn annan ágúst. Var þá siður að forstöðunefnd Íslendingadagsins gæfi einhverjum leyfi til að selja mat og óáfenga drykki á staðnum, þar sem hátíðahaldið fór fram. Höfðu þeir sem fengu leyfi þetta selt áfengi í laumi, sem var brot

á landslögum. Hvort þessi tilraun stúkunnar hefir haft nokkurn verulegan árangur er ekki ljóst; en víst er það, að þessi ólöglega áfengissala átti sér stað eftir þetta. Um haustið hélt stúkan tombólu til arðs fyrir sjúkrasjóð sinn, og nam ágóðinn af henni 60 dollurum. Stórstúkan var þá í fjárþröng. Hafði hún ráðist í ýmislegt, sem hafði kostnað mikinn í för með sér. Skoraði hún þá á undirstúkurnar að hlaupa undir bagga með sér. En með því að sum fjárútlát stórstúkunnar þóttu næsta óþörf, var fjárbónum hennar ekki vel tekið. Kom þá til tals á fundum stúkunnar, hvort ekki mundi ráðlegt að reyna að koma á fót íslenzkri stórstúku. En ekkert var þó gert í því máli, enda munu íslenzku stúkurnar tæplega hafa verið nógu margar til þess að mynda stórstúku, þó það hefði verið vilji þeirra allra og leyfi fengist til þess. Einmitt um sama leyti, og ef til vill út af hinu bága ástandi stórstúkunnar, er farið að hreyfa því, hvort ekki muni unt að stofna fleiri íslenzkar stúkur. Nefnd var sett í það mál og henni falið að leita sér upplýsinga út um bygðir Íslendinga í Manitoba. Íslenzkar stúkur voru þá til í Argyle-bygð og Selkirk, höfðu þær verið stofnaðar að tilhlutun meðlima úr stúkunni Skuld. Nefndin gaf skýrslu í janúar 1896. Skýrir hún frá að hún hafi haft bréfaviðskifti við Íslendinga í Brandon og á Gimli og spurt eftir hvort tiltækilegt mundi að stofna stúkur á þessum stöðum. Einnig kveðst hún hafa í hyggju að skrifa til fleiri staða. Frá Brandon höfðu þau svör komið, að þar væri bindindisfélag, en að sumir meðlimir þess væru ekki mótfallnir að því yrði breytt í Good-Templara-

stúku; en frá Gimli kom það svar, að enn sem komið væri, væri ekki tiltækilegt að stofna stúku þar.

Um þessar mundir er því hreyft, hvort íslenzku stúkurnar muni ekki geta ráðist í að koma sér upp fundarhúsi. Varð stúkan Skuld fyrri til að hreyfa því og gerði Heklu samvinnutilboð. Nefnd var sett í málið, en framkvæmdir urðu engar; enda hafa menn efalaust séð að erfiðleikar voru margir og miklir.

Með byrjun febrúarmánaðar 1896 voru meðlimır stúkunnar 127. Við næstu ársfjórðungamót voru þeir orðnir 140. Ekki verður séð í fundarbókunum hvort þeim hefir fjölgað eða fækkað það sem eftir var af árinu, en að líkindum hefir talan staðið nokkurn vegin í stað. Hlutavelta var haldin fyrir sjúkrasjóðinn það ár og sömuleiðis afmælishátíð.
Snemma á árinu 1897 gekst stúkan fyrir upplestrarsamkepni. Voru silfur- og gullmedalíur gefnar að launum þeim sem bezt báru fram, eins og siður er í enskumælandi stúkum og bindindisfélögum. Er svo að sjá sem ýmsir meðlimir hafi borið all-mikinn áhuga fyrir þessu. Þá var einnig tekið til umræðu stofnun umdæmisstúkna. Var það mál rætt all-ítarlega og fulltrúum á stórstúkuþing falið að bera það fram þar. En þrátt fyrir það varð ekkert úr því að umdæmisstúka kæmist á fót þá.

Fjárhagur stúkunnar var mjög þröngur um þetta leyti. Meðlimirnir voru með fæsta móti, sem þeir lengi höfðu verið, og gjöld heimtust ekki vel inn. Varð fjárskorturinn svo alvarlegur, að stungið var upp á að fækka fundum stúkunnar um helming, til að spara húsaleigu. Einnig voru fundir svo illa sóttir að

sumum meðlimum þótti ógerlegt að halda þeim uppi í hverri viku yfir sumartímann. Sem betur fór voru margir á móti því að fundum væri fækkað; álitu þeir að það væri stór hnekkir fyrir stúkuna og mundi verða örsök til þess að áhugi dofnaði enn meira hjá mörgum. Náði uppástungan ekki fram að ganga. En til að sýna að sparnaðarhugmyndin var ekki ástæðulaus, má geta þess, að með byrjun maí-ársfjórðungs átti stúkan að eins 30 cents í sjóði, þegar búið var að borga stórstúkuskattinn. Meðlimir hennar voru þá 124 talsins.

Um þetta leyti komu stjórnmál nokkað til umræðu á fundum. Bindindismaður nokkur, E. L. Taylor að nafni, bauð sig fram til þingsetu í sambandsþinginu fyrir Winnipeg. Var hann flokksleysingi og mæltist til fylgis bindindismanna. Mikið var um það talað. hvort íslenzkir Good-Templarar ættu að styðja hann eða ekki. Voru menn ekki samdóma um það. Víst náði Taylor þessi ekki kosningu í það skifti.

Á miðju þessu ári var aftur byrjað að gefa út skrifað blað í stúkunni til upplestrar á fundum. Var Jón Kjærnested, sem einna bezt hafði gengist fyrir útgáfu fyrra blaðsins ritstjóri þess. En ekki gekk greiðlega að halda þessu blaði við. Lagðist það niðnr aftur eftir stuttan tíma vegna stuðningsleysis meðlimanna.

Sjúkrasjóðs hlutaveltan, sem haldin var þetta ár gaf af sér um 100 dollara. Í desember hélt stúkan tíu ára afmæli sitt. Var vandað til þess eftir föngum. Var þá safnað skýrslum yfir hve margir hefðu gengið í stúkuna frá byrjun, og reyndust þeir að vera 703.

En úrgengnir, burtviknir, reknir og dánir voru 570. Var meðlimatalan þá, þegar stúkan var tíu ára gömul 133.

Árið 1898 var merkisár í sögu bindindismálsins í Kanada, vegna atkvæðagreiðslu um áfengisfölubann, sem þá fór fram um land alt. Lét sambandsstjórnin atkvæðagreiðslu þessa fara fram samkvæmt loforði, sem flokkur hennar hafði gefið áður en hann komst að völdum. Mál þetta var mikið rætt í blöðunum áður en atkvœðagreiðslan fór fram. Rituðu nokkrir meðlimir stúkunnar Heklu þá greinar í íslenzku blöðin með banninu og stúkan veitti 20 dollara úr sjóði sínum til undirbúnings málsins fyrir atkvæðagreiðsluna. Meiri hluti allra atkvæðisbærra manna greiddu atkvæði með banninu, en þó lét stjórnin undir höfuð leggjast að leggja bannlagafrumvarp fyrir þingið.

Á þessu ári heimsóttu tvær merkar bindindiskonur Winnipeg. Ungfrú Ólafía Jóhannsdóttir var á ferð um áramótin. Tóku íslenzku stúkurnar rausnarlega á móti henni og gáfu henni gullúr í heiðurs og þakklætisskyni fyrir starf hennar í þarfir bindindismálsins. Flutti hún ræður á fundum stúknanna og víðar. Um sumarið kom ungfrú Jessie Forsyth og var henni veitt móttaka af öllum stúkum bæjarins í sameiningu.

Þegar hagur stúkunnar stóð sem lakast sáu menn að ekki dugði annað en fjölga meðlimum. Voru verðlaun gefin þeim sem komu með flesta nýja meðlimi í stúkuna. Hafði þetta góðar afleiðingar, því frá ársbyrjun 1898 til oktobermánaðarloka gengu 40 nýjir meðlimir í stúkuna og á næsta ári gengu um 80 manns

í hana; hér er talið til fyrsta febrúar árið 1900. Þá gengu einu sinni 29 inn á einum fundi. Stúkan Skuld var þá í miklum uppgangi. Sigurður Júl Jóhannesson, sem er öllum íslenzkum bindindismönnum kunnur, var nýgenginn í hana og dró að henni fjölda nýrra meðlima. Hleypti það kappi í marga meðlimi Heklu með að verða ekki á eftir. Fleira var þó gert en að fjölga meðlimum. Snemma ársins 1899 var nefnd kosin til að vinna, ásamt nefndum úr öðrum bindindisfélögum, að því að koma i veg fyrir ólöglega áfengissölu. Einnig tók stúkan þátt í því að áskorun var send til fylkisstjórnarinnar um að semja strangari vínsölulög. Bréf voru rituð mörgum nafnkendum Íslendingum í Winnipeg og víðar og þeir beðnir að svara og segja álit sitt á bindindismálinu. Nokkrir þessara manna svöruðu. Voru svörin lesin á fundum og virðist stúkan hafa verið vel ánœgð með þau.

Með byrjun ársins 1900 var húsbyggingarmálið tekið fyrir. Var þá leitað nákvœmra upplýsinga um hvað fundarhús við hæfi íslenzku stúknanna mundkosta. Áætlaði byggingarmeistarinn, sem fenginn var til að gera uppdrátt og kostnaðaráætlun að kostnaðurinn mundi verða um 15,500 dollara. Engin tiltök voru að leggja þá út í að byggja vegna fjárskorts. Var byrjað á að mynda byggingarsjóð og tvær samkomur haldnar í því skyni. Einnig var gert ráð fyrir að safna fé meðal Íslendinga í bænum. Átti svo að byrja að byggja strax og nægilega mikið fé væri fengið. En eins og við var að búast fekst ekki nægilega mikið fé á stuttum tíma.

Undir árslokin 1900 hafði stúkan nær 300 með-

limi. Fjárhagur hennar var í góðu lagi. Sjúkrasjóðurinn fór vaxandi með ári hverju, því hlutavelturnar sem haldnar voru á hverju hausti, gáfu æ meira af sér eftir því sem tímar liðu. Og að sama skapi uxu fjárveitingar til sjúkra meðlima. Afmælishátíðir voru haldnar þau árin, sem það hefir ekki verið tekið sérstaklega fram um hér að framan.

Á stórstúkuþingi 1897 var einn meðlimur stúkunnar kosinn í embætti í stórstúkunni, ungfrú Helga H. Johnson, stór-varatemplar. Í stórstúkutíðindunum árið 1898, er þess ekki getið, að neinn meðlimur úr Heklu hafi verið kosinn, en næsta ár var Helga H. Johnson aftur kosinn stór-varatemplar og Ingvar Búason stórritari.

Um þetta leyti var hagur stórstúkunnar með bágbornasta móti; var hún kominn í því nær 600 dollara skuld. Hafði hún um nokkur ár gefið út blað, sem ekki borgaði sig og ýms önnur miður hyggileg fjáreyðsla hafði átt sér stað. Átti talsverð óánægja sér stað út af ráðsmensku þeirra,sem fremstir voru í framkvæmdarnefndinni. Má segja að Íslendingar tækju nú við stjórn stórstúkunnar að mestu leyti. Á stórstúkuþinginu árið 1900 voru þessir meðlimir úr Heklu kosnir í embætti: Guðm. Anderson stór-kanzlari, Ingvar Búason stórrítari, Guðrún Jóhannson stórvaratemlar og Helga H. Johnson stór dróttseti.

Margra meðlima, sem unnu með sérstökum áhuga að málum stúkunnar fyrir og um þessar mundir, mætti minnast, ef rúm leyfði. Auk þeirra, sem áður hefir verið minst á, má nefna Jóhann Bjarnason, Ingvar Búason, Pétur Thomson, Ólaf Ólafsson, Karl

Anderson, Þórhall Sigvaldason, Isak Jónsson, William Christjánsson, Kristján Stefánsson, Jón Hallsson, Sveinbjöru Gíslason o. fl. Gegndu þessir menn tíðast embættum og trúnaðarstörfum í stúkunni. Af konum og stúlkum, sem mikið unnu í þarfir stúkunnar á þessum tímum, má nefna: Valgerði Finney (Jósefsson) Þuríði Long, Agnesi Jónsdóttur, Signýu Olson, Svanborgu Pétursson, Þorbjörgu Þorgeirsson, Helgu H. Johnson, (Thomson) og systur hennar Halldóru (Bjarnason), Guðrúnu Jóhannsson, sem áður hefir verið nefnd, Guðrúnu Friðriksson, Sigríði Jónsdóttur og Þórunni Björnsson. Fleiri mætti telja, ef rúm leyfði.

Tuttugustu öldina byrjaði stúkan með því að þoka meðlimatölu sinni drjúgum upp á við. Í byrjun febrúar voru meðlimirnir orðnir 320. Fæstir munu sjá nýja öld renna upp án þess að hyggja á einhverja nýbreytni og er því sízt að furða þó stungið væri upp á ýmis konar nýbreytni framan af árinu 1901. Fyrst var all-mikið rætt um stofnun heilsuábyrgðar í sambandi við stúkuna. Voru upplýsingar fengnar um það mál. En þegar til kom leizt mönnum ekki vel á það fyrirtæki. Þá var farið að tala um, hvort ekki væri gjörlegt að koma á fót bókasafni, er stúkan ætti. En ekki þótti það heldur gjörlegt. Voru sumir með því, að farið væri fram á við bæjarstjórnina, að hún keypti íslenzkar bækur í bókasafn bæjarins, sem almenningur hefði aðgang að. En aldrei mun það hafa orðið meira en ráðagerð. Þýðingarmesta málið, sem kom til umræðu var stofnun lækningasjóðs fyrir drykkjumenn. Var nefnd sett til að íhuga málið. Hún fékk loforð frá eigendum ofdrykkjulækningarstofn-

unar einnar (Keeley Cure) um talsverðan afslátt fyrir þá sem stúkan sendi til lækningar. Ráðlagði nefndin stúkunni að stofna lækningarsjóð með því að leggja fram fé úr sjóði sínum, er svaraði tíu centum af hverjum karlmanni og fimm centum af hverjum kvennmanni á ársfjórðungi hverjum, og verja því síðan til að hjálpa öreiga drykkjumönnum til að fá lækningu. Náttúrlega hefði þetta orðið of hátt tillag, ef á hefði reynt, en sjóðurinn var aldrei myndaður. Samt mun stúkan hafa hjálpað einum meðlim sínum til að taka lækningu um þetta leyti, með því að lána honum 25 dollara.

Í ágúst 1901 var 50 ára afmæli Reglunnar haldið hátíðlegt. Tók stúkan þátt í því með öðrum stúkum í bænum. Einn meðlimur stúkunnar, Ingvar Búason, hélt ræðu á samkomu þeirri, en henni var stýrt af séra Jóni Clemens, er þá var stórtemplar. Meðlimum stúkunnar fjölgaði nokkuð eftir því sem á árið leið. Í nóvember voru þeir orðnir 333. Um haustið var talað um að stofna íslenzka stórstúku. Hefði það verið auðveldara þá en áður, þegar sumir meðlimirnir voru þess fýsandi. En margir voru því mótfallnir. Sögðu, sem satt var, að það eyðilegði þær enskumælandi stúkur, sem til væru og ekki gætu haldið uppstórstúku af eigin rammleik.

Um veturinn 1902 var gengið til atkvæða um vínsölubann í Manitobafylki. Stjórnin, sem þá var komin að völdum, hafði lofað að láta slíka atkvæðagreiðslu fara fram, ef hennar flokkur yrði sigursæll í kosningabaráttunni. Var það efalaust meðfram því loforði að þakka að stjórnin komst að. Þegar til at-

kvæðagreiðslunnar kom, höfðu bæði bindindismenn og andstæðingar þeirra mikinn viðbúnað. Stúkan Hekla tók drjúgan þátt í því verki. Borgaði hún úr sjóði sínum fyrir eina útgáfu blaðsins Dagskrá II, sem var gefið út af Sigurði Júl. Jóhannessyni, er var einn af allra-ötulustu leiðtogum bindindsmanna í Winnipeg, Einnig gekst stúkan fyrir fundarhöldum, svo málið yrði sem bezt rætt; og margir meðlimir hennar lögðn á sig mikla fyrirhöfn til að afla vínsölubanninu fylgis. Mótspyrnan gegn því var mjög sterk og féll atkvæðagreiðslan þannig, að ekki varð nógu mikill meiri hluti með vínsölubanni til þess að það kæmist á; enda var meiri hlutinn, sem lögin ákváðu að þyrfti til að samþykkja vínsölubann, ósanngjarnlega hár, þrír fimtu hlutar allra atkvæða, Báðu bindindismenn þá stjórnina að breyta lögunum þannig, að ekki þyrfti nema meiri hluta atkvæða til að ráða úrslitum. Var það gert, og hefir meiri hluti atkvæða gilt síðan í atkvæðagreiðslu um vínbann í sveitum og bæjum (local option).

Þennan vetur var talsverður áhugi meðal meðlima stúkunnar með það að koma upp stúkum út um bygðir Íslendinga. Einn meðlimur stúkunnar, Guðmundur Anderson, ferðaðist um Nýja-Ísland og stofnaði þar tvær stúkur: aðra að Geysi og hina að Hnausum. Veitti stúkan dálitla fjárupphæð úr sjóði sínum til að borga ferðakostnaðinn. Ári áður hafði stúkan einnig borgað ferðakostnað eins af meðlimum sínum, Bergsveins M. Longs, til Gimli, er hann fór þangað til að reisa við stúku þar, sem var hætt að starfa. Síðar á árinu 1902 áttu ýmsir meðlimir stúkunnar góðan þátt í því að sænsk stúka var stofnuð í Winni-

peg. Nokkrir Svíar, er verið höfðu Good-Templarar í Svíþjóð, settust að í Winnipeg. Bjuggust þeir við að finna einhverja bindindisstarfsemi meðal landa sinna; en er þeir fundu hana ekki sneru þeir sér til íslenzkra bindindismanna. Var þeim veitt öll aðstoð, sem unt var að láta í té, til að koma á fót sænskri stúku. Sérstaklega gengu þœr ungfrú Helga H. Johnson og ungfrú Guðrún Jóhannson, vel fram í því máli. Reglan blómgaðist mjög vel meðal Svíanna í Winnipeg, enda fluttu þeir með sér áhuga fyrir málefninu að heiman frá föðurlandinu. Nú eru hér tvœr sænskar stúkur, báðar öflugar og framfaramiklar.

Alt þetta ár má heita að meðlimatalan stœði í stað; lœkkaði ofurlítið fyrri hluta ársins, en hækkaði svo aftur síðari hlutann. Við árslokin var hún um 330.

Með ársbyrjun 1903 var húsbyggingarmálið tekið fyrir á ný. Húsið, sem stúkan notaði til fundarhalda var, ýmsra orsaka vegna, orðið ónógt. Þar að auki var það á þeim stað, sem sýnilegt var að mundi innan skamms verða all-langt frá aðalstöðvum Íslendinga í bœnum. Voru menn á þeirri skoðun, að ekki mætti lengi dragast, að koma upp hentugu heimili fyrir félagsskapinn. Snemma í janúar kaus stúkan nefnd til að leita eftir húslóð á hentugum stað. Samskonar nefnd var kosinn í stúkunni Skuld skömmu síðar, því það var skoðun og vilji allra, að stúkurnar sameinuðu sig með þetta fyritæki. Nefndin gaf von bráðar skýrslu. Hafði hún í hyggju að kaupa lóð á Sherbrooke stræti, skamt frá Notre Dame avenue og þótti öllum það góður staður. Ekki varð samt af því að þar væri keypt; lóðin reyndist of dýr, þegar til kom.

Var þá leitað fyrir sér annarsstaðar, og að lokum keypt lóð á Young stræti skamt frá Notre Dame avenue, fyrir 1700 dollara. Lóðinni fylgdi gamalt hús og smáhýsi sem leigja mátti. Kaupskilmálarnir voru þannig: að 500 dollara átti að borga strax og afganginn að þremur mánuðum liðnum. Stúkan Hekla átti ofurlítinn byggingarsjóð. Var bætt við hann úr stúkusjóði þar til hennar hluti af fyrstu borguninni var fenginn. Var nú strax tekið til að safna fé, bæði með samskotum og samkomum, og kom nokkurt fé inn á þann hátt. Einnig gáfu húsin, sem stóðu á lóðinni ofurlítið af sér. Skömmu eftir að lóðin var keypt voru báðar stúkurnar löggiltar undir lögum fylkisins, og voru þær í löggildingarskjalinu nefndar: The Icelandic Good-Templars of Winnipeg. Um leið og löggildingin fór fram, var kosin sameiginleg fulltrúanefnd (Trustees), sem annast skyldi um húsbyggingarmálið og hafa umsjón yfir hinni sameiginlegu eign stúknanna. Í fyrstu fulltrúanefndinni voru þessir menn:

*Guðm. Anderson.*
*Teitur Thomas.*
*Kristján Stefánsson.*
*Ísak Jonsson.*
*Árni Anderson.*
*Friðrik Swanson.*
*Hergeir Danielsson.*
*Jón Ólafsson.*
*Gunnl. Jóhannsson.*

Ekki var hugsað til að byggja að svo komnu, en gerður var uppdráttur og kostnaðaráætlun, sem þó



EMBÆTTISMENN STÚKUNNAR, ÞEGAR HÚN VAR 25 ÁRA.

*Efri röð frá vinstri til hægri:* Bergsveinn M. Long. Sigurður Sigurðsson, Guðmundur Gíslason, Skafti B. Brynjólfsson, Björn E. Björnsson, Guðmundur S. Snædal, Guðmundur Árnason. *Milli fyrstu og annarar raðar:* Aðalbjörg Björnsson, Kristín Olson. *Neðri röð:* Gróa Magnússon, Sigríður Swanson, Nanna Benson, Páll S. Pálsson. Guðrún Búason.

ekki var notaður, því flestum þótti í of mikið ráðist að byggja eftir honum.

Um vorið 1903 var stofnuð enskumælandi stúka í Winnipeg. Allar eldri stúkurnar, þar á meðal Fort Garry stúkan, sem áður hefir verið minst á, og sem lengi var mjög fjölmenn og öflug stúka, voru fyrir nokkru lagðar niður. Höfðu ýmsir af meðlimum þeirra gengið í félagið Royal Templars of Temperance, sem var og er mjög sterkt bindindisfélag í Kanada, með lífsábyrgð fyrir meðlimi sína og fleiru þess háttar. Íslendingar höfðu að heita mátti einir haldið Reglunni við um nokkur ár. Þessi nýja stúka var stofnuð af mönnum, er voru nýkomnir frá Englandi og höfðu tilheyrt Reglunni þar. Guðmundur Anderson, er þá var stórtemplar stofnsetti stúkuna og fleiri meðlimir Heklu studdu hina nýju stúku af alefli fyrst framan af. Var það íslenzkum Good-Templurum hið mesta fagnaðarefni, að enskumælandi stúka komst aftur á fót í bænum.

Þegar hag reglunnar var svona komið, álitu nokkrir meðlimir íslenzku stúknanna, að lang-bezt væri að stofna íslenzka stórstúku. Var það mál rætt fram og aftur árið 1902 og komst þá fyrir stórstúkuþing. En margir voru því mótfallnir og álitu að það mundi ekki hafa góðar afleiðingar í för með sér fyrir Regluna í heild sinni. Þegar ekkert varð úr stofnun Íslenzkrar stórstúku, vildu ýmsir að stofnuð yrði íslenzk umdæmisstúka. Umdæmisstúkur voru ekki til í umdæmi stórstúkunnar. Málið var lagt fyrir stórstúkuþing 1905 að tilhlutun nokkurra meðlima Heklu og Skuldar

og sænsku stúkunnar Framtidens Hopp. Stórstúkan vísaði því til framkvæmdarnefndarinnar. en þar sem fáir í henni voru meðmæltir stofnun umdæmisstúku, varð ekkert af framkvæmd í því máli.

Meðlimum stúkunnar fjölgaði nokkuð þetta ár, voru þeir við árslokin um 350. Hlutavelta var haldin fyrir sjúkrasjóðinn og einnig afmælishátíð, auk annara samkoma til arðs fyrir byggingarsjóðinn og fleira.

Einhverntíma um þetta leyti var stofnuð barnastúka undir gæzlu íslenzku stúknanna. Stúkan Hekla lagði fram dálitla peningaupphæð á móti stúkunni Skuld, til stuðnings henni, en ekki gekk vel að halda henni við og lagðist hún víst fljótt niður aftur.

Í janúar 1904, var skrifuðu blaði komið á gang, sem var lesið á fundum. Þrír meðlimir stúkunnar: Kristján Stefánsson, Páll S. Pálsson og Guðm. Árnason gengust fyrir því. Blaðið flutti helst smágreinar og fréttir um bindindismálið og ýmislegt til skemtunar. Blað þetta var nefnt ,,Neisti". Er það ennþá við lýði, þó ekki hafi það komið út stöðugt síðan það byrjaði. Auk þeirra, sem stofnuðu,það hafa ýmsir séð um útgáfu þess, þar á meðal Eggert J. Árnason, Björn E. Björnsson og nú síðast Stefán Einarsson. Hefir oft þótt góð skemtun að því á fundum.

Um vorið 1904 var þriðja íslenzka stúkan stofnuð í Winnipeg. Hlaut hún nafnið ,,Ísland", og var stofnuð af nokkrum meðlimum, sem gengið höfðu úr stúkunni Skuld út af ágreiningi um eitt og annað, sérstaklega þó umræður snertandi trúmál á stúkufundum. Fleiri bættust og við. Enginn minsti ágreiningur átti sér stað milli stúkunnar Heklu og þessarar nýju

stúku. Stúkan Ísland tók all-miklum framförum fyrst í stað og eignaðist marga dugandi meðlimi. En með tímanum tapaði hún sumum af stofnmeðlimum sínum og aðrir bættust ekki við í stað þeirra. Hætti stúkan loks starfi, eins og skýrt mun verða frá síðar.

Að öðru leyti var þetta ár fremur viðburðalítið. Meðlimatalan stóð hér um bil í stað, fækkaði þó nokkuð; við byrjun nóvemberársfjórðungsins hafði stúkan 346 meðlimi.

Eins og á hefir verið vikið skipuðu Íslendingar meiri hluta embœtta í stórstúkunni á þessum árum. Skipuðu meðlimir úr Heklu sum vandasömustu embættin svo árum skifti. Árið 1901 var ungfrú Guðrún Jóhannsson (Búason) kosin stórritari og gegndi hún því embætti í 10 ár, til 1911 með stakasta dugnaði og áhuga. Má segja að framfarir Reglunnar í umdæmi stórstúkunnar á þeim árum hafi verið henni að þakka fremur en nokkrum öðrum einstökum manni eða konu. Sama ár var ungfrú Helga H. Johnson kosin stór-gjaldkeri. Ári síðar var Guðm. Anderson kosinn stór-templar. Hafði hann það embætti í tvö ár og síðar eitt ár 1906—7. Var hann mjög vinsæll stór-templar og vann einlæglega að framförum Reglunnar. Bergsveinn M. Long var kosinn stór-gjaldkeri 1902 og aftur 1905 og síðan stöðugt endurkosinn í það embætti til 1911. Rækti hann það ávalt með mestu alúð og samvizkusemi. Húsfrú Nanna Benson, sem gerðist meðlimur Heklu 1904 var kosin stórgæzlumaður ungtemplara 1905. Áður, meðan hún var meðlimur Skuldar, hafði hún verið stór-varatemplar. Aðrir meðlimir stúkunnar, sem á þessum árum

höfðu embætti á hendi í stórstúkunni voru Ingvar Búason stór-kapelán, ungfrú Halldóra P. Johnson stór-dróttseti og gæslumaður kapplestra og Björn Hallsson stór-vörður.

Á hástúkuþinginu, sem haldið var í Stokkhólmi í Svíþjóð 1902, mætti Ingvar Búason fyrir hönd stórstúku Manitoba og Norðvesturlandsins. Var það í fyrsta sinn sem Vestur-Íslendingur mætti á hástúkuþingi. Meðan Fort Garry stúkan var við lýði var Thomas Nixon, sem áður hefir verið minst á, oftast kosinn erindreki stórstúkunnar á hástúkuþingin. Heiður sá, sem Ingvari Búasyni var sýndur með þessari kosingu var vel verðskuldaður, því hann var mjög ötull og einlægur bindindismaður. Því miður naut stúkan Hekla ekki lengi vinnu hans eftir það, Því hann dó sumarið 1904 á bezta aldri.

Byggingarmálið hafði legið niðri um tíma, en vorið 1905 var það aftur tekið til meðferðar. Lóðin á Young stræti reyndist óhentug, vegna þess að Íslendingar fluttu þá margir lengra vestur í bæinn, er þeir gátu selt hús sín og lóðir á strætum þar í kring fyrir gott verð. Lóðin var þess vegna seld fyrir 2640 dollara. Höfðu stúkurnar þá grætt rúm 900 dollara þau tvö ár, sem þær áttu hana og fengið þar að auki nokkuð í leigu fyrir húsin. Um haustið var svo keypt lóð á horninu á Sargent ave. og McGee stræti, sem var mjög hentugur staður, fyrir 1225 dollara. Var nú tekið til óspiltra málanna með að koma upp húsi, því stöðugt urðu ókostir húss þess, sem notað var, tilfinnanlegri. Vorið 1906 var byrjað að byggja og var bygt stórt og rúmgott fundarhús með tveimur sam-

komusölum, sem rúma 400 manns sá minni og 600 sá stærri. Húsið er úr múrsteini traustlega bygt. Var það ekki eingöngu bygt sem fundarhús, heldur einnig sem alment samkomuhús. Snemma í september var hornsteinninn lagður með all-mikilli viðhöfn. Húsfrú Sezelja Eggertsson kona Ásbj. Eggertssonar, sem þá var formaður fulltrúanefndarinnar, lagði steininn. Litlu eftir áramótin var húsið fullgert. Var byrjað að halda fundi í því seint í janúar 1907. Meðan á byggingu þess stóð og ávalt síðan lagði hvor stúka fram sinn helming af kostnaði. Talsvert var rætt um áður en byrjað var að byggja, hvort stúkan Ísland gæti orðið meðeigandi í húsinu. Margir voru þess fýsandi, en þó mætti það nokkurri mótspyrnu í fulltrúanefndinni. Og þar sem stúkan Ísland var ekki þess megnug að bera þriðja hluta kostnaðarins, varð ekkert úr því að hún yrði með. Allur kostnaður við húsbygginguna varð eðlilega miklu meiri en það sem stúkurnar gátu lagt fram og safnað í viðbót við andvirði lóðarinnar á Young stræti. Nefndin varð að taka all-hátt lán gegn veði í húsinu. Var oft æði erfitt fyrstu tvö til þrjú árin að standa í skilum með afborganir af láninu. Hlupu þá ýmsir af nefndarmönnum stundum undir bagga með skyndilán frá sjálfum sér. Þegar samskota var leitað, bæði meðan á byggingu hússins stóð og síðar, þegar greiða þurfti skuldir, gekk mjög vel að fá þau. Meðlimirnir lögðust allir á eitt, er þeir sáu að nauðsynlegt var að safna fé. Einnig gáfu nokkrir menn, sem ekki tilheyrðu stúkunum all-ríflegar gjafir. Meðlimir stúkunnar Heklu gáfu og söfnuðu í byggingarsjóðinn 3939 dollurum. Húsið

kostaði, með sætum og öðrum munum tilheyrandi 17612 dollara og 45 cent. Á þeim sex árum, sem liðin eru síðan það var bygt, hefir lóðin, sem það stendur á, hækkað mjög mikið í verði; mun ekki of mikið í lagt nú að meta lóð og hús 25000 dollara virði. Fulltrúanefndin hafði að öllu leyti umsjón yfir byggingarfyrirtækinu og réði allri gerð hússins. Þessir menn voru í henni meðan húsbyggingin stóð yfir:

*Kristján Stefánsson.*
*Jóhannes Sveinsson.*
*Bjarni Magnússon.*
*Jón Tr. Bergmann.*
*Gunnlaugur Jóhannsson.*
*Ásbjörn Eggertsson.*
*Guðmundur Bjarnason.*
*Sigfús Jóelsson.*
*Magnús Jónsson.*

Um það leyti sem húsið var fullgert lögðu nokkrar konur og stúlkur úr stúkunni út í það stór-fyrirtæki að kaupa hljóðfæri (píanó) er kostaði um 900 dollara, fyrir stærri fundarsalinn í húsinu. Mynduðu þær félag, er þær nefndu „Hörpu", sem hafði það eitt fyrir markmið að safna peningum til að borga fyrir hljóðfærið. Félagið vann vel og dyggilega að þessu ætlunarverki sínu þar til því var lokið. Um leið og það síðasta af andvirði hljóðfærisins var goldið, gaf félagið stúkunni það og hætti síðan að starfa. Var þetta mjög vel af sér vikið og mátti kalla í mikið ráðist af fáum stúlkum. En sigursæll er góður vilji.

Snemma á árinu 1906, kom til tals að sameina

stúkurnar Heklu og Skuld. Hugmyndin átti upptök sín hjá Skuld. Hafa þeir, sem fyrstir komu fram með hana, efalaust álitið, að það mundi styrkja félagsskapinn. Mál þetta fekk daufar undirtektir hjá Heklu. Nefnd var sett til að íhuga það; en hún réði stúkunni frá að renna saman við aðra stúku. Hélt hún fram, eins og margir aðrir, að málefnið hefði engan hag af því. Féll svo mál það að sjálfsögðu niður.

Veturinn 1906 voru nokkrar kapplestrarsamkomur haldnar og rann ágóðinn af þeim í byggingarsjóðinn.

Alt það ár hélst meðlimatalann við það sama að heita mátti: var hún um 430 og nokkuð þar yfir stundum. Enginn afmælishátíð var haldin það ár, sem stafaði af annríki við húsbygginguna. Mun það vera eina árið síðan stúkan varð til, sem afmælishátíð hefir ekki verið haldin. Sjúkrasjóðshlutavelta var þó haldin.

Tilraun var gerð að fjölga meðlimum þegar flutt var í nýja húsið og bar hún góðan árangur. Á hálfu ári fjölgaði meðlimunum um hér um bil 50, voru í byrjun ágúst 1907 392. Þá síðari hluta vetrar og um vorið var farið að undirbúa stofnun barnastúku. Komst hún á fót og eignaðist brátt marga meðlimi. Fyrsti gæzlumaður hennar frá Heklu, var húsfrú Guðrún Skaptason. Dafnaði barnastúkan mjög vel undir stjórn hennar. Síðar fór henni nokkuð aftur, en er þó ennþá starfandi með góðum árangri. Má það undarlegt heita, hversu erfitt hefir verið að halda barnastúkum við til lengdar í skjóli jafn fjölmennra stúkna og Heklu og Skuldar, og verður naumast öðru

um kent en áhugaleysi meðlimanna á þeim mjög þýðingarmikla hluta bindindisstarfsins.

Við árslokin 1907 sýndu skýrslurnar að 122 meðlimir höfðu gengið í stúkuna á því ári.

Því miður hélt meðlimunum ekki áfram að fjölga, heldur fækkaði hið næsta ár og einnig árið 1908. Varð tala þeirra um tíma rúm 300. Mun það hafa stafað af því að ýmsir ætluðu, að stúkunum mundi veitast erfitt að standa straum af húsinu. En ekki leið á löngu áður en meðlimunum færi aftur að fjölga.

Tuttuga ára afmæli stúkunnar var haldið 1907. Var vandað til þess eftir bestu föngum.

Veturinn 1908 var myndaður leikflokkur í sambandi við stúkurnar. Sýndi hann nokkura leiki þá um veturinn og næsta vetur. Samskonar flokk höfðu stúkurnar haft nokkurum árum áður. En lítið var annað en fyrirhöfnina upp úr því að hafa. Íslendingar í Winnipeg eru of fáir til þess að hægt sé að sýna sjónleiki meðal þeirra með nokkrum verulegum hagnaði.

Árið 1909 var Umdæmisstúka stofnuð í Winnipeg. Vora það enskir Good-Templarar, sem einkum gengust fyrir því. Íslenzku stúkurnar tóku nokkurn þátt í starfi hennar fyrst framan af. En málsins vegna og annara orsaka hefir sú þáttaka farið mjög rénandi síðari árin; enda hefir alt starf umdæmisstúkunnar verið fremur ófullnægjandi og hennar ekki beinlínis þörf.

Árið 1910 var fremur viðburðalítið. Meðlimum gerði hvorki að fjölga né fækka það ár að neinum mun. Þing yfirstórstúku Kanada (National Grand Lodge) var haldið í Winnipeg það ár. Þá um sumarið

gerði stúkan áskorun til forstöðunefndar þjóðminningardags Íslendinga, þess efnis að sjá um af fremsta megni, að áfengi yrði ekki um hönd haft á skemtistaðnum þann dag. Fekk áskorun sú góðar undirtektir. Einnig tók stúkan þátt í að áskorun var send til fylkisstjórnarinnar frá mörgum bindindisfélögum, um umbætur á vínsölulögum fylkisins.

Þegar nokkuð kom fram á árið 1911 fór meðlimum aftur að fjölga. Fyrsta ágúst voru þeir 326 og fór svo stöðugt fjölgandi til ársloka. Það ár gengu rúmir 80 nýir meðlimir í stúkuna og bar einn bróðir, Magnús Skaftfeld 25 þeirra upp. Mun það vera það mesta, sem nokkur einn meðlimur hefir gert á einu ári í því að fjölga meðlimum. Sýndu nokkrir bræður honum ofurlítinn viðurkenningarvott fyrir dugnað hans með því að sæma hann ofurlítilli gjöf, úrkeðju úr gulli, í heiðursskyni.

Um veturinn 1911 gekst umbótafélag eitt, Moral and Social Reform Counsil, sem er myndað af fulltrúum frá kirkjufélögum, bindindisfélögum, verkamannafélögum og fleiri félögum, fyrir því, að skorað var á þingið og stjórnina í fylkinu að afnema með lögum opinberar drykkjustofur, þar sem menn geta keypt áfengi og drukkið á staðnum. Stúkan var beðin að hjálpa til með að safna undirskriftum. og kaus hún nefnd til þess. Um 20,000 kjósenda í öllu fylkinu skrifuðu undir áskorunina, sem var eigi all-lítill hluti allra kjósenda. En henni var stungið undir stól og ekkert frumvarp lagt fyrir þingið vínsölunni viðvíkjandi, né málinu sint hið minsta á nokkurn annan

hátt. Næsta ár var stjórnin beðin að taka áskorun þessa til greina en alt árangurslaust.

Stúkan Ísland skilaði aftur stofnskrá sinni 1911. Voru meðlimir hennar orðnir svo fáir, að þeir sáu sér ekki fært að viðhalda stúkunni lengur. Gengu margir þeirra í Heklu, þegar stúkan hætti að starfa, og hafa sumir þeirra verið með ötulustu starfsmönnum stúkunnar síðan. Má þar til nefna: Skafta B. Brynjólfsson, Hreiðar Skaftfeld, húsfrú Sigríði Swanson o. fl.

Á síðastliðnum tveimur árum hafa stúkurnar komið upp hjá sér lækningarsjóði fyrir ofdrykkjumenn. Hefir nokkrum mönnum verið hjálpað til að fá lækningu við ofdrykkju með lánum úr þessum sjóði. Má óhætt segja, að það sé eitt af þörfustu fyrirtækjum, sem stúkurnar hafa ráðist í, því margir, sem hafa notið slíkrar lækningar, hafa orðið mestu reglumenn á eftir.

Þetta síðastliðna ár hefir meðlimum stúkunnar fjölgað mjög mikið. 119 meðlimir gengu inn á árinu og við árslokin var meðlimatalan 420. Á þessu ári tók stúkan upp það fyrirkomulag, að hafa annanhvorn fund skemtifund. Mun það hafa átt eigi all-lítinn þátt í, hversu margir nýir meðlimir hafa bæzt við. Þann 27. desember 1912 var aldarfjórðungs-afmæli stúkunnar haldið hátíðlegt. Gátu meðlimir hennar þá með sanni sagt, að sín stúka væri nú eigi að eins öflugri en hún nokkru sinni áður hefði verið, heldur einnig hin öflugasta Good-Templara stúka í Kanada. En um leið hefðu þeir mátt segja, að það væri hún að eins vegna hins óbil-

andi áhuga á bindindisstarfinu og hins óþreytandi vilja til að vinna í málefnisins þarfir, sem margir þeirra hafa ávalt haft í svo ríkum mæli.

Margir beztu starfsmenn stúkunnar hafa verið nefndir hér að framan, en margra mætti enn geta, ef rúmið leyfði. Nokkura verður að nefna á nafn, sem lítið eða alls ekki hefir verið getið um áður: Kristján Stefánsson, Bjarni Magnússon, Ólafur Bjarnason, Eggert J. Árnason, Björn E. Björnsson og Páll S. Pálsson hafa lengi verið með ötulustu meðlimum stúkunnar. Þrír hinir fyrst töldu hafa hvað eftir annað verið í fulltrúanefnd stúknanna, einn þeirra, Kr. Stefánsson, stöðugt síðan nefndin fyrst varð til. Jón T. Bergmann, Jóhannes Sveinsson og Hreiðar Skaftfeld hafa einnig átt sæti í þeirri nefnd fyrir stúkunnar hönd, auk einhverra fleiri. Þó ekki séu fleiri nöfn talin hér eru ekki allir áhugamiklir og starfsamir meðlimir stúkunnar taldir.

Þegar litið er til baka yfir aldarfjórðunginn, má segja, að starf stúkunnar hafi gengið mæta vel. Frá félagslegu sjónarmiði hefir stúkan stöðugt eflst, þó meðlimum hafi stundum fækkað. Auk bindindisstarfsins sjálfs hefir hún stutt ýmsa hjálparstarfsemi, og tillögin til sjúkra meðlima úr sjúkrasjóði nema miklu, líklega um 2500 dollurum auk samskota til bágstaddra og samkomuhalda þeim til hjálpar, sem stúkan hefir oft veitt forstöðu. Verksvið stúkunnar hefir verið eingöngu meðal Íslendinga. Íslenzkir Good-Templarar hafa ekki getað haft bein áhrif á löggjöf og afstöðu þjóðarinnar gagnvart bindindismálinu, nema í samvinnu með öðrum bindindisfélögum. Starf þeirra hefir því aðallega

verið í því falið að útbreiða bindindi meðal Íslendinga og vinna á móti drykkjuskapnum þeirra á meðal. Að sjálfsögðu eru skoðanir almennings á nytsemi bindindisstarfseminnar hér meðal Íslendinga skiftar, eins og skoðanir manna á flestu eru skiftar, en allir sanngjarnir menn munu sammála um, að fá málefni hafi verið gagnlegri fyrir þjóðflokk vorn hér en bindindismálið. Mega bindindismenn þá sjálfir líta með ánægju til baka yfir liðna tímann og gleðjast yfir sigri málefnis síns, sem nú er af flestum viðurkent að vera eitt af helztu velferðarmálum hins mentaða heims. Og eins og óvissan var mikil fyrir tuttugu og fimm árum, hvort bindindi þrifist meðal Íslendinga, er vissan nú, að það mál verður jafnan hér eftir eitt af stærstu áhugamálum þeirra.





## *KVÆÐI*

*ort fyrir minni stúkunnar á 25 ára afmæli hennar.*

I.

Þegar meining er góð, þegar markið er hátt,
og mannanna leiðtogar rata,
mun hópurinn þokast í ákveðna átt
og ávinna nokkuð til bata.
Þegar haldið er áfram og hvergi er slórt
né horft yfir sporin til baka;
ef viljinn er sterkur, þá vinst eitthvað stórt,
sem vert er til greina að taka.

Að stórverki unnu er mannanna minst,
þá metast þeir gull sinnar þjóðar.
Af einstaklings hugsjónum ágæti vinst
og arftökur þarfar og góðar.
Við sameinað starfsþrek og sameinuð ráð
er sundin svo auðvelt að brúa;
þá verður og markinu von bráðar náð,
það vinnst að eins með því að t r ú a.

Að trúa á hið góða í gjörðum hvers manns,
að glæða hvert ljós, sem að skín þar,
að fægja hvern gimstein í hugsjónum hans,
að hlúa' að þeim neista, sem dvín þar.
Með samúð og bróðurhug bæta hans mein,
en brotum hans þráfalt að gleyma.
Já, þá verður framtíðin flekklaus og hrein
og fegurri en nokkurn má dreyma.

Og hann verður sælastur hópurinn sá,
sem hræðist ei óþektar brautir,
sem bætandi ástandi býðst til að ná
og brýzt gegnum mannlegar þrautir.
Þó andinn sé tefjandi illgjarn og þrár,
sem afturhalds forneskjan teymir,
þá rætast þó oftast þau áform og spár,
sem æskuna' í tómstundum dreymir.

Og heill sé því hverjum sem hugsjónir á
til hjálpar því göfuga og sanna,
sem fús er til stríðs og sinn styrkleik vill ljá
til stuðnings sér veikari manna:
sem hatar þann níðing er halla vill á
sinn heimskari og veikari bróður,
sem elskar hvern vesling, er flæmdur er frá,
en forsmáir vébönd og tjóður.

II.

Hér er gleði í sal,
öllum gremja úr lund.
Það er glymjandi og bjart hér í kvöld,

því hin ötula sveit
hefir staðið við strit,
eins og stórmenni og hetjur í fjórðung úr öld.

Fyrir fjórðung úr öld
var hér fáment og strjált,
enda fátt um þau gæði er samvinnan skóp
en þá tóku sig fram
rúmir tuttugu manns,
hétu trygð við hvern annan og mynduðu hóp.

Og þeir tóku að sér verk,
sem að fáum er fært,
sem að framkvæmist að eins með hygni og dáð.
Til að afskafa löst,
til að umbreyta sið,
snúa almennings vana, þarf dugnað og ráð.

Þeirra hugmynd var ný,
þeim var alstaðar ýtt,
þeim var alls konar mótlæti, og hrakförum spáð.
Þeirra hámark var sett,
þeirra hugsjón var björt,
svo þeir hræddust ei nartandi þverúð og háð

Honum fjölgaði brátt
þessum fámenna hóp,
þó í fyrstu hans leið virtist krókótt og dimm.
fyrir elju og kjark
og hvers einstaklings þrek;
hefir árum hans fjölgað í tuttugu og fimm.

Þeir sem sjá hann í dag
geta sagt um það bezt
hvar hann sæti má skipa í félaga röð,
hvort að áform hans nást,
hvort hans braut sé ei björt,
hvort hann beini ei stefnu að áfanga stöð.

---

Lifi Hekla þín frægð,
ljómi heiður þinn æ,
nái hvervetna fylling þín viðleitni og spá.
Verði gata þín greið
opnist ljósvarin leið
til þess lands, sem draumarnir framkvæmast á.

Fylgi gæfan þér æ,
hopi hindran úr leið,
ljómi heill þín eins langt eins og vonirnar ná.
Þegar gatan er lögð,
þegar sagan er sögð,
þá mun sjást, hvort þín þýðing er stór eða smá.

III.

Þú sem stjórnar þessum heimi
þínum veldisstóli frá.
afstýr lífsins öfugstreymi
öllum háska stýr þú hjá.
Heyr þann sem í hörmung kallar
heyr þú barnsins neyðaróp.
Blessa, drottinn, bætur allar.
Blessa, drottinn, þenna hóp.

*Eggert J. Árnason.*



Jóna Gíslason. Hjálmar Gíslason. Þóra Olson. Olga Skaftfeld. Sigurveig Christie. Sumarliði Matthews. Hildur Johnson.
Jón Gillis. Margrét Eiríksson. Ingibjörg Laxdal. Hildur Magnússon. Lawrence Thomson.
Inga Gillis. Jakobína Johnson. Friðmunda Christie.

## *HEKLA.*

Ég var úti á Ísa-köldu-láði
— eyðifjall af hrauni og snœvi krýnt. —
Hugur allra hættu frá mér spáði,
heitum loga er gæti deytt og pínt.
Sögu minnar safn er voða-þáttur
í sögu lands, en geymist alla tíð,
að sanna það, að yðar menski máttur
sitt magn og veldi hlaut við böl og stríð.

Ég er hér á vesturheimsins vengi
— vinaband, er tengir saman öfl —
Um hjörtu manna hnýtta lét eg strengi,
að hugans eining vinni flókin töfl.
Börnin þeirra, er böli og þraut ég kvaldi,
brutu nafn mitt álögunum frá,
unnu margan heiður mér að haldi:
hverju mun ég launað yður fá?

Ég á kraft í kyngi orða minna,
er kulnar ei þó gráni feðra hár,
hríni þau á niðjum þín og þinna
í þúsund sinnum hundrað þúsund ár.

Hjá þér vaxi vit og þrek hins góða,
veiklist það, sem getur spilt og eytt;
blessist þeir er traust og tryggðir bjóða.
Tálmi þinni framför ekki neitt.

Mæli eg um, á meðan norræn tunga
munarfögrum hljómi birtir orð,
vaxa skaltu þjóðin Íslands unga
íturmennum byggja þessa storð.
Með þér ætíð nafnið „Hekla" haldist,
svo heiður vaxi yðar bæði og minn.
Ég veit og trú'i að öllum endurgjaldist
alt er gerðu fyrir bróður sinn.

*Sveinbj. Árnason.*





## *MYNDIR OG MINNINGAR*
### *nokkurra meðlima stúkunnar.*

*Húsfrú* GUÐRÚN BÚASON gekk í stúkuna Heklu 11. marz 1892. Þó hún þá væri unglingur, 16—17 ára gömul, kom brátt í ljós, að hún var í stúkuna komin til að vinna og gera bindindisstarfið að æfilöngu starfi.




Ekki hafði hún lengi verið í stúkunni, er hún var kosin í embætti, svo hvert embættið af öðru, þar til hún var sett í æðsta templars embættið; umboðsmanns embættið hafði hún á hendi í fleiri ár.

Árið 1893 var hún kosin fulltrúi stúku sinnar á stórstúkuþing og á flestum stórstúkuþingum síðan hefir hún setið.

Á stórstúkuþinginu 1899 var hún kosin stórvaratemplar og á næsta þingi 1901 var hún kosin stórritari; það embætti hafði hún á hendi 10 ár, eða þar til á stórstúkuþinginu 1911, er hún neitaði að taka kosningu, þó það væri eindreginn vilji þingsins, því ávalt höfðu embættisverk hennar verið í mestu röð og reglu og samkomulagið milli hennar og annara í framkvæmdarnefndinni hið ákjósanlegasta. Dugnaður hennar og áhugi verður lengi í minnum þeirra, sem unnu með henni þar.

Árið 1908 var hún send sem fulltrúi Manitoba stórstúkunnar á hástúkuþingið, sem þá var haldið í Washington. Á því þingi var hún kosin varatemplar hástúkunnar. Er hún fyrsti Íslendingur, sem komist hefir í framkvæmdarnefnd hástúkunnar.

Sumarið 1910 fór hún til Antwerp í Belgíu til að sitja á framkvæmdarnefndarfundi hástúkunnar, og á næsta sumri 1911 fór hún á hástúkuþingið, sem haldið var i Hamborg á Þýzkalandi, bæði sem embættismaður og fulltrúi stórstúku sinnar.

Margt fleira en það sem hér er tekið fram hefir str. G. Búason unnið fyrir stúkuna Heklu og Regluna í heild sinni, enda er hún víða þekt sem vel mentuð og starfsöm bindindiskona. —Heiður fyrir hana sjálfa, heiður fyrir Íslendinga og heiður fyrir stúkuna Heklu.

*Húsfrú SIGNÝ OLSON* gekk í stúkuna Heklu 7. marz 1888 og hefir ávalt verið meðlimur hennar síðan. Oft hefir hún unnið í embættum og nefndum fyrir stúkuna og ætíð sýnt skyldurækni í störfum sínum og velvild til stúkunnar. Árið 1895 sat hún á stórstúkuþingi sem fulltrúi frá sinni stúku og oftar eftir það. Stöðuglyndi hennar og starfsemi í stúkunni er öðrum fyrirmynd.



---

*GUÐMUNDUR ANDERSON* gekk í stúkuna Heklu 7. nóv. 1890. Hann varð brátt einn af beztu meðlimum hennar. Sat hann í flestum embættum aftur og aftur. Hann var góður æðsti templar og ágætur ritari, enda var hann oft kosinn í það embætti. Þar að auki var hann iðulega í nefndum, því maðurinn er mesta lipurmenni og allir vildu með honum vinna. Árið 1892 sat hann á stórstúkuþingi sem fulltrúi frá stúkunni, og á mörgum stór-



stúkuþingum eftir það; ávann hann sér á þeim álit og vináttu samverkamanna sinna. Stór-kanzlari var hann kosinn 1901 og stór-templar 1903 og aftur 1906 og hefði efalaust verið endurkosinn í það embætti, hefði hann þá ekki flutt burt úr umdæmi stórstúkunnar og vestur til British Columbia, þar sem hann dvelur nú. En altaf er hann meðlimur stúkunnar og hefir nú tekið lífstíðar skýrteini. Á stórstúkuþinginu 1894 tók hann hástúkustigið. Félagssystkyni hans í stúkunni Heklu munu ávalt bera hlýjar endurminningar til hans.

---

*Ungfrú ÞORBJÖRG ÞORGEIRSSON* gerðist meðlimur stúkunnar 13. júní 1891. Hefirhún ávalt verið í stúkunni síðan og oft gegnt embœttum og nefndarstörfum ýmsum. Öll störf hefir hún leyst af hendi með vandvirkni og trúmensku og áunnið sér þannig traust og virðingu stúkunnar.



---

*Ungfrú SIGRÍÐUR JÓNSDÓTTIR* gekk í stúkuna Heklu 22. jan. 1892. Hún hefir jafnan verið mjög trúr meðlimur, bæði hvað snertir fundarsókn og framkvæmd þeirra starfa, sem henni hafa verið á hendur falin. Þau hefir hún leyst af hendi sem góðri félagssystur sæmir.



---

*KARL ANDERSON* varð meðlimur stúkunnar Heklu 11. desember 1891 og hefir ávalt síðan verið góður stúku- og Reglubróðir. Oft hefir hann unnið í nefndum og setið í embættum ársfjórðung eftir ársfjórðung. Organleikari stúkunnar var hann um mörg ár. Öll verk sín í þarfir stúkunnar hefir hann leyst af hendi með lipurð og skyldurækni.



---

*BERGSVEINN M. LONG* gekk í stúkuna Heklu 14. marz 1890. Hann má hiklaust teljast einn hinn allra-bezti meðlimur hennar. Áhugi hans á bindindismálinu er óbilandi og umhyggja hans um hag stúku sinnar sívakandi. Hann er maður mjög gætinn, en þó kappgjarn og framfylginn því sem hann tekur sér fyrir hendur. Koma þessir eiginleikar hans í ljós í öllu starfi hans í þarfir stúkunnar. Eru tillögur hans jafnan gætilegar og vel hugsaðar, en um leið styðjandi allar heilbrigðar framfarir í stúkunni. Hann er allra manna fúsastur að vinna í nefndum og á hvern hátt sem þarf og síhvetjandi aðra til að gera það sama.



Stúkan hefir metið hina ágætu starfshæfileika hans og áhuga með því að kjósa hann stöðugt í vandasömustu embætti sín. Hann var æðsti templar marga ársfjórðunga og nú hefir hann um mörg ár verið fjármálaritari, sem er mjög erfitt embætti í jafn fjölmennri

stúku og Hekla er. Á stórstúkuþingi 1893 sat hann sem fulltrúi stúkunnar og á flestum þingum síðan. Stór-dróttseti var hann kosinn 1896 og stór-gjaldkeri var hann frá 1905 til 1911.

Hverjum félagsskap, sem á nokkra jafn ötula meðlimi og bróðir Long er, er vel borgið. Stúkan Hekla á honum mjög mikið að þakka og bindindis málið á engan trúrri stuðningsmann meðal Vestur-Íslendinga.

---

*Húsfrú ÞURÍÐUR LONG* gerðist meðlimur stúkunnar 25. marz 1892. Hún hefir jafnan verið ein af beztu og duglegustu systrunum í stúkunni. Oft hefir hún unnið í nefndum og setið í embættum ársfjórðung eftir ársfjórðung. Öll störf sín í stúkunnar þarfir hefir hún leyst af hendi með skyldurækni og dugnaði. Hún hefir fengið fleiri til að gerast meðlimir stúkunnar en nokkur annar einn meðlimur, enda aldrei látið nokkurt tækifæri ónotað, því það er hennar hjartans sannfœring, að allir ættu að vera GoodTemplarar og vinna fyrir bindindismálið. Árið 1901 sat hún á stórstúkuþingi sem fulltrúi stúku sinnar.



---

*ÁRNI ANDERSON* gekk í stúkuna 11. desember 1891 og hefir jafnan síðan tilheyrt henni. Skrifari stúkunnar var hann nokkra ársfjórðunga og þótti ágætur skrifari. Einnig hefir hann unnið í ýmsum nefndum og ávalt þótt verkadrjúgur og samvinnugóður. Stúkan á von á að hann sem lögmaður beiti hæfileikum sínum og lærdómi bindindismálinu í hag, hvar sem hann getur því viðkomið.



---

*GUÐRÚN FRIÐRIKSDÓTTIR* gekk í stúkuna 25. marz 1892 og hefir ætíð síðan fylgt stúkunni og málum hennar með mesta áhuga og dugnaði. Oft hefir hún átt sæti í nefndum og jafnan hefir sæti hennar þótt vel skipað, því hjá henni hafa dugnaður og skörungskapur fylgst að. Svo er skyldurækni hennar mikil, að þó hún sé nú á áttræðisaldri sækir hún nálega hvern fund stúku sinnar. Breyti aðrir meðlimir stúkunnar þar eftir.



---

*Ungfrú AGNES JÓNSDÓTTIR* gekk í stúkuna 25. marz 1892. Hún hefir ætíð verið ágœtur meðlimur í stúkunni; aldrei látið þreytu eða vont veður hamla sér frá að sækja fundi. Oft hefir hún verið í embættum ársfjórðung eftir ársfjórðung og ár eftir ár því aldrei hefir hún legið á liði sínu, þegar vinna hefir þurft fyrir stúkuna, né heldur hafi þurft að leggja fram fé. Það er hverri stúku gott að eiga marga meðlimi henni líka.



---

*Húsfrú HELGA (Johnson) THOMSON* varð meðlimur stúkunnar 13. maí 1892. Mikið hefir hún unnið í hennar þarfir bœði í nefndum og embættum, þar á meðal í æðsta templarsembættinu, og alt sitt starf hefir hún af hendi leyst með vandvirkni og samvizkusemi. Árið 1895 sat hún á stórstúkuþingi sem fulltrúi stúku sinnar og á mörgum stórstúkuþingum eftir það. Árið 1897 var hún kosin stór-



varatemplar og endurkosin í það embætti næsta ár. Árið 1902 varð hún stór-gjaldkeri og 1906 stór-drótt-seti og endurkosin í það embætti næsta ár. 1907 tók hún hástúkustigið. Hún er meðlimur Reglunnar af áhuga fyrir málefninu.

---

*Húsfrú* HALLDÓRA *(Johnson)* BJARNASON



gekk í Heklu 9. júní 1895 og hefir jafnan síðan verið ágæt félagssystir. Oft hefir hún átt sæti í nefndum og gegnt embættum, sumum þeirra mjög vandasömum, eins og t. d. fjármálaritaraembættinu, og hefir hún leyst öll slík störf vel og vandvirknislega af hendi. Árið 1901 var hún af stúkunni kosin á stórstúkuþing og á fleiri þingum hefir hún setið síðan. Árið 1906 var hún kjörin aðstoðardróttseti í stórstúkunni og 1907 gæzlumaður verðlauna-kapplestra. Alt hennar bindindisstarf hefir verið henni sjálfri og stúku hennar til sæmdar.

---

*SIGTRYGGUR F. ÓLAFSSON* gekk í stúkuna 28. október 1892. Hann hefir ávalt síðan verið mjög trúverðugur meðlimur. Þeir, sem þekkja hann vel, vita að hann er ekki reikull í áformum sínum og sannast vel á honum orðtakið: „Þéttur á velli og þéttur í lund". Trauðla mun hann gerast bindindismálinu fráhverfur, fyrst hann eitt sinn gerðist fylgjandi þess.



---

*Húsfrú JÓHANNA ÓLAFSSON* gekk í stúkuna 28. október 1892. Hefir hún síðan staðið með manni sínum í stúkunni; og er það fagurt, þegar konur fylgja mönnum sínum að góðum áformum og verkum. Enda er verkahringur Good-Templara þannig sniðinn, að konur, jafnt sem menn, geta unnið þar gagn með höndum og huga.



---

*ÓLI W. OLAFSSON* gerðist meðlimur stúkunnar 6. jan. 1893. Líkist hann bróður sínum í því, að vera ekki eitt í dag og annað á morgun. Vissu allir, sem hannþektu, þegar hann gekk í stúkuna, að ekki mundu smámunir koma honum aftur úr henni. Verður hann að líkindum Good-Templari til æfi enda. Svo staðfastir ættu allir Good Templarar að vera.



---

*Húsfrú VALGERÐUR JÓSEFSSON* varð meðlimur stúkunnar 13. maí 1892. Er hún því búin að vinna í Reglunni rúm 20 ár. Embættis- og nefndarstörfum hefir hún iðulega gegnt í stúkunni. Hún hefir setið á tveimur stórstúkuþingum sem fulltrúi stúkunnar. Hún er ein þeirra fáu systra, sem tók talsverðan þátt í umræðum á fundum. Var hún oft fyndin í orðum og gaf hnittin svör, svo



fólki þótti góð skemtun. Eitt veit eg fyrir víst, sem er, að hún vill sjá vöxt og viðgang stúkunnar Heklu í framtíðinni. Hún er nú sezt að vestur í British Columbia og hefir fengið lífstíðarskýrteini hjá Heklu, því henni vill hún tilheyra meðan hún lifir.

---

*KRISTJÁN STEFÁNSSON* gekk í stúkuna 2. marz 1894. Hann er einn af beztu meðlimum stúkunnar. Oft hefir hann setið í embættum: verið æðstitemplar marga ársfjórðunga og umboðsmaður fleiri ár. Þar að auki hefir hann unnið í mörgum nefndum og sumum þeirra mjög þýðingarmiklum t. d. húsbyggingarnefndinni, sem hann hefir árlega verið kosinn í og oftast verið gjaldkeri hennar, því hann er allra manna áreiðanlegastur. Það er ekki ofsagt, að það sé sæmd fyrir Regluna að eiga hann fyrir meðlim. Á stórstúkuþingum hefir hann setið af og til síðan 1892 og 1906 var hann kjörinn aðstoðarritari í stórstúkunni.



---

*JÓN HALLSSON* gerðist meðlimur stúkunnar 24. apríl 1896. Jón, eins og systkyni hans og móðir, hefir ætíð komið fram sem mjög einlægur og áhugasamur Good-Templari og meðlimur stúkunnar Heklu. Margt hefir hann unnið fyrir stúkuna bæði í nefndum og embættum, og leyst alt vel og trúlega af hendi, því bæði er hann drengur góður og lipur í allri samvinnu. Árið 1903 sat hann á stórstúkuþingi sem fulltrúi stúkunnar og á fleiri þingum eftir það. Hástúkustigið tók hann á stórstúkuþinginu 1904.



---

*Húsfrú HELGA RUNÓLFSSON* gekk í stúkuna 2. nóv. 1897. Hún vann lengi vel í nefndum og embættum og gegndi störfum sínum jafnan með skyldurækni og vandvirkni. Ávalt er hún góður og áhugasamur meðlimur. Árið 1901 var hún fulltrúi stúkunnar á stórstúkuþingi.



*SVEINBJÖRN GÍSLASON* gekk í stúkuna 8. maí 1896. Hann hefir oft gegnt embættum í stúkunni þar á meðal embætti æðstatemplars og skipað sæti í nefndum. Öll verk sín í stúkunnar þarfir hefir hann leyst vel og trúlega af hendi. Nokkuð þykir hann formfastur, en hann er það af vináttu við Regluna. Hann eins og margir aðrir góðir Good-Templarar, álíta varhugavert að sleppa miklu af reglum og venjum félagsins. Árið 1901 sat hann á stórstúkuþingi fyrir hönd stúkunnar og síðan hefir hann af og til setið á stórstúkuþingum.



---

*J. KR. STEINBERG* gekk í stúkuna 27. maí 1898. Hann hafði ekki lengi verið í stúkunni áður en hann tók til starfa og vann vel og knálega bæði í nefndum og embættum. Hefði hann efalaust haldið því áfram, ef hann hefði ekki flutt burt úr bænum. Hann fluttist til Seattle, Washington og átti ásamt öðrum Good-Templurum frá Winnipeg góðan þátt í að stúka var stofnuð þar. Tók hann lausnarmiða í



Heklu 20. nóv. 1908 og gekk í þá stúku; síðan hefir hann verið meðlimur hennar. Árið 1900 sat hann á stórstúkuþingi í Winnipeg sem fulltrúi stúkunnar Heklu.

---

*WILH. KRISTJÁNSSON* gerðist meðlimur stúkunnar 29. ágúst 1898. Þó hann þá væri unglingur, var hugsunarháttur hans fullþroskaður. Taldi hann ofdrykkjuna ókristilega og óhafandi, hvar sem væri. Hefir hann margsýnt síðan, að hann er ávalt jafn-ákveðinn andstæðingur hennar. Meðan hann átti heima í Winnipeg vann hann alt sem hann gat fyrir stúkuna sat í nefndum og embættum; var um eitt skeið æðstitemplar stúkunnar. Nokkur síðustu árin, hefir hann dvalið annars staðar, en ávalt tilheyrt stúkunni og unnið mikið fyrir bindindismálið þar sem hann hefir verið. Er það stúkunni sæmd að eiga slíkan meðlim Árið 1900 var hann kjörinn á stórstúkuþing og sat þar sem einn af fulltrúum stúkunnar.



---

*Ungfrú ÞORGERÐUR ÞÓRÐARDÓTTIR* gekk í stúkuna 28- júlí 1899. Hefir hún jafnan síðan fylgt stúkunni vel og þráfaldlega verið í embættum og nefndum Ber hún velferð stúkunnar fyrir brjósti. Hún sat á stórstúkuþinginu 1902.



---

*Síra JÓHANN BJARNASON* gekk í stúkuna 25. september 1895. Öll þau ár, sem hann síðan hefir dvalið í Winnipeg, hefir hann verið mjög góður starfsmaður í stúkunni. Vildi hann gera stúkuna sem fullkomnasta og vann oft og vel í nefndum og embættum. Var hann æðsti templar marga ársfjórðunga og umboðsmaður svo árum skifti. Öll störf sín leysti hann af hendi með vandvirkni og dugnaði. Árið 1901 var hann kosinn á stórstúkuþing. Nokkur síðustu árin hefir hann ekki dvalið í Winnipeg,



en jafnan tilheyrt stúkunni og heimsótt hana, þegar hann hefir getað því við komið.

---

*Síra GUÐMUNDUR ÁRNASON* gekk í stúkuna „Díana" á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu veturinn 1896 og var í henni til vorsins 1899, er hann flutti til Seyðisfjarðar. Gekk hann þar í stúkuna „Fjólan" og var meðlimur hennar tvö ár. Ritaraembætti gegndi hann um hríð í þeirri stúku. Umdæmisstúkustigið tók hann vorið 1901 við stofnun Umdæmisstúku Austurlands. Haustið 1901, er hann flutti vestur um haf, tók hann lausnarmiða í stúkunni Fjólan og gekk í Heklu 25. október það ár. Hann er einn hinn áhugamesti og starfræknasti meðlimur sem stúkan hefir átt; stöðugt vinnandi í nefndum og þeim oft mörgum í einu og í embættum ársfjórðung eftir ársfjórðung, einkum ritara og æðstatemplars. Hann leysir störf sín af hendi með skyldurœkni; er sannur Good-Templar og ann bindindismálinu. Árið 1902 sat hann á stórstúkuþingi og einnig á síðustu fjórum stórstúkuþingum. Hástúkustigið tók hann 1910 og stórritari var hann 1911.



---

*JÓHANNES SVEINSSON* gerðist meðlimur stúkunnar 12. feb. 1904. Skrifara embættinu gegndi hann um hríð og hefði efalaust gegnt fleirum, ef hann hefði ekki oftast átt heima langt frá fundarstað. Í nefndum hefir hann verið, einkum fulltrúanefndinni, og reynist þar bezti maður, hygginn og ráðagóður. Árið 1907 sat hann á stórstúkuþingi fyrir hönd stúku sinnar.



---

*Húsfrú NANNA BENSON* var einn af stofnskrármeðlimum stúkunnar Skuldar og var lengi meðlimur hennar. Var hún ávalt mjög vel starfandi í þeirri stúku. Árið 1891 sat hún á stórstúkuþingi sem fulltrúi frá stúkunni Skuld og var þá kosin aðstoðardróttseti í stórstúkunni. Eftir það sat hún á mörgum stórstúkuþingum og gegndi þar ýmsum störfum. 24. janúar 1904 gekk hún í stúkuna Heklu, með lausnarmiða; og hefir ávalt verið í fremstu röð systranna í stúkunni. Hún sækir vel fundi og er oft í embættum, hefir t. d. hvað



eftir annað verið æðsti templar stúkunnar og umboðsmaður, svo árum skiftir. Árið 1904 sat hún á stórstúkuþingi fyrir hönd stúkunnar og hefir verið kosin á öll stórstúkuþing síðan. Árið 1905 var hún kosin stór-gæzlumaður ungtemplara og 1907 stórvaratemplar.

---

*ÞORSTEINN ODDSSON* gekk í stúkuna 26. júlí 1901 með konu sína og elztu dóttur og eru þau öll enn í stúkunni. Ekki hefir hann iðulega sótt fundi, en samt unnið stúkunni þarft verk. Hann er manna fúsastur til að hjálpa hverjum, sem vill komast úr drykkjumanns ástandinu með peningum og góðum ráðum og nýtur í því stuðnings konu sinnar. Einnig reyndist hann stúku sinni vel, þegar húsbyggingin stóð yfir.



*Húsfrú SIGRÍÐUR ÁRNASON* gekk í stúkuna 7. marz 1902. Áður hafði hún um tíma verið meðlimur stúkunnar „Einingin“ í Selkirk. Bindindismálið er henni kært mál, því alt sem hún hefir unnið fyrir stúkuna, bæði í nefndum og embættum, hefir hún gert með einlægum vilja og leyst vel af hendi.



---

*Ungfrú ANNA ODDSSON* varð meðlimur stúkunnar 3. maí 1901. Hefir hún ætíð verið góður og áhugasamur meðlimur og fúslega unnið fyrir stúkuna, enda oft verið í embættum og nefndum. Hún á nú heima í Edmonton, en er þrátt fyrir það góður og gildur meðlimur stúkunnar. Sýnir það staðfestu og vináttu til málefnisins og félagsskaparins.



---

*Ungfrú BJÖRG JACKSON* varð meðlimur stúkunnar 15. september 1893 og er því bráðum búin að vera 20 ár í stúkunni. Á ýmsum tímum hefir hún verið starfandi bæði í nefndum og embættum. Varatemplar hefir hún verið nokkura ársfjórðunga og dróttseti oft. Er hún af sumum talin sá bezti dróttseti sem stúkan hefir átt. Nokkur undanfarin ár hefir hún dvalið í Seattle, Washington, en er samt meðlimur stúkunnar.



---

*JÓHANN VIGFÚSSON* gekk í stúkuna 16. nóvember 1900. Hann er mjög einlægur bindindismaður og ætíð reiðubúinn að vinna stúkunni alt það gagn sem hann getur. Hann sækir hvern fund ár eftir ár og öll hans verk í stúkunnar þarfir bera vott um skyldurækni. Ýmsum embættum hefir hann gegnt, þar á meðal verið æðsti templar. Árið 1904 sat hann á stórstúkuþingi og einnig 1905 sem fulltrúi stúku sinnar.



---

*HREIÐAR SKAFTFELD* gekk í stúkuna Heklu 26. desember 1902 og hefir verið meðlimur Reglunnar síðan (nokkur ár meðlimur stúkunnar Ísland í Winnipeg). Hann hefir verið góður starfsmaður stúku sinnar, bæði á fundum og utan funda, því hann er starfsmaður góður og hefir einbeittan áhuga fyrir velferð bindindismálsins. Í embættum og nefndum hefir hann setið. Árið 1906 sat hann á stórstúku þingi, sem fulltrúi stúkunnar Ísland og á fjórum þingum síðan. Stór-gjaldkeri varð hann 1912 og hástúkustigið tók hann sama ár.



---

*ÓLAFUR BJARNASON* gekk í stúkuna Bifröst í Reykjavík 1893 og var í henni þar til 1901, er hann fluttist vestur um haf og settist að í Winnipeg. Gekk hann í stúkuna Skuld með lausnarmiða 1902, en gekk nokkurum árum síðar úr henni með lausnarmiða í Heklu. Þó eg sem þessar línur skrifa, sé ekki vel kunnugur hluttöku br. Ólafs í málum fyrri stúkna hans, þá eftir framkomu hans í Heklu, má óhætt fullyrða, að hann



hafi frá því fyrst hann gekk í stúku verið áhugasamur og áhrifamikill bindindismaður. Hann er óþreytandi að vinna fyrir stúku sína bæði í nefndum og embættum. Í fulltrúanefndinni hefir hann verið í mörg ár, því þangað velur stúkan sína duglegustu meðlimi. Ýmsum embættum, þar á meðal æðsta-templars embættinu hefir hann gegnt og leyst þau öll vel af hendi. Árið 1908 sat hann á stórstúkuþingi sem fulltrúi stúku sinnar og árið 1910 tók hann hástúkustigið.

---

*BJARNI MAGNÚSSON* varð meðlimur Good-Templara Reglunnar 1. desember 1889, þá gekk hann í stúkuna Vorblómið nr. 3 á Akranesi og var meðlimur þeirrar stúku unz hann flutti til Reykjavíkur í febrúarmánuði 1898. Á þeim árum var hann oftast í embættum í stúkunni fjármálaritari eða æðstitemplar, og á öll stórstúkuþingin, sem haldin voru þau árin, var



hann kosinn fulltrúi, og mætti á þeim öllum. nema einu (1895). Á þeim árum hafði hann einnig ferðalög nokkur, sem regluboði fyrir stórstúku Íslands. Stofnaði hann stúkuna Jökulblómið nr. 24. í Ólafsvík 12. febr. 1990. Fram að þeim tíma var Ólafsvík orðlagt brennivínsdrykkju-kauptún, en fyrir dugnað Good-Templara þar varð Ólafsvík fyrsta kauptún á Íslandi, sem kom í framkvæmd áfengissölubanni. Stúkan Jökulblómið er enn þá vel starfandi. Bjarni tók umdæmisstig 6. febrúar 1890 og stórstúkustig 27. júní 1891.

Bjarni varð meðlimur stúkunnar Hlín nr. 33 í Reykjavík í febrúarmánuði 1898, (kom þangað með lausnarmiða frá stúkunni Vorblómið). Meðlimur stúkunnar Hlín var hann unz hann flutti til Winnipeg í Kanada í aprílmánuði 1902. Hann var umboðsmaður stórtemplars í þeirri stúku þrjú síðustu árin, sem hann var á Íslandi.

Meðlimur stúkunnar Heklu varð Bjarni í maí 1902; tekinn þar inn með lausnarmiða frá stúkunni Hlín. Í Heklu hefir hann verið embættismaður seytján ársfjórðunga: gjaldkeri, ritari, æðsti templar og fyrv. æðstitemplar. Hástúkustigið tók hann 17. febr. 1909; átti ekki fyr kost á að mæta þar sem það var veitt. Bjarni biður minningarritið að geta þess, að hann álíti það stór-happ fyrir sig, að hafa verið Good-Templar; að honum þyki vænna um bindindisstarfsemina en nokkurt annað félagsmál; og að ekkert afl muni geta knúð hann til að rjúfa sitt bindindisheit. Hann leyfði sér fyrir fimm árum í tækifærisræðu fyrir minni Reglunnar, að fullyrða, ,,að Good-Templara Reglan væri sú blessunarríkasta menningarlind, sem íslenzkaþjóðin hefði haft af að segja". — og þeirrar skoðunar er henn enn.

---

*Húsfrú GUÐRÚN MAGNÚSSON* gerðist meðlimur stúkunnar Heklu í febrúarmánuði 1903. Hún hefir einbeittan og sterkan áhuga fyrir bindindismálinu, og er ákveðin og reiðubúin að verja það, nær sem hún heyrir því hallmælt. Hún sækir hvern fund stúkunnar, sem hún á kost á' og hefir gengt aðstoðarritaraembætti í tvo ársfjórðunga.



---

*SIGURÐUR BJÖRNSSON* gekk í stúkuna Heklu í nóvember 1903. Hann hefir verið embættismaður tólf ársfjórðunga í þessum embættum: ritara, gjaldkera, æðsta templars og fyrv. æðsta templars, auk þess stúkuumboðsmaður eitt ár. Enn fremur hefir gegnt öðrum áríðandi störfum og leyst þau vel af hendi.



---

*JÓN TR. BERGMANN* gekk í stúkuna 23. september 1904. Hann er einn af þeim mönnum, sem alstaðar og æfinlega má treysta, enda hefir stúkan ætíð álitið það sæti vel skipað sem hann hefir verið í. Í fulltrúanefndum hefir hann setið ár eftir ár og leyst öll verk sín af hendi með dugnaði og hagsýni. Væri óskandi að stúkan ætti sem flesta slíka meðlimi.



---

*EGGERT J. ÁRNASON* gekk í stúkuna 19. maí 1905. Hann náði fljótt hylli félagssystkyna sinna, sem hann og verðskuldaði, því hann skemti manna bezt á fundum með ræðum, og kvæðum. Hann var ritstjóri stúkublaðsins fleiri ár (sem þeir höfðu áður verið ritstjórar að Kristj. Stefánsson og síra Guðm. Árnason). Hann er gáfumaður og vel að sér og hefir stúkan saknað hans þau árin, sem hann hefir verið fjærverandi. Vonandi á hann eftir að beita sínum góðu gáfum og glaða sinni fyrir stúkuna og Regluna í framtíðinni.



*Ungfrú GUÐRÚN HEIÐMANN* gekk í stúk-



Heklu 22. sept. 1905. Hún vann með mestu alúð í nefndum og embættum, þar til hún flutti vestur til Seattle, Washington 1910 cg tók þá lausnarmiða úr stúkunni- Hún gekk þá í stúkuna Ísland í Seattle og hefir verið mjög vel starfandi í henni. Það hefir stúkan líka viðurkent með því að kjósa hana í embætti æðsta-templars ársfjórðung eftir ársfjórðung.

---

*TEITUR THOMAS* og kona hans Júlíana





Thomas eiga bæði sömu sögu í Reglunni. Þau gengu fyrst í stúkuna Skuld á fyrsta ári hennar, en fluttu

skömmu síðar heim til Íslands og gengu þar í stúkuna Verðandi í Reykjavík. Meðlimir hennar voru þau þar til 1895 að þau fluttu aftur vestur um haf. Tóku þau þá lausnarmiða og gengu í stúkuna Heklu 1. maí 1896 og henni hafa þau síðan tilheyrt. Þau bjuggu nokkur ár í Klondike, en voru meðlimir stúkunnar jafnt fyrir því. Bæði hafa þau sýnt lofsverðan áhuga í bindindismálinu og verið fyrirmyndar félagar. Br. Thomas sat á stórstúkuþingi 1903, sem fulltrúi Heklu og aftur 1909.

---

*Húsfrú GUÐRÚN SKAPTASON* gekk í stúkuna 1. febrúar 1907. Brátt náði hún vináttu og virðingu meðlimanna með framkomu sinni. Gæzlumaður ungtemplara var hún kosin skömmu eftir að hún kom í stúkuna og leysti það starf snildar vel af hendi. Árið 1908 var hún á stórstúkuþingi og var þá kosin stór-gæzlumaður ungtemplara og endurkosin í það embætti 1909.



---

*SKAPTI B. BRYNJÓLFSSON* gekk í stúkuna Heklu 7. apríl 1911; var áður meðlimur stúkunnar Ísland í Winnipeg. Saga hans í Reglunni er enn ekki löng, en vonandi er að hún verði það, því alstaðar þar sem hann er, er hann heill og einlægur. Hann hefir flesta þá hæfileika, sem góður félagsmaður þarf að hafa. Hann er mælskumaður og djarfur og ákveðinn í ræðum sínum, lipur í samvinnu og skemtinn á fundum. Þannig hefir hann komið fram í stúkunni Heklu. Aldrei mælir hann æðruorð, þó hlaðið sé á hann störfum. Gjaldkeri stúkunnar hefir hann verið á annað ár. Öll störf sín í stúkunnar þarfir hefir hann leyst af hendi mæta vel. Árið 1908 sat hann á stórstúkuþingi sem fulltrúi stúkunnar Ísland og aftur 1910 og var þá kjörinn aðstoðarritari í stórstúkunni.







*Efsta röð frá vinstri til hægri:* Katrín Helgason. Anna Anderson, Jódís Sigurðsson, Elisabet Sigurðsson, Jóhanna Olson, Guðbjörg Sigurðsson, Bertha Jones, Sigurbjörn Pálsson, Solveig Pálsson. *Milli efstu raðar og þeirrar næstu:* Kristján Austmann, Pétur Thomson, Friðrik Thomson. *Önnur röð:* Ingibjörg Björnsson, Rannveig Stefánsson, Einar Long, Sigurbjörg Jósephson, Kristín Johnson. Þórarinn Johnson, Lína Pálsson, Björg Hallsson, Egill Erlendsson. *Þriðja röð:* Guðrún Olson, Magnús Magnússon, María Johnson. Magnús Skaftfeld. Ingunn Johnson, Þorsteinn Guðmundsson, Soffía Vigfússon, Stefán Einarsson. *Fjórða röð:* Ása Sveinsson. Valgerður Oddson, Guðrún Vigfússon, Valgerður Vigfússon, Ragnheiður Anderson, Ásta Austmann, Þórunn Vigfússon.



## BINDINDISHREYFINGIN Í AMERÍKU.

Þegar hinar ýmsu þjóðir Evrópu voru orðnar uppgefnar á yfirgangi og ofbeldi konunga og yfirboðara sinna, tóku þær það ráð, að flýja ættjörð sína og leita frelsis í öðrum löndum.

Ekkert land brosti eins við þeim og Norður-Ameríka; þar var frjálsræðið ótakmarkað, þar var gnægð alls konar jurta og aldina og óþrjótandi uppspretta af öllum tegundum af jarðarávöxtum og þar voru ótæmandi námur af gulli og gimsteinum. Það var því eðlilegt að þær leituðu til þessa sólríka lands, sem brosandi breiddi faðminn á móti þeim, hvernig sem þær bar að garði, og bauð þær velkomnar.

Það væri ekki nema skynsamlegt að ímynda sér, að þessi þjóðarbrot, sem hingað fluttu, með þeim ásetningi að gjöra þetta land að framtíðarbústað sínum og afkomenda sinna, hefðu reynt að losa sig við öll þau sjálfskaparvíti, sem hindra myndu andlegar og líkamlegar framfarir þeirra í þessu landi, og sem

höfðu, ef til vill, staðir þeim fyrir þrifum í gamla landinu þeirra, en því var ekki þannig farið.

Ekkert þjóðarmein var þá stœrra, og er enn þann dag í dag, en áfengið, það hafði ónýtt framfarir forfeðra þeirra mann fram af manni og jafnan staðið sem óyfirstiganlegur þröskuldur á braut allrar menningar. Áfengi höfðu allir hræðst, því áhrif þess höfðu ekki getað leynzt, en jafnvel um leið og þeim ofbauð og þeir óttuðust vald Bakkusar leyfðu þeir sjálfum sér, að verða þessu ginnandi og tælandi böli að bráð og þegar einu sinni að löngunin var sköpuð þraut þá alla sjálfsafneitun til að losa sig undan valdi hans.

Þessa tilhneigingu til nautnar áfengis fluttu þeir með sér sem dýrmætastan!! arf til Ameríku. Hér voru tækifærin meiri en í hinum löndunum til að rækta og þroska þessa sjálfsköpuðu fýsn. Hér uxu allar þær jurtir og þeir ávextir sem þurfti til öl- og víngjörðar og það þurfti ekki nema lítinn og ódýran útbúnað til þess að brugga drykkina handa þessum frumbyggjum. Einnig voru svo margir meðal þessa fátæka fólks, sem sáu að hér var gott tækifæri til að auðgast af heimsku og ósjálfstæði fjöldans og lögðu þeir því fram alla krafta sína, til að koma á fót stofnunum til öl-og vín-gjörðar, sem eðlilega gjörðu fátæklingana enn fátækari og ósjálfstæðari og á sama hátt auðguðu þá sem þessa atvinnu ráku.

Áfengisnautnin byrjaði því með fyrstu landnemum Hin ýmsu félög, sem leyfi höfðu til að reka verzlun í þessu landi, fluttu vín jafnt öðrum vörum inn í landið. Eftir engri vöru var eins mikil eftirsókn sem áfengi, því innflutta vínið var betra en það sem frumbýling-

arnir brugguðu, og engin vörutegund gaf af sér jafn mikinn arð. Á Indíána hafði áfengið þau áhrif að þeir fyltust tryllingi og ekki var það sjaldan að þegar Indíáni var búinn að fá eitt eða tvö glös af áfengi, að hann var þá til þess búinn, að láta margra tuga dollara virði af loðfeldum fyrir fárra centa virði af víni.

Drykkjuskapur jókst mjög, einkum þar sem bygðir og bæir voru þéttbygðastir; jafnvel drykkjumennirnir sjálfir fóru að óttast afleiðingarnar. Þétt bygðastur var sá hluti Bandaríkjanna, sem kallast Ný-Englands ríkin og mestur var drykkjuskapurinn þar, sérstaklega í New York og Massachusetts ríkjunum. Engin samkoma af nokkurri tegund var haldin svo að áfengi væri ekki haft um hönd og enginn þótti maður með mönnum sem ekki „vildi vera með" og taka „sopann".

Stöku hugsandi menn voru farnir að hugsa alvarlega um ástandið, sem þjóðin var að steypa sér í, en enginn hafði hug né dug til að rísa upp á móti þessu almennings goði, því að gjöra slíkt hefði sneytt hann öllu almennings áliti og hann hefði orðið fyrir háði og spotti nágranna sinna.

Engin samtök, sem nokkrar sögur fara af, til að vinna á móti þessum aldar anda finnum vér fyr en árið 1808 að stofnað var í bænum Moreau, í Saratoga County, í New York ríkinu félag, sem nefnt var: „Hið sameinaða hófsemdarfélag í Moreau og Northumberland". Maður sá er mest starfaði að samtökum í þessa átt var Dr. Billy J. Clark. Dr. Clark var fæddur í Northamton, Mass., fluttist ungur með foreldrum sínum til Vermontríkisins þar, sem faðir hans setti á fót verzlun og verzlaði, meðal annars, með áfengi.

Dr. Clark, þó ungur væri, tók snemma eftir hinum skaðvænu áhrifum áfengisins á þjóðina og yfirgaf því verzlunina og heimili sitt, en fór að stunda læknisfræði í Pownal. Árið 1799 tók hann að gegna læknstörfum í bænum Moreau. Í þrjátíu og fjögur ár stundaði hann læknisstörf með frábærum dugnaði og samvizkusemi. Á þeim tímum voru vegir illir og torfærur miklar fyrir ferðamenn, járnbrautir voru engar, og því síður strætisvagnar né önnur nútíðarþægindi. Dr. Clark varð því að ferðast um þvert og endilangt ríkið, fótgangandi eða í lélegum keyrsluvögnum, til að vitja sjúklinga sinna, en hafði með þessu móti hið ákjósanlegasta tækifæri til að kynna sér ástand fólksins. Á þessum ferðalögum sínum sannfærðist hann betur og betur um það, að aðalmein þjóðarinnar væri áfengi og að ekkert stæði henni eins fyrir þrifum né hindraði framfarir hennar. Hann ásetti sér því að verja öllum frístundum sínum til að vinna einhverja bót á þessu. Í níu ár vann hann í kyrþey, með mestu elju að bindindismálum, án þess þó að nokkur samtök fengist til félagsmyndunar. Snemma um veturinn 1808 gjörði hann tilraun til að stofna hófsemdarfélag en mætti megnri mótspyrnu, sérstaklega hjá málafærslumönnum og yfirvöldum, sem kváðu hugmyndina heimskulega.

Dr. Clark lét ekki hugfallast við þetta, heldur hélt fast við stefnu sína, og eitt kvöld í marzmánuði 1808, fór hann í dynjandi rigningu og stormi, allur löðrandi í leir, þreyttur og uppgefinn eftir dagserfiði sitt, til prestsins í bænum og án nokkurs formála ávarpaði hann á þessa leið: Herra minn, vér höfum hér

drykkjusveit, ef vér gjörum ekki eitthvað, mjög bráðlega til að stemma stigu drykkjuskaparins". Eftir þetta og lengra samtal við prestinn fékk Dr. Clark hann í lið með sér og 13. apríl, 1808 var hið áðurgreinda: Hið sameinaða hófsemdarfélag í Moreau og Northumberland" stofnað með 23 meðlimum og svohljóðandi samþykkt gjörð:

,,Það er álit þessa fundar að rétt, ákjósanlegt og nauðsynlegt sé, að meðlimir félagsins haldi sér algjörlega frá nautn áfengis".

Meðlimir félagsins unnu svo hljóðandi heit:

,,Enginn meðlimur skal drekka vín né nokkra áfenga drykki, hvorki blandaða né óblandaða, nema samkvæmt læknisráði eða í veikindum eða veizlum. Sekt gegn broti þessarar skuldbindingar sé 25 cents en því að eins má þó hegna skuldbindingarbroti að afneitun áfengisnautnar komi ekki í bága í trúarbragðaskoðanir hlutaðeiganda. Neyti nokkur meðlimur svo mikils áfengis að hann verði ölvaður skal hann sektaður um 50 cents og ef nokkur meðlimur býður öðrum áfengi skal hann sektaður 25 cents fyrir hvert slíkt brot".

Þótt félag þetta næði engri útbreiðslu í öðrum bæjum þá er það þó enn lifandi og hefir á ýmsan hátt bætt hina fyrstu reglugjörð sína. Félagið varð til þess að menn fóru enn ítarlegar að gefa gaum tjóni því, sem ofdrykkjan var völd að, og þótt ýmsa galla megi finna á grundvallarreglum félagsins, þá verður að takast til íhugunar, að þetta var hin fyrsta tilraun, sem gjörð var til að minka krykkjuskap og að nauðsynlegt var að viðhafa sem mesta lipurð.

Árið 1908 var hundrað ára afmæli félags þessa haldið í Saratoga Springs New York. Við það tækifæri var afhjúpuð myndastytta af Dr. Billy J. Clark að viðstöddum erindrekum og bindindisvinum um allan hinn mentaða heim og Dr. Clark viðurkendur „faðir" bindindishreyfingarinnar í þessari álfu.

Bindindisvinum fjölgaði óðum svo að árið 1826 var hið „Ameríska bindindisfélag" stofnað í Boston, Massachusetts.

Þrátt fyrir fjölgun bindindismanna minkaði áfengisnautnin lítið. Samtök voru lítil meðal bindindisfólksins, en aftur á móti unnu vínsalar, með mesta ötulleik, að rekstri verzlunar sinnar. Árið 1840 var hið svo kallaða „Washington bindindisfélag" stofnað í Baltimore í Marylandríkinu. Félag þetta var myndað á þann hátt, að sex drykkjumenn gengu í samband og unnu svolátandi heit:

„Vér undirritaðir skuldbindum oss hér með, sem heiðvirðir menn, að mynda félag er bæti kjör vor og sem vinni á móti nautn áfengis, sem vér álítum að sé skaðleg heilsu vorri í mannfélaginu. Vér skuldbindum oss hér með, sem heiðvirðir menn, að drekka ekki áfengi, maltdrykki, vín né eplavín".

Stofnendur félags þessa voru að eins sex, en við áramótin 1840 og 1841 var félagið búið að fá 700 meðlimi, sem allir höfðu verið drykkjumenn, og við lok ársins 1841 voru meðlimir orðnir 100,000 og greinar af félaginu stofnaðar í eitt hundrað og sextíu bæjum. Hr. Hawkins, sem verið hafði ákafur drykkjumaður, en fyrir fortölur dóttur sinnar, sem þó var að eins barn að aldri, hafði gengið í félag þetta, gjörðist

fljótt aðal-leiðtogi þess. Hann ritaði ítarlega um skaðsemi áfengis á þjóðlífið í vikublað, sem gefið var út af félaginu.

Litlu seinna voru kvendeildir stofnaðar í sambandi við félög þessi og nefndust „Martha Washington félög". Út frá þessum félögum myndaðist „Sons of Temperance" félagið.

„Sons of Temperance" var stofnað í New York 29. september 1842. Meðlimir þess unnu svohljóðandi heit:

„Ég lofa því að halda sjálfum mér frá öllu áfengi, aðstoða meðbróður minn í veikindum og hjálpa honum til hærri menningar".

Félagið veitti inngöngu konum jafnt sem körlum.

Árið 1845 var mynduð barnastúka undir umsjón fullorðinna deildarinnar. Meðlimir hennar undirgengust sömu skuldbindingu og fullorðna fólkið.

Nokkrir af unglingum þeim, er tilheyrðu barnadeildinni, urðu óánægðir með ýms fundarsköp og fanst þeim þau of barnaleg fyrir sig, en jafnframt álitu þeir eldri deildina ekki heldur ákjósanlega. Þeir tóku því það ráð að mynda millilið, sem þeir nefndu „Jerikóriddara" og sem unnu svohljóðandi heit:

„Eg lofa því að búa ekki til, kaupa ekki selja ekki til drykkjar nokkurn áfengan né jastaðan vökva, svo sem vín, eplavín né aðra áfenga drykki, hvort sem þeir eru hér taldir upp eða ekki, og að sporna á allan löglegan hátt, á móti tilbúningi, notkun og sölu þeirra. Eg lofa enn fremur, að hjálpa konu reglubróður míns systur hans, dóttur, svo og ekkju hans, ef þær komast í neyð eða þröng, og vernda jafnan heiður þeirra og

mannorð, en aldrei svíka reglu mína né gjöra henni né reglubróður mínum né reglusystur rangt til".

Grein af þessu félagi var litlu seinna stofnuð í smábæ skamt frá Utica, er nefnist nú Oriskany Falls, en þá var alment kallaður Castor Falls. Helztu mennirnir í Jeríkóriddara félagi Utica bæjar heimsóttu þessa nýju systurstúku og var nú sú ákvörðun tekin, að þar sem þær hefðu sama starfsmark og sama nafn, skyldu þær gjöra samband með sér og hafa sameiginleg lög og siðareglur, en til að fyrirbyggja allar deilur skyldu þær hætta við nafnið „Jeríkóriddarar" en taka upp nafnið „Good Templars".

Árið 1852 voru Good-Templar stúkur orðnar 14 og var þá þingfundur haldinn í Utica til að íhuga stofnun stórstúku til yfirstjórnar en það lánaðist ekki.

Deilur risu milli fundarstjóra og manns er Leverett E. Coon hét. Coon hafði átt heima í Utica og starfað af mesta ötulleik að því að koma á föstu formi og lögum í félaginu nú var hann fluttur búferlum til Syracuse og hafði stofnað þar stúku er hét „Excelsior" Nr. 14. Ekki varð unt að koma á sættum og fór Coon, ásamt öðrum fulltrúum frá Syracuse, heim til sín.

Þegar heim kom lögðu þeir ágreiningsmál sín fyrir stúkuna og urðu úrslitin þau að „Excelsior" stúkan sagði skilið við hinar stúkurnar og Good-Templararegluna og kallaði sig frá þeim tíma „Excelsior Nr. 1. af Óháðri Reglu Good-Templara". Einkunnarorð reglunnar skyldu vera: „trú von og kærleikur", en höfðu áður verið „vinátta, von, kærleiklur", ný merki og ný umgangsorð voru einnig viðtekin.

Fleiri stúkur mynduðust bráðlega. Í bænum Fayetteville var stofnuð stúkan ,,Eureka Nr. 2." og í Ithaca var ,,Forest City Nr. 3." stofnuð af Nathaniel Curtis, sem alment er talinn aðal höfundur þessarar nýju reglu. Curtis tók inn í stúkuna ,,Forest City" 14. ágúst 1852 sex hinar fyrstu konur, sem í Regluna gengu.

Stórstúka af ,,Óháðri Reglu Good-Templara" var stofnuð 17. ágúst 1852 í bænum Syracuse, af mönnum, sem kosnir höfðu verið úr hinum þrem ofangreindu stúkum. Nathaniel Curtis var fyrsti stórtemplar. Í nóvembermánuði þetta sama ár voru stúkurnar orðar 12, var þá haldinn nýr fundur í Ithaca. Það varð að samkomulagi á fundinum að Curtis legði niður völdin sem stórtemplar, til þess að geta gefið sig við útbreiðslu Reglunnar, en Garry Chambers var kosinn stórtemplar í hans stað.

Stórstúkuþing þetta kaus Meþodista prest að nafni D. W. Bristol til að semja lög og siðareglur.

Stefnuskráin skyldi vera: ,,Algerð afneitun allra áfengisvökva til drykkjar. Algerð útrýming áfengra drykkja úr landinu. Algert jafnrétti allra reglubræðra og systra, hver sem trúarbrögð eru, af hvaða kynþætti sem þeir eru, i hverri stétt og stöðu sem þeir eru, hverjar þjóðmálaskoðanir sem þeir hafa. Starfssvið vort er heimurinn; kærleikur vor er rúmgóður; mannúðin knýr oss áfram".

Reglan tók nú óðum að útbreiðast og í desembermánuði árið 1853, þegar næsta stórstúkuþing var haldið voru stúkurnar orðnar 275 með 15,000 meðlimum.

Í septembermánuði árið 1853 var fyrsta stúkan í Kanada stotnuð í Merrickville í Ontario-fylkinu og hét „Harmony" Nr. 230. Önnur stúka var stofnuð í Easton Corner, Ontario, rétt á eftir og var nefnd „Elgin" Nr. 231. Báðar þessar stúkur voru starfandi fyrir fáum árum.

Reglan jókst nú svo að nauðsynlegt þótti að mynda fleiri stórstúkur, því alment réði sú hugsun, að bindindisliðið í hverju ríki og hverju fylki myndi sem mestu til leiðar koma, ef því væri gefin heimastjórn. Samt sem áður varð hver stórstúka að viðurkenna stórstúkuna í New York ríkinu hið æðsta vald Good-Templara og úrskurðir hennar, í öllum málum, skyldu vera bindandi.

Fyrsta stórstúka sem stofnuð var út frá New York stórstúkunni var í Pennsylvaníu. Í Pennsylvaniu voru þá 96 undirstúkur.

21. nóvember 1854 stofnaði H. P. Barnes, ritari New York stórstúkunnar fyrstu stórstúku, sem stofnuð var í Kanada. Hún var stofnuð í Hamilton, Ontario. Tilheyrandi henni voru 54 undirstúkur. Fyrsti stórtemplar var Dr. W. I Case og stórritari J. W. Stone.

Fjórða stórstúkan var stofnuð í Iowa.

Á þriðja þingi New York stórstúkunnar, sem haldið var 6. desember 1854, skýrði stórritari H. P. Barnes, frá því, að þá væru 499 undirstúkur tilheyrandi þeirri stórstúku og félaga tala 25,336.

Á þessu stórstúku þingi var ákvörðun gjörð um að stofna skyldi hástúku fyrir alla Norður-Ameríku og var hún stofnuð 16. maí 1855. Fyrsti hátemplar

var James M. Moore og fyrsti háritari Mary C. Ruckman.

Árið eftir, 1856, voru stórstúkur orðnar ellefu, undirstúkur 1037 og félagatala 65,722.

,,Sons of Tempeance" stúkurnar í Michigan höfðu allar gengið í Good-Templara Regluna á þessu ári. Meðlimatala þeirra var há, en sökum þess, að þetta gjörðist skömmu fyrir hástúkuþing, var ekki unt að fá skýrslur yfir það og er sú félagatala því ekki talin með áður greindri meðlimatölu.

Á árunum 1856 til 1857 voru í ríkinu Illinois 5006 félagar, þar af 1951 systur í 79 stúkum. Chicago meðlimir höfðu stofnað stig-stúku og vildu fá hana viðurkenda af hástúkunni. Hástúkan veitti bónina og gaf stúkunni stofnskrá. Þetta var hin fyrsta stigstúka í Reglunni.

Um þessar mundir kom töluverð afturför í Regluna. Þeim sem sendir höfðu verið til að útbreiða Regluna og stofna nýjar stúkur, fanst sér verða meira ágengt ef þeir hefðu stúkugjöld lág, en afleiðingarnar urðu að stúkurnar komust í fjárþröng og gátu eki borið þann kostnað, sem fundarhöld og annað höfðu í för með sér. Ýmsir meðlimir vildu hækka gjöldin, en aðrir unnu á móti því, svo að út úr þessu risu allmiklar deilur í mörgum stúkum. Endalok misklíðar þessarar varð sá að margar undirstúkur skiluðu aftur stofnskrá sinni og í öðrum, sem þó héldu áfram að starfa fækkaði félagatala stórkostlega. Í New York stórstúkunni, sem var elzta og lang-fjölmennasta stórstúkan, fækkaði stúkum svo að stórstúkan hélt ekkert þing frá 1856 til 1865 og þegar hún þá kom sam-

an var að eins ein undirstúka, „Seneca Chief", starfandi.

Hnignun Reglunnar í heild sinni hélzt þar til árið 1858 að hástúkuþing var haldið og málfærslumaðurinn Chas. B. Chase var kosinn hátemplar. Mr. Chase var mesti atorku- og dugnaðarmaður og vakti fljótt nýtt líf og fjör innan vébanda Reglunnar; var oftast í vandasömustu embættum og nefndum frá þessum tíma og þar til hann dó árið 1909.

Háþing þetta var fjórða þing hástúkunnar og hið fyrsta sem haldið var í Kanada. Það var haldið í bænum Hamilton í Ontarío, þar sem fyrsta stórstúka í Kanada hafði verið stofnuð fjórum árum áður (1854) og Reglan hafði tekið miklum framförum. Þá voru starfandi 15 stórstúkur, um 960 undirstúkur og meðlimatala var 53,200.

Á hástúkuþingi 1859 voru samþykkt svo hljóðandi grundvallaratriði, sem enn eru í gildi:

*„Engum verður leyfð inngang í Reglu þessa nema hann trúi á tilveru almáttugs guðs, sem ríkir og ræður yfir öllum hlutum, og sé fús að gangast undir skuldbindingu vora æfilangt.*

*I.*

*Algerð afneitun allra áfengisvökva til drykkjar.*

*II.*

*Ekkert leyfi í neinni mynd, hversu sem á stendur, til að selja áfengisvökva til drykkjar.*

*III.*

*Skýlaust forboð gegn tilbúningi, innflutningi og sölu áfengisvökva til drykkjar. Forboð, samkvæmt vilja þjóðarinnar, framkomnum í réttu lagaformi, (að viðlögðum þeim refsingum, er svo óheyrilegur glæpur verðskuldar).*

*IV.*

*Sköpun heilsusamlegs almennings álits á þessu máli. Með*

*ötulli útbreiðslu sannleikans á alla þá vegu, sem mentun og mannást eru kunnir.*

*V.*

*Kosning góðra og vandaðra manna til að framfylgja lögunum.*

*VI.*

*Staðfastar tilraunir til að frelsa einstaklinga og bygðarlög frá þessari voðalegu bölvun, þrátt fyrir allskonar mótspyrnur og örðugleika, þar til vér höfum borið algerðar sigur úr býtum um allan heim.*

Á næstu tveim árum tekur Reglan aftur mikilli framför og árið 1859 voru stórstúkur stofnaðar í Mississippi, Massachusetts og Alabama.

Í nóvembermánuði 1858 hafði há-kapilán, James Scott stofnað stúku í bænum London, Ontario, án þess að fá fyrst leyfi bœjarumboðsmanns Good Templara. Bæjarumboðsmaður kærði þetta fyrir stórstúkunni í Kanada. Stórstúkan ekki eingöngu neitaði að viðurkenna stúkuna löglega stofnaða heldur einnig vék Mr. Scott úr Reglunni. Mr. Scott, ásamt öðrum héldu uppi stúkunni og mynduðu með þessu nýtt félag, sem þeir kölluðu ,,The British American Templars''. Ætlast var til að félagið væri eingöngu fyrir fólk af brezkum kynþætti. Á fám árum útbreiddist þetta félag svo að það hafði stúkur í flestum fylkjum Kanada. Ekki er hægt að sjá að þeir hafi nokkurn tíma tekið þátt í stjórnmálum landsins né reynt að hafa nokkur áhrif á þau, enda var Bakkusar dýrkunin á þeim dögum svo rótgróin hjá öllum þorra fólks að fámennur félagsskapur hefði litlu getað áorkað. Um 1881 fór félag þetta ásamt öðru félagi, ,,British Templars'', í samband við bindindisfélag, sem þá var tekið að starfa í Canada og kallað var ,,Royal Templars of

Temperance", og hefir félagsskapurinn síðan gengið undir því nafni.

Á hástúkuþingi, sem haldið var árið 1859, var meðlimatala um 70,000 en á næsta hástúkuþingi árið eftir 1860 var meðlimatala orðin 80,186. Á því hástúkuþingi var hið alkunna lagasafn „Chase's Digest" viðtekið, sem nauðsynlegur leiðarvísir fyrir félaga. Stórstúkur höfðu nú verið stofnaðar í California og Maine.

Árið 1861 byrjaði þrælastríðið í Bandaríkjunum og stóð yfir til 1865. Á þessu tímabili hnignaði Good Templara Reglunni, ásamt öllum öðrum félagsskap, svo að félagatal var við lok stríðsins um 68,000 en hafði áður verið yfir 80,000

Á hástúkuþinginu sem haldið var 1861 bað stórstúkan í Indiana um leyfi til að stofna unglingastúkur fyrir unglinga frá tíu til sextán ára gamla. Málið var í gerð þar til 1869 að leyfið var veitt.

Þegar hástúkan mætti 1862 og skýrslur voru lesnar upp, sást það, hve voðalegan skaða stríðið var að gjöra Reglunni. Hátemplar gjörði þá yfirlýsing að það mætti telja Regluna dauða í þeim ríkjum þar sem stríðið væri háð.

1864 var ný siðbók samin, sem með lítilli breyting hefir verið notuð síðan.

10. marz 1864 var stórstúka stofnuð í Prince Edward Island. Hún var önnur stórstúka, sem stofnuð var í Canada.

Um þessar mundir var stofnað í Chicago, af Good Templurum, hið fyrsta drykkjumannahæli „The Washingtonian Home Association of Chicago". einhver sú þarfasta stofnun innan Reglunnar.

Þegar þrælastríðinu var lokið og friður komin á var aftur tekið til starfa að vinna að Good Templara málum í Bandaríkjunum. Verkinu miðaði vel áfram enda var dyggilega unnið svo þegar hástúkan hafði þing sitt 1867 var félagatal 291,180 í 4,432 stúkum.

5. Febrúar 1867 var stórstúka stofnuð í Nova Scotia og var þriðja stórstúkan í Kanada.

Alt til þessa hafði starfsvið Reglunnar verið einungis í Bandaríkjunum og Kanada, en árið 1866 flutti ungur maður að nafni Joseph Malins frá Englandi til Bandaríkjanna. Malins hafði verið í bindindisfélagi á Englandi og gjörðist strax meðlimur Good Templara Reglunnar í Bandaríkjunnum. Hann starfaði með brennandi áhuga fyrir Regluna í tvö ár unz hann flutti aftur búferlum heim til ættjarðar sinnar. Áður en hann fór til sinna fornu átthaga fékk hann umboð frá hátemplar að stofna samskonar stúkur á Englandi og víðar. Fyrstu stúkuna stofnaði hann í Birmingham 1868. Smátt og smátt útbreiddist Reglan um önnur lönd Evrópu unz nú að stúkur eru í flestum löndum hins mentaða heims.

Árið 1868 var félagatala Reglunnar 389,672 í 6050 stúkum.

18. maí 1869 var stórstúka stofnuð í New Brunswick, sem var fjórða stórstúkan í Kanada.

Um þessar mundir var farið að hugsa um að gjöra Good Templara Regluna að Alþjóða Reglu, siðbókin var þýdd á önnur tungumál og erindrekar sendir til annara landa. Fyrsti regluboði, sem sendur var af hástúkunni, var Mr. Roberts, sem fór til Skotlands og stofnaði Regluna þar.

Stórstúkan í Californiu hafði, um þetta leyti, ákvarðað að stofna barnaheimili, sem skyldi tileinkað Reglunni, en sem þó skyldi veita móttöku munaðarlausum börnum þótt foreldrar þeirra hefðu ekki tilheyrt henni. Hástúkan, á næsta þingi sínu, lauk miklu lofsorði á bæði þetta fyrirtæki og drykkjumannahælið í Chicago og sagði að þetta tvent myndi standa sem minnisvarðar, er bæru öðru fremur vitni um kærleikskenning Reglunnar.

Árið 1870 voru stórstúkur tilheyrandi hástúkunni 41, undirstúkur 5,913 og meðlimatal, 363,205. Þá var búið að stofna stórstúkur á Englandi og Skotlandi. Good Templara Reglan var nú viðurkend sem hið fjölmennasta og útbreiddasta bindindisfélag í heimi. Og árið 1871, þegar hástúkan hélt sitt 17. þing var reglan útbreidd um alt Kanada að undanskildu einu fylki og í öllum Bandaríkjunum að 3 ríkjum undanskildum.

11. desember 1872 var stórstúkan í Newfoundland stofnuð.

Enn hélt Good Templara Reglan áfram að þroskast í þeim löndum, sem hún hafði verið starfandi í; svo var hún stofnsett í nýum löndum. Árið 1875 var félagatal 735,000 í 11,850 stúkum og það vita menn Regluna fjölmennasta. Jafnframt því sem hún þá var í mestum blóma sínum í Bandaríkjunum og Kanada var hún búinn að ná sterkri bólfestu á þessum löndum Englandi, Skotlandi, Írlandi, Wales, Bermuda-eyjunum, Malta, Ástralíu, Nýja Sjálandi, Tasmaníu, Suður-Afríku, Indlandi, Asíu, Vestur Indlands eyjunum, Honduras, Þýzkalandi, Frakklandi, Hollandi, Belgíu,

Kína, Japan og víðar. En ári seinna (1876) klufu deilur um svertingja Regluna í tvent.

Þótt Svertingjar við lok þrælastríðsins 1865, fengju viðurkent fult frelsi, þá voru þeir samt hafðir í mikilli fyrirlitningu hjá meiri hluta hvítra manna í Suðurríkjunum, þar sem mesta þrælasalan hafði verið, sérstaklega í Kentucky ríkinu. Þessi viðbjóðstilfinning gagnvart svertingjum var svo rótgróin hjá hvíta fólkinu, að ekki var til þess að hugsa, að svertingi fengi inntöku í stúkur þeirra. Suðurríkja stúkurnar, einkum í Kentucky afsögðu að leyfa svertingja inntöku. „Ef svertingi kemur inn í stúku vora, förum vér allir út“, sögðu þeir. Englendingum fanst þetta beint brot á stefnuskrá Reglunnar um algert jafnrétti fyrir alla menn, af hvaða kynþætti sem þeir væru. Joseph Malins, sem var stór-templar á Englandi svaraði því: „Ef svertingi kemur, skrýddur einkenni, inn í stúkur vorar á Englandi, leiðum vér hann hátíðlega til heiðurssætis“.

Deilurnar um þetta svertingjamál komust á hœsta stig árið 1876, á hástúkuþinginu, sem haldið var í Louisville í Kentucky ríkinu. Mr. Hickman var þá hátemplar og Joseph Malins hákanzlari og af því mest bar á þessum mönnum í deilunum, voru flokkarnir kendir við þá og nefndir Hickmanítar þeir sem vildu banna svertingjum inntöku, en Malinítar þeir sem vildu leyfa þeim inntöku. Allar stórstúkurnar í Ameríku að undantekinni stórstúkunni í Newfoundland fylgdu Hickman, en Englendingar og hinir aðrir fylgdu Malins.

Á þessu þingi (1876) var reynt að koma á samkomulagi og samþykt með 85 atkvæðum gegn 58 tillaga frá Dr. Oronhyatekha, frá Canada, þess efnis að svertingjar œttu rétt til inntöku í Regluna, en að stórstúkan í Kentucky mætti neita þeim um inntöku í sínu umdæmi. Malinítar neituðu að hlíta þessum úrskurði og sögðu sig úr öllum félagsskap við Hickmaníta. Malinítar héldu svo fund fáum dögum síðar og stofnuðu nýja hástúku, kusu enskan prest, James Yeames að nafni fyrir hátemplar, en Joseph Malins fyrir háritara.

Reglan var nú klofin í tvent og hefir aldrei beðið þess bœtur. Deilurnar héldu áfram og urðu þess valdandi að margir gengu úr Reglunni af leiðindum út af þrefinu, en illa gekk að fá nýja meðlimi í stað þeirra sem úr fóru, því flestir vildu vera lausir við þann flokkadrátt, sem réð hjá báðum málsaðilum. Einnig var alls ómögulegt fyrir hvorn flokkinn sem var að starfa eins að stúkumálum og áður hafði verið; því kraftarnir voru dreifðir og áhugi fór minkandi.

Í ellefu ár voru þessar tvær deildir, sem þó unnu á sama hátt að sameiginlegu málefni, aðskildar og tálmuðu með sundrung útbreiðslu hver annarar og þegar þœr loks runnu aftur saman í eitt 1887 var félagatala að eins 485,000, en þar af voru 287,000 Hickmanítar og 198,000 Malinítar.

Aðal-frumkvöðull í að sameina þessar tvær deildir var John B. Finch frá Nebraska. Hann hafði gengið í Regluna 1872, þá búsettur í New York ríkinu, starfaði mikið að því að útbreiða Regluna; og þar

sem hann var ágætur ræðumaður, þýður og viðfeldinn í umgengni, varð honum mikið ágengt og náði hylli almennings.

Mark og mið Finch var að gjöra Good Templara Regluna að nokkurskonar bindindisbrautryðjanda um heim allan, en til þess að slíkt gæti tekist var afar-nauðsynlegt að sameina þessa tvo flokka. Þetta tókst honum að gjöra, eins og áður er greint, og var hann kosinn fyrsti hátemplar hinnar sameinuðu hástúku. En honum entist ekki lengi aldur til að vinna að þeim málum, því fimm mánuðum síðar varð hann bráðkvaddur.

1891 reisti hástúkan honum minnisvarða í Rosehill grafreitnum í Evanston, Illinois, er kostaði 2,781 dollar. Þetta er sá eini minnisvarði, sem hástúkan hefir látið reisa nokkrum meðlim sínum, og hefir því með því viðurkent Finch, að maklegleikum, merkastan mann Reglunnar.

Finch var aðal-hvatamaður og stofnandi Vínbannsflokksins (Prohibition Party) í Bandaríkjunum, er hann stofnaði 1872. Formaður flokksins var hann þar til 1876 að mikla bindindishetjan Neil Dow tók við formensku hans; svo hefir hver Good Templarinn af öðrum tekið við formensku og stjórn flokksins.

Vínbanns flokkurinn er mjög sterkur. Í honum getur hver verið, sem ann bindindi og afnámi áfengis, hvort sem hann tilheyrir nokkru bindindisfélagi eða ekki. Stefnuskrá flokksins er að sjá um að lögum viðvíkjandi takmarkaðri vínsölu sé fylgt, jafn framt því að bæta lögin og reyna að koma á vín- og aðflutningsbanni. Í hverjum forseta kosningum í Bandaríkjun-

um hefir þessi flokkur útnefnt forsetaefni úr hóp bindindismanna, sem bindindisvinir hafa stutt með atkvæðagreiðslu, og þó þeir hafi aldrei getað áorkað því að koma þeim manni, sem þeir hafa útnefnt, í forseta sætið, þá hefir hefir þó þetta vakið meiri eftirtekt á flokknum en nokkuð annað og á ýmsan hátt hjálpað áfram málefnum hans. Good Templara Reglan er móðir þessa flokks og hefir gefið honum marga af beztu mönnum hans. Hún hefir verið þessum mönnum hinn bezti skóli, því á fundum hennar hafa þeir lært öll fundarsköp; sjóndeildarhringur hugsana þeirra víkkað við að heyra skoðanir annara á ýmsum málum og sjálfir hafa þeir smámsaman farið að taka þátt í Reglumálum og æft sig þannig á að láta skoðanir sínar í ljós fyrir almenningi. Það er eigi sjaldan að maður heyrir suma af hinum beztu ræðuskörungum Bandaríkjanna og annara landa segja, að Good Templara Reglunni eigi þeir að þakka hvaða menn þeir hafi orðið — og þó, því miður, yfirgefa þeir gömlu fóstruna sína.

Út af smá deilum, sem áttu sér stað milli Good Templara stúkunnar í Buffalo og eins meðlims hennar, að nafni Porter, fór hann ásamt nokkrum fleirum úr Reglunni og myndaði félag 1877 er hann kallaði, Royal Templars of Temperance. Félag þetta náði engri útbreiðslu í Bandaríkjunum og eftir nokkur ár dó það alveg út, en Porter flutti búferlum til Toronto og stofnaði þar 1879, grein af þessum félagsskap. Í Kanada náði þessi félagsskapur fljótt hylli fólksins og þroskaðist brátt, en ekkert samband vildu Kanada

stúkurnar hafa við Bandaríkja stúkurnar, sem þá voru á fallandi fæti.

Grundvallar-atriði Royal Templars of Temperance eru að mestu leyti sniðin eftir grundvalllar-atriðum Good Templara Reglunnar. Heit það er félagar vinna, er mjög líkt heiti Good Templara, að undanteknu því að Good Templara heitið varir alla æfi en Royal Templara að eins meðan þeir eru í félaginu.

Tvö félög,sem áður voru starfandi:British Templars og British Templars of America sameinuðu sig Royal Templurum. Um 1883 byrjuðu Royal Templarar að selja félagsmönnum lífsábyrgð. Lífsábyrgðin var bundin þeim skilmálum, að gengi meðlimur úr félaginu varð lífsábyrgð hans ógild. Á þenna hátt trygði félagið sér félagsmenn æfilangt. Royal Templarar eru nú um 22000 í öllum fylkjum Kanada.

Ýmsum atkvæðamestu konum Good Templara Reglunnar fanst, að ef þœr kæmu á fót félagi, sem að konur hefðu aðgang að, gætu þær enn betur en í Good Templara Reglunni, sem var jafnt fyrir karlmenn og konur, rætt ýms mál, er lytu að uppeldi barna og ýmsum heimilishögum. Kona sú, er fyrst hóf þessa hreyfingu var frú Mattie McClellan Brown, fyrverandi hávaratemplar. Hún skoraði á allar konur, er væru slíkri félagsstofnun hlyntar, að mæta á fundi, er hún boðaði til. Fundurinn var haldinn og ákvörðun tekin á honum að stofna félag, sem skyldi þó aðallega vera bindindisfélag. Var það stofnað 1874 og nefnt „Kristilegt bindindisfélag kvenna" (Women's Christian Temperance Union). Stefna félagsins var að hafa þau áhrif á heimilislífið, að vín-

nautn væri ekki höfð um hönd á heimilunum, að innræta börnunum óbeit á áfengi, að félagskonur sjálfar væru í algjörðu bindindi, giftust ekki þeim mönnum, sem neyttu áfengis eða á nokkurn hátt studdu að að aðrir neyttu þess. Enn fremur að reyna eftir fremsta megni að hafa áhrif á atkvæðagreiðslu landsins í öllum þeim málum er að bindindi lytu. Að eins konur gátu orðið meðlimir í félaginu, þó hefir nokkrum mönnum verið veitt inntaka og þeir gjörðir heiðurs félagar, sem ekki hafa atkvæðisrétt í nokkrum málum, ekki heldur geta þeir haft nokkurt embætti á hendi í félaginu.

Eins og nærri má geta eru aðeins fáir karlmenn í félagi þessu, því enn sem komið er virðist karlþjóðinni ógeðfelt að vera í þeim félagsskap, sem ekki veitir þeim yfirhönd yfir kvennþjóðinni, hvað þá heldur þeim, sem ekki gefur þeim jafnrétti.

Félag þetta er heimsfrægt og hefir náð útbreiðslu ekki að eins í Bandaríkjunum og Kanada, þar sem félagatala er 365,000, heldur einnig í flestum ríkjum hins mentaða heims. Sem eitt af hinum öflugustu og starfsömustu siðbóta og siðmenningar félögum er það viðurkent um allan heim.

Í austurhluta Bandaríkjanna, sérstaklega Massachusetts, Rhode Island og Connecticut, er margmennur félagsskapur er nefnist ,,Knights of the Golden Cross'' og í Suðurríkjunum, einkum Tennesee og Kentucky, er annað félag er nefnist ,,Knights of Samaria''. Starfsemi beggja félaganna er sú sama, nefnilega, að útrýma áfengi úr landinu. Bæði félögin eru

fjölmenn, þó „Knights of the Golden Cross" sé fjölmennara.

Árið 1892 var í Bandaríkjunum myndaður flokkur er nefnist „Anti-Saloon League". Í þessum flokki, eins og í Prohibition flokknum er að eins sjálfboðaliðar, sem engu bindindisfélagi þurfa að tilheyra. Stjórn beggja flokkanna er í höndum forseta og nefnda, sem starfa í hverju ríki, svo er nefnd kosin, sem samanstendur af mönnum víðsvegar um öll Bandaríkin, og skal sú nefnd hafa umsjón með starfsemi flokksins í heild sinni.

Verk flokkanna er að kollvarpa völdum Bakkusar, fyrst og fremst í hverju ríki út af fyrir sig, og svo í öllum ríkjum Bandaríkjanna í heild sinni.

Í báðum þessum flokkum eru meðlimir úr öllum bindindisfélögum landsins og í þá hafa safnast beztu menn félaganna, því í þessum flokkum geta þeir beitt kröftum sínum óhindraðir af nokkrum félagsböndum. Þessir flokkar eru stærstu og áhrifamestu flokkarnir, sem starfa að þessum málum.

Eins og öllum er ljóst, er þekkja nokkuð til sögu Kanada, bygðist austur hluti þess fyrst og í þeim hluta náði margskonar félagsskapur fótfestu, en smám saman breiddist bygðin út og flutti með sér félagslífið. Þannig var það að Good Templara Reglan, ásamt öðrum félagsskap, varð samferða fólksflutningnum vestur á bóginn. Manitoba fylkið var austasti hlutinn af óbygðinni og þangað fór fólkið að hópast, og þar sem nú er Winnipegborg en þá var að eins mjög lítið þorp, sem kallað var Fort Garry var hin fyrsta Good Templara stúka í Manitoba stofnuð árið 1873,

af erkidjákna McLean. Stúkan var nefnd ,,Fort Garry" Nr. 1., eftir þorpinu.

Hver Good Templara stúkan eftir aðra var nú stofnuð í fylkinu, þar sem nógu þéttbygt var orðið, en allar voru þær enskumælandi. Árið 1883 var stórstúka mynduð fyrir Manitoba og Norðvestur landið.

Fyrsta stúkan meðal útlendinga í Manitoba, og reyndar í Kanada, var íslenzka stúkan ,,Hekla" Nr. 33, er stofnuð var í desember 1887 af Thos. Mixon. Þar næst — 1888 — var önnur íslenzk stúka stofnuð í Winnipeg, er nefnd var ,,Skuld", þar næst voru myndaðar stúkurnar ,,Einingin" í Selkirk, ,,Iðunn" á Grund og ,,Vonin" á Gimli. Síðan var stofnuð hver stúkan af annari bæði meðal Íslendinga og hérlendra manna.

Árið 1902 var fyrst stofnuð stúka meðal Svía í Kanada, stúka sú var stofnuð í Winnipeg af frú Guðrúnu Búason og ungfrú Helgu H. Johnson, meðlimum stúkunnar Heklu, og kölluð ,,Framtidens Hopp". Síðan hafa all-margar stúkur verið stofnaðar meðal Svía víðsvegar um landið.

1913 var hin fyrsta Norska stúka stofnuð í Manitoba. Hún var einnig stofnuð í Winnipeg af Guðrúnu Búason og nefnd ,,Dovre".

Hver þessara þjóðflokka notar sitt eigið mál við fundarhöld sín og hjá þeim öllum er talsverður áhugi fyrir bindindismálum.

Good Templarar í Manitoba voru ekki lengi ánægðir með Manitoba fylki sem hið eina starfsvið sitt, þeir fluttu því Regluboð sitt vestur í vesturfylkin Saskatchewan og Alberta. Undir umsjón stórstúku

Manitoba fylkis, voru í báðum þessum fylkjum myndaðar stúkur meðal innlendra manna, Íslendinga og Svía, sem allar heyrðu til stórstúku Manitoba. Þessi tilhögun hélst þar til 1912, að Manitoba stórstúkan sá sér ekki fært, að hafa umsjón yfir svo stóru umdæmi og annast starfsemi þá, sem nauðsynleg var. Hún fékk því Regluboða að nafni R. D. Ward frá Nova Scotia, sendi hann til Alberta, þar sem hann skyldi stofna nýjar stúkur og styrkja þær sem þar voru unz unt væri að mynda stórstúku í því fylki. Þetta tókst mæta vel og þó allur kostnaður í sambandi við regluboðið, bæði þá og fyr, væri afar mikill, starfaði Ward að þessum málum þar til í janúarmánuði 1912 að hann myndaði stórstúku í Alberta.

Saskatchewan stúkurnar tilheyra enn Manitoba stórstúkunni, en búist er við að skamt verði þar til Reglan verði þar svo sterk, að hægt verði að stofna þar stórstúku.

Öll fylkin í Kanada að undan skildu Saskatchewan hafa stórstúku hvert út af fyrir sig. Fjölmennasta stórstúkan er í Nova Scotia, þar sem félagatal er rúm 6000.

Tala Good Templara í Kanada er rúm 20,000.

Tala Good Templara í Bandaríkjunum er um 50,000.

Auk bindindisfélaga þeirra, sem talin eru hér að framan og starfandi eru í Kanada, má nefna tvo flokka, sem stefna að því að leysa landið undan oki Bakkusar. Flokkar þessir eru: Dominion Alliance og Moral and Social Reform Council. Í Dominion Alliance eru fulltrúar kirkna og sunnudagaskóla,

bindindis- og siðmenningarfélaga. Hver deild þessa flokks hefir stjórn út af fyrir sig og er ekki háð öðrum deildum. Flokkur þessi er sérstaklega fjölmennur í Ontarío og er þar undir stjórn prests eins, F. B. Spence að nafni. Í því fylki hefir hann tekið mikinn þátt í afskiftum stjórnarinnar af tilbúningi og sölu áfengra drykkja.

Moral and Social Reform Council var stofnað fyrir nokkrum árum, mest vegna forgöngu Royal Templara og manna í Presbytera- og Meþódistakirkjunni. Tildrögin til stofnunar hans voru þau, að ýms bindindisfélög kusu nefndir, hvert innan sinna vébanda, er heimsækja skyldu stjórnarforingja fylkjanna, í þeim tilgangi, að fá þær lagabætur á vínsölulögunum, sem hvert félag um sig óskaði. Oft komu þessar nefndir með bænarskrár, hver frá sínu félagi og án þess að vita um afstöðu hinna bindindisfélaganna, þessar bænarskrár lögðu þær fram fyrir stjórnina, sem jafnan var viljug á að hlusta á kröfur þeirra og lofa þeim fylgi sínu — jafnvel þó hún aldrei ætlaði sér að uppfylla loforðin, — en kröfur bindindisfélaganna komu oft í bága hver við aðra, og stjórnin kvað sér því ómögulegt að vita vilja bindindismanna.

Bindindismenn voru sér þess meðvitandi, að þeir væru ekki nógu samtaka og til þess að fyrirbyggja að nokkrar skiftar skoðanir kæmu fram hjá félögunum í tilraunum þeirra við fylkisstjórnirnar, mynduðu þeir þenna flokk í hverju fylki út af fyrir sig.

Flokkurinn samanstendur af fulltrúum, sem kosnir eru frá hverri Kirkjudeild, frá hverju bindindisfélagi og frá verkamannafélögum. Úr hóp sínum kýs

flokkurinn sér, ár hvert, framkvæmdarnefnd, er annast gjörðir flokksins yfir árið, en framkvæmdarnefndin hefir rétt til að skipa nefndir sér til aðstoðar eftir því sem þörf gjörist.

Þessi tvö félög Dominion Alliance og Social and Moral Reform Council eru því nokkurskonar politískir flokkar og milliliður milli stjórnarinnar og bindindisfélaganna. Þótt Social and Moral Reform Council flokkurinn sé ekki gamall hefir hann samt, engu síður en Dominion Alliance, framkvæmt mikið. Á hverju sumri heldur hann uppi bifreiðarferðum um landið og hefir í þessum ferðum vel þekta ræðumenn, söngfólk og hornleikara. Fólk þetta fer frá einum stað til annars, heldur samkomur máli sínu til styrktar og hvetur fólk til starfsemi í bindindismálinu.

Því verður ekki neitað að Good Templara Reglan er mörgum sinnum fámennari nú í Norður-Ameríku, heldur en hún var þegar hún var í blóma sínum. En þrátt fyrir það þó meðlimum hafi fækkað, er hún þó alls ekki í hnignun. Áhrif þau, er hún hefir á þjóðlífið, eru sí og æ að verða víðtækari og meiri. Frá Good Templara Reglunni eru mynduð flest af þeim bindindisfélögum og flokkum, er hér hafa verið upptaldir, bæði í Bandaríkjunum og Kanada. Félögum þessum ásamt Good Templara Reglunni hefir tekist að opna svo augu almennings fyrir skaðsemi áfengis, að löggjafarþingin hafa fundið sig knúð til að taka málefni þeirra til íhugunar, og hafa sumstaðar takmarkað með lögum fjölda áfengis sölustaða eða reist aðrar skorður við notkun þess, og sumstaðar samþykt algjört vínbann.

Þannig er það í Kanada að eitt af fylkjum þess — Prince Edward Isand — er algjörlega undir vínbanni, einnig er Nova Scotia, þéttbygðasta fylki landsins, undir banni að undan skilinni borginni Halifax, sem er höfuðstaður fylkisins. Meiri og minni hlutar allra hinna fylkjanna er undir vínbannslögum, svo að óhætt er að fullyrða að helmingur landsins er undir áfengissölubanni.

1898 fór fram atkvæðagreiðsla yfir alt Kanada, um algjört vínbann. Öll bindindisfélög tóku höndum saman og studdu að því, að sem flestir af þeirra flokki greiddu atkvæði. Atkvæðagreiðslan féll þannig, að 278,493 voru með banni, en 264,490 á móti. Í hverju fylki að undanskildu Quebec, var meiri hluti atkvæða með banninu, en stjórnin, sem háð var vínbruggurum og vínsölum, neitaði að taka atkvæðagreiðsluna til greina og fegraði málstað sinn með því að staðhæfa, að meiri hlutinn við atkvæðagreiðsluna hefði ekki verið nógu mikill til þess að hægt væri að taka úrslit atkvæðanna til greina.

Síðan hefir í öllum fylkjunum farið fram atkvæðagreiðsla um að banna vínsölu á takmörkuðum stöðum. Sú atkvæðagreiðsla hefir borið þann árangur, að nú er helmingur landsins undir vínbanni.

Í Bandaríkjunum er hér um bil sama ástandið. Af 2,973,890 ferh.mílum eru 2,120,388 eða 71% undir vínbanni og af 92,000,000 íbúum búa 46,091,098 eða 50% undir vínbannslögum.

Þetta er árangurinn af starfsemi Reglunnar í þessum ríkjum. Þar sem áður að það var talið menningarstig að neyta áfengis, er það nú álitið vansæmi.

Að vera bindindismaður er nú viðurkent beztu meðmæli til hverskonar atvinnu. Nú er ekki lengur álitið nauðsynlegt í veizlum og gestaboðum að hafa áfengi á boðstólum, heldur er það talinn hinn mesti ósómi að sjást ölvaður.

Í öllum siðuðum löndum er nú vöknuð hræðsla við áfengið. Allar þjóðir, öll löggjafarþing og allir stjórnvitringar telja áfengið skaðvænlegasta þjóðarmein nútímans.

Það er óhætt að fullyrða, að bindindismálið hefir aldrei staðið á jafn traustum grundvelli og nú. Samt er ekki ástæða fyrir bindindisvini að leggja niður starf sitt. Það hefir aldrei í sögu þjóðanna verið starfað eins ötullega af hálfu þeirra, sem búa til og selja áfengi, og einmitt nú, að kollvarpa áhrifum bindindisfélaganna. Vitandi það, að þjóðirnar séu vaknaðar til meðvitundar um djúp þeirrar smánar og siðspillingar, sem þeir hafa verið að steypa þeim í, leggja þeir nú fram alla krafta sína til að viðhalda veldi sínu. Engin ráð líta þeir ónotuð og kjörorð þeirra verða ávalt þau sömu: niður með menningu niður með siðferði og niður með alt það góða og upplyftandi í mannshjartanu.

Til þess að standast árásir þessara manna, þurfa allir bindindismenn að standa sameinaðir. Hver einasti Good-Templar ætti því á ný að strengja þess heit, að vera trúr félagi sínu, vernda heiður þess og standa í bardaganum, þar til sigurinn er unninn og fáni algers vínbanns er dreginn upp á hverri stöng í landinu.





# *ÁHRIF VÍNNAUTNARINNAR FRÁ HEILSUFRÆÐISLEGU SJÓNARMIÐI.*

---

Eg hefi verið beðinn að skrifa stutta ritgjörð um áhrif áfengisnautnarinnar frá sjónarmiði heilsu og líffærafræðinnar. Skoðanir manna á áhrifum áfengis eru næsta sundurleitar og kynlegar sumar hverjar, eins og eðlilegt er, því að alcohol hefir margvísleg og kynleg áhrif og líkami mannsins hefir mjög svo flókna samsetning. Það er næsta erfitt að komast fyrir allar verkanir alcohols og tiltölulega fáir geta myndað sér skoðanir um það mál hleypidómalaust; en á síðari árum hafa margir vísindamenn rannsakað þetta efni og reynt að útrýma getgátum um verkanir áfengis og setja í staðinn röksamlega þekkingu, bygða á ákveðnum tilraunum. Sumir hafa rannsakað verkanir þess á meltingarfœrin, aðrir hafa gert tilraunir með áhrif þess á hjarta og vöðva, og enn aðrir, hvernig það verkar á heilann. Þessar tilraunir hafa allar komið í einn stað niður, allar miðað að því, að kollvarpa mörgum fornum og föstum hleypidómum. Mjög

margir vísindamenn hafa framkvæmt þessar tilraunir víðsvega um heim, enda stöndum vér miklu betur að vígi eftir en áður, til að dæma af rökum og óyggjandi vissu um verkanir áfengis. Eg skal nú stuttlega og svo skilmerkilega sem mér er unt skýra frá niðurstöðu þessara rannsókna.

Frá ómuna tíð hafa menn álitið vín vera hressandi og örvandi. Því hefir verið trúað að meltingin örvaðist við hóflega nautn alcohols, og að fæðan sameinaðist líkamanum skjótar með því móti. Því hefir sömuleiðis verið alment trúað að það væri afbragðsgott örvunar lyf við hjartasjúkdómum svo og að það efldi þrótt og fjör vöðvanna og loks, sem mest er um vert, að það örvaði og efldi hugsunina. Eftir þeim gögnum, sem fram hafa komið í seinni tíð, virðist alcohol í engan stað hafa þessar verkanir, heldur þvert á móti er sú niðurstaðan, þegar öllu er á botninn hvolft, að verkanir þess eru deyfandi en ekki örvandi, og að það ætti að réttu lagi að skipa því á bekk með svefnlyfjum og deyfandi lyfjum (Narcotics og Anesthetics). Rökin, sem að þessari niðurstöðu liggja, ættu allir að vita ekki einungis drykkjumenn, heldur hver borgari, sem lætur sér ant um heill og hag þjóðfélagsins.

Eg skal nú leitast við að segja frá þessum rökum í sem allra styztu máli. Í fyrsta lagi: að því er snertir áhrif víns á meltinguna, þá er það sannað með tilraunum, að alcohol örvar meltingar vökvana, jafnframt sem það raskar eðlilegri verkun þeirra og gerir því meltingunni meira tjón en gagn þegar til lengdar lætur. Um áhrif áfengsnautnar á starfsemi hjartans er hið sama að segja, að þau eru deyfandi en ekki

styrkjandi, nema í einstöku tilfelli, sem tæplega öðrum en læknum er fært að dæma um, og í stórum skömtum getur alcohol algerlega lamað hjartað. Um verkanir alcohols á vöðvana og vinnuþol manna er það sannað til fulls af mörgum tilraunum, að enginn maður orkar meira við það að neyta víns, heldur á sér hið gagnstæða stað, að það einmitt hnekkir verkaþrótt hans. Vafalaust mun mörgum þykja þetta koma í bága við sína reynslu. En skýringin er sú, að vínið sljófgar dómgreindina. Manni finst hann verða sterkari við vín, en ekki eykur það honum afl. Manni kann að finnast hann vera hraðvirkari og vandvirkari við vín en ella, en alt um það er sannað af mörgum vísindalegum tilraunum að þessu er á alt annan veg varið. Það kemur æ betur fram, eftir því sem nákvæmum tilraunum fjölgar, að þegar um langvarandi líkamlega áreynslu er að ræða, þá getur alcohol og vel unnið verk alls ekki farið saman. Smáir skamtar af áfengi geta samt örvað til áreynslu um mjög stutta stund (í hálftíma eða skemur) en þar á eftir tekur við hin deyfandi verkun lyfsins og raunin er sú, að hinn sami maður afkastar minna verki með víni en án þess.

Um áhrif alcohols á taugakerfi og heila eru allir sammála, sem bezt hafa rannsakað það efni, að áfengið sé þeim líffærum ekki hollara heldur en meltingarfærum og vöðvum. Einn af skarpvitrustu spekingum á 19. öld, Von Helmholtz hefir lýst því yfir, að jafnvel örlítið alcohol væri nóg til þess, meðan áhrif þess stæðu, að firra sig þrótti til sjálfstæðrar hugsunar eða til að ráða fram úr vandasömu viðfangsefni. Hið sama virðist hafa sannast við nýjar tilraunir á öðrum speki-

mönnum, og áreiðanleg vissa er fyrir því, að enginn nýtur sín eins vel til andlegrar áreynslu undir áhrifum alcohols, þó örlítið sé, og án þess. Sumir hinir mestu líffærafræðingar vorra daga hafa rannsakað þetta atriði, og hafa allir kveðið upp hinn sama dóm og Von Helmholtz.

Yfirleitt má svo að orði kveða, að ef áfengis er neytt að staðaldri, þá skemmir það helztu líffæri líkamans, því meir sem meira er neytt af því, og því lengur þess er neytt. Hraustur maður og heilsugóður hefir aldrei nokkurn tíma nokkurt gagn af áfengi, hvernig sem á stendur: Jafnvel þó fullhraustum manni verði ekki tjón að því að neyta þess hófsamlega stöku sinnum, þá hefir hann aldrei neitt gott af því; það verður að skoðast sem óþarfa óhóf, að minsta kosti. Gamlar erfðakenningar halda því fram að heilbrigt fólk geti haft gott af að neyta alcohols í viðlögum; slíkum kenningum er nú hrundið. Það hefir sannast að þær eru bygðar á misskilningi. Gagnlegt er að eins hægt að álíta alcoholið fyrir líkama mannsins, þegar hann hefir lengi þjáðst af hitasótt t. d. taugaveiki, þegar líkaman hefir um langan tíma skort nægilega fæðu og líkamshiti sjúklingsins er hár til langframa. Flestir nútíðar læknar telja nautn alcohols gagnlega þegar svo er ástatt. Þó fjölgar þeim læknum stöðugt sem álíta alcohol gagnslaust við hitaveiki.

Nú sný eg mér að aðal-atriði þessarar stuttu ritgerðar: því verki sem alcoholið vinnur að aukning og útbreiðslu veikinda. Alcoholið er ekki að eins

bein orsök ýmsra veikinda, heldur veitir það einnig fjölmörgum öðrum hið dyggasta lið. Líkami mannsins er af náttúrunni vopnum búinn: svo að hann getur barist við sjúkdóma, er á hann leita. Heilbrigður líkami getur hjálparlaust sigrast á flestum veikindum, sem um stundarsakir kunna að ná inngöngu í líkamann. Til þess að líkaminn geti borið sigur úr býtum við hinn herjandi óvin, verða öll varnargögn hans að vera búin hinu bezta mótstöðuafli. Alt sem dregur úr mótstöðuafli líkamans við veikinda herskarana, gerir það óvissara hvor velli heldur. Gerlar, sem eru svo smáir að þeir sjást ekki með berum augum eru orsök mjög margra sjúkdóma. Sé líkaminn hraustur og öll varnargögn hans í góðu lagi eru þessir sníkjugestir tiltölulega hættulausir. Jafnvel þó þeim takist að setjast að í líkamanum reka útverðir hans þær brátt á flótta. Þeir verða að eins hættulegir þegar dregur úr varnaröflum líkamans á einn eður annan hátt. Það er marg-sannað að stöðug nautn áfengis veikir líkamann feykilega í vörninni gegn árásum þessara örsmáu sníkjugesta. Það er alkunnugt að drykkjumaðurinn er móttækilegri fyrir lungnabólgu, allskonar blóðeitrun og tæringu — í stuttu máli öll veikindi, er gerlar valda, heldur en sá sem ekki neytir áfengis. Um alla víða veröld hefir sú raun á orðið að drykkjumönnum er hættara við lungnabólgu en nokkrum öðrum. Og þeim er ekki að eins hættara við að *fá* veikina, heldur *deyja* þeir tiltölulega miklu oftar úr henni en þeir sem ekki neyta áfengis. Sama er að segja um alls konar berklaveiki. Sumir, sem þetta hafa athugað bezt, hafa komist svo

langt, að geta sýnt með nokkurn vegin órækum sönnunum að dauðsfallatala af völdum tæringar í hverri sveit sé í réttu hlutfalli við áfengið, sem neytt er, innan héraðs. Allsheljarfundur tæringar-lækna, sem haldinn var í París árið 1905, kannaðis við sambandið á milli áfengisnautnarinnar og tæringarinnar. Hann samþykti fundarályktun er svo hljóðar: „Sökum hins nána sambands milli áfengisnautnar og tæringar, telur fundurinn mjög heppilegt, að baráttan gegn báðum þessum meinum mannkynsins væri háð í félagi". Drykkjumaðurinn sjálfur er ekki að eins móttækilegri fyrir veikina en aðrir, heldur virðast börn hans borin með minna mótstöðuafli. Sameiginleg reynsla sýnir að börn drykkjumanns verða oftar fyrir árásum tæringarinnar, jafnvel þó að foreldrarnir hafi komist hjá henni, heldur en börn þeirra foreldra, er afneita áfengum drykkjum.

Annað dæmi, sem sýnir að áfengisnautn dregur úr mótstöðuafli líkamans, er það, að sár gróa miklu seinna og ver á drykkjumönnum en þeim sem ekki neyta áfengis. Allir skurðlæknar vita hve mikill munur er að fást við sjúklinga eftir því hvort þeir eru reglumenn eða ekki. Holskurðir á drykkjumönnum eru ávalt álitnir miklu hættulegri en á öðru fólki. Þess er og vert að geta að ávalt er miklu hættulegra að nota deyfimeðal svo sem „ether" eða „chloroform" við drykkjumenn en nokkurn annan. Orsökin er sú að hin viðvarandi nautn áfengisins hefir veiklað hjartað svo mjög að hætt er við að það þoli ekki áreynsluna sem deyfingin veldur.

Þó að þeir sjúkdómar, er nú hafa nefndir verið

séu ekki beinlinis afleiðíng áfengisnautnarinnar, þá eru þeir það þó óbeinlínis vegna þess að dregið hefir úr mótstöðuafli líkamans við áfengisnautnina. Þegar því óvinina ber að garði og líkaminn fylkir varnarliðinu, þá er það orðið svo veiklað að það getur ekki veitt óvinunum viðnám. Þetta verður mjög skiljan legt, þegar þess er gætt, að áfengið veikir, að meira eða minna leyti, hvert einasta líffæri líkamans. Hvítu blóðkornin eru aðal veikinda-verðir líkamans. Það mætti líkja þeim við velskipað lögreglulið. Óðara en óvinurinn kemst inn í einhvern hluta líkamans fylkja þessi hvítu blóðkorn sér saman, ávalt fleiri og fleiri umhverfis blettinn, þar sem óvinurinn hefir náð fótfestu. Ákafur bardagi hefst samstundis milli hinna aðkomnu óvina og hvítu blóðkornanna. Er þá oft líf sjúklingsins undir því komið hvorir bera sigur úr býtum. Miklu oftar vinna hvítu blóðkornin sigur, smáu aðkomnu óvinirnir eru þá að velli lagðir, eitrið er þeir hafa myndað, gert skaðlaust og á skömmum tíma tekst náttúrunni að græða þau sár, er upp hafa komið. Mikið er þá undir því komið að blóð sjúklingsins sé hreint og gallalaust. Ef blóðið er ósjúkt, er fyrsta og helzta skilyrðið fengið fyrir því að veikin batni. Það hefir sannast að blóð drykkjumanna er aldrei ósjúkt, hvítu blóðkornin eru fjörminni, seinni í hreyfingum og í alla staði óhæfari til að taka þátt í þierri baráttu, er stöðugt getur viljað til, að taka þurfi þátt í til þess að verja heilsu og jafnvel líf einstaklinganna.

Auk þess að áfengið er óbein orsök sjúkdóma, þá getur það einnig verið bein orsök fjölda annara. Geð-

veikrahælin eru full af sjúklingum, sem enga von eiga um bata. Margir þeirra mega „þakka" það áfenginu. Auk geðveiku vesalinganna, sem enga von eiga, er varla hægt að ganga skrefi lengra í bæjum og borgum og þorpum án þess að mæta fólki sem þjáist af ólæknandi veikindum, er áfengið hefir valdið. Hver læknir kannast við drykkjumenn, sem þjást af langvinnu meltingarleysi og magakvefi sökum áfengisnautnar. Í mörgum drykkjumönnum verður lifrin hreinasta gróðrarstíga fyrir marga ólœknandi sjúkdóma, sem fyr eða seinna leggur þá oftast nær í gröfina. Áfengisnautnin er oft eina ástæðan sem hægt er að finna til ýmsra nýrnasjúkdóma. Oft eyðileggjast æðarnar smámsaman, svo að hjartabilun og óregla á blóðrás í heilanum eða öðrum hlutum líkamans getur valdið skyndilegum dauða. Það er óþarft að telja fleira upp af þessu tagi: dæmin eru deginnm ljósari, sérhver maður ætti að nema staðar og hugsa sig um, þó ekki væri nema litla stund. Ef hann gerði það, mundi varla hjá því fara, að hann stæði sem steini lostinn er hann kœmi auga á hinn hræðilega óskunda, er áfengið veldur í öllum hlutum líkamans. Það er misskilningur,að ætla, að hin illu áhrif áfengisins komi að eins fram á ofdrykkjumönnum; svo kallaðir hófdrykkjumenn komast heldur ekki hjá hinum hræðilegu áhrifum þess. Það getur vel viljað til að hófdrykkjumaðurinn verði þess ekki var, að taugakerfi hans og önnur líffæri eru veikluð af áfengisnautn þangað til hættutímann ber að höndum, þegar veikindin dynja yfir hann eins og þruma úr heiðskíru lofti. Þá kemur það, ef til vill, í ljós að lífsmagnið,

vegna áhrifa áfengisins, er svo að þrotum komið, að þau veikindi, sem það að öllu sjálfráðu hefði auðveldlega sigrað, fara nú á annan veg. Veikindin sigra, sjúklingurinn verður herfang dauðans og hnígur í gröfina löngu fyrir tímann.

Syndir feðranna koma fram á börnunum í þriðja og fjórða lið, stendur í lögmálsbók Mósesar. Athuganir læknisfræðinnar nú á dögum, staðfesta þennan mikilvæga en lítilsvirta sannleika. Á engu svæði læknisfræðinnar, finnum vér jafn áþreifanlega að þetta er satt, eins og á drykkjumanninum og börnum hans. Ritningin segir að þú getir hvorki safnað vínberjum af þyrnum né fíkjum af þistlum. Eins má ekki heldur búast við að foreldrar, sem áfengis neyta, beri heilsuhraust börn inn í heiminn, eða að minsta kosti ekki jafn hraust, hvorki á líkama né sál, eins og þau mundu hafa orðið, ef foreldrarnir hefðu ekki verið ötuð áfengissaurnum. Hin líkamlegu, andlegu og siðferðislegu einkenni vor eru beinlínis ávöxtur af hegðun feðra vorra, og vér, sem nú lifum, leggjum að nokkuru leyti grundvöllinn, sem vellíðan komandi kynslóða verður bygð á. Börn þeirra foreldra, er áfengis neyta, og jafnvel þó faðirinn einn sé sekur, eru yfir höfuð veikbygðari en önnur börn, og tiltölulega miklu fleiri þeirra deyja á fyrstu árum æfinnar. Og líkami þeirra er ekki að eins veikur, heldur eru þau oft andlega visin sinustrá, þetta sézt á því, hve margir hálfvitar og geðveik börn fæðast af áfengisneytendum. Taugakerfi þessara barna er sýkt og af því leiðir vitfirring og aðrir taugasjúkdóma. Áfengið á svo stóran þátt í vitfirring meðal þjóðanna,

að ef Bakkus væri útlægur gjör af jarðríki, þá mundi helmingur allra geðveikra hæla standa tómur innan fárra ára.

Vér eigum það að þakka vísindarannsóknum síðustu ára, að nú þarf ekki lengur að þræta um hin illu áhrif er áfengisnautnin veldur. Þróun bindindis starfseminnar er mest undir því komin, að útbreiða sem allra mest, þekkinguna á hinum skaðlegu áhrifum hennar. Þennann sannleika þarf að prédika með allri stillingu, en þó hiklaust, án alls ofsa og óþarfa æsinga. Afleiðingar áfengisnautnarinnar eru svo alþektar og auðséðar, að ef þær eru réttilega fram settar, þá ættu þær að sannfœra hvern mann, sem vill láta sannfærast af ljósum rökum, að velferð mannkynsins er að miklu leyti komin undir heppilegum framgangi bindidismálsins. Eftir því sem tímar líða verður baráttan fyrir tilverunni í hinum siðaða heim sífelt strangari. Til þess að hver einstaklingur geti borið sigur úr býtum í þeim hildarleik, þarf að hrinda sem flestum torfæum úr vegi hans. Þeim þjóðum einum mun í framtíðinni sigurinn vís, sem hafa séð fyrir því, að borgarar þeirra hefðu sem hraustasta sál í sem hraustustum líkama. Útrýming áfengis í öllum þess myndum verður mikilvægt atriði til að ná því takmarki. Bindindismenn geta ekki borið sigur úr býtum, fyr en mönnum skilst að það er jafn nauðsynlegt að forðast áfengi sem hvert annað eitur. Og það eigum vér að þakka hinum mikla skara ótrauðra, sístarfandi bindindismanna og betri uppfræðslu alþýðu, að algjör útrýming áfengis nálgast nú óðum, miklu óðar en oss kann í fljótu bragði að virðast að núverandi ástand bendi til.





# *BINDINDISMÁLIÐ FRÁ HAGFRÆÐILEGU SJÓNARMIÐI.*

Eftir F. J. BERGMANN.

---

## *I.*

### *Fyrstu tildrög til áfengisnautnar.*

Einhverju sinni í fornöld urðu menn þess varir, að gerð eða ólga breytti sykri í vínanda og kolsýru. En um leið fundu þeir af áhrifum drykkjarins, er á þenna hátt var gerður, að hann var áfengur. Um leið byrjar saga áfengisins, sem hefir verið mannkyninu svo mikil harmkvælasaga. Lúter hélt fram eins og kunnugt er og oft notað af áfengis vinum, máli þeirra til stuðnings, frjálsræði í þeim efnum. En þeir gleyma því að hann bætti við: Sá sem fyrst gaf sig við öl-gerð, *ille fuit pestis Germaniae* — hann hefir verið drepsótt Þýzkalands. Austurlanda spekingurinn mikli, Búdda, sagði: „Þú skalt engan áfengan drykk drekka". Í Kórani er vínnautn bönnuð: „Með víni og svalli vill Satan koma af stað fjandskap og hatri

meðal yðar, og halda yður frá að ákalla Alla og frá bænagjörð. Öllum eru kunnar áminningar nýja testamentisins um bindindi. Oft er vikið að áfengisnautn í sögu menningar þjóðanna gömlu. Prestar, spekingar og löggjafar með Hindúum, Persum, Kínverjum, Palestínumönnum, Egiptum, Grikkjum og Kartagóborgarmönnum gerðu margar tilraunir til að stemma stigu fyrir áfengisnautnar-óhæfunni. En í hinum forna heimi virðist þessi ósómi aldrei hafa eins náð sér niðri og orðið annað eins áhyggjuefni og nú á dögum í hinum vestlæga heimi. Eru til þess ýmsar orsakir. Fornmenn notuðu lög úr vínberjum og ýmsum aldinum og til ölgerðar ýmsar korntegundir. Á dögum Rómverja notuðu villuþjóðir í Norðurálfu áfengi, gjört af hunangi (mjöð), byggi (bjór) og eplum í stað þrúgna-víns. Sé nógu mikið þambað, eru allir slíkir drykkir áfengir. En áhrifin eru sein og hægfara. Að áfengisnautn vorra daga er svo miklu hættulegri, kemur af notkun kryddvínanna, sem nú eru algengust og svo miklu áfengari. Mun óhætt að fullyrða, að hefði brendu vínin aldrei verið uppfundin, myndi saga áfengisnautnarinnar hafa orðið alt önnur. Á miðöldunum virðast Arabar hafa fengist við að framleiða ilmvökva af ýmsum efnum. Um það leyti er það í frásögur fært, að *Arnoldus de Villa Nova* hafi fundið upp ákavíti *(aqua vitae)* eða brennivín. Hann var efnafræðingur og skoðaði það sem nýtt lyf, og eignaði guðlegan undramátt. Að líkindum mun það hafa orðið að hafa all-langan tíma til að ryðja sér til rúms. Í fyrstu var það eins konar kjarni úr vínberja legi. En er kunnátta og þekking óx, tóku menn að

gera það af öðrum áfengisefnum þar sem vín óx ekki. Malt, sem notað hafði verið frá ómuna tíð til ölgerðar, var nú tekið að nota til ákavítis. Enska orðið *whiskey* er dregið af írsku orði eða gaelisku, sem heitir *uisge* og merkir vatn (*uisgebeatha* = lífsins vatn) og er tilbúið af ýmsum korntegundum, eða þá jarðeplum. Á Hollandi var einirberjabrennivín búið til af rúgi og einirberjum. Þá kom kornbrennivín til sögunnar í norður og austurhluta Norðurálfu. Romm var gert af sykurreyr frá Indíum og jarðepli voru meira og meira notuð. Að síðustu komust menn svo langt, að framleiða vínanda af því nær öllu, sem í var sykurefni og línsterkja. Vínföng voru fyrst notuð til áfengisnautnar á 13. öld. Fyrst framan af var hjátrúin með í spili. Menn álitu, að vínandinn hefði guðlegan undramátt í sér fólginn. Nafnið *ákavíti* — lífsins vatn — segir til. Enn eldir eftir af hjátrú þessari þar sem vanþekking er á háu stigi.

Áfengið virðist einkum hafa komið sér vel í norður hluta Norðurálfu. Þörfin til áfengisnautnar liggur þar að nokkuru leyti í loftslagi, sem er kalt og saggasamt. Þar fekk áfengisnautnin yfirhönd og varð snemma fram úr öllu hófi, eftir því sem áfengið varð ódýrara og svo að segja á hvers manns færi. Hvergi varð hún óskaplegri en einmitt á Englandi fyrri hluta 18. aldar; hún gekk þar þá eins og logi yfir akur. Frá ómuna tíð höfðu menn orðið ölvaðir. En þegar er alment var tekið að nota brent vín til áfengisnautnar, komst ofdrykkjan svo í algleyming, að löggjafarvaldið fann sér skylt að taka í tauma, til að koma í veg fyrir, að óregla yrði óþolandi mannfélags-mein.

Einirberjabrennivínið í lok 17. aldar virðist hafa komið ofdrykkjuósómanum á hœsta stig. Drykkjukrárnar í Lundúnaborg auglýstu þá með tröllaletri, að þeir sem inn vildi koma, gæti orðið druknir fyrir einn skilding *(penny)* og dauðadruknir fyrir tvo. En *hálm* fengi þeir fyrir ekkert, þar sem menn gæti sofið úr sér vímuna. Í þingræðum, sem fluttar voru í parlamentinu um miðja 18. öld eða litlu fyr (1743), er því lýst þann veg, að ekki megi svo ganga um stræti Lundúnaborgar, að ekki liggi þar á steinlögðum akbrautum hreyfingarlausir menn, viti sínu fjær, og sé þá undir mannúð þeirra komið, sem eftir strætunum aki, hvort þeir einlægt að öðru hverju sé að nema staðar, til að velta þessum mannræflum undan hestafótum eða koma í veg fyrir, að þeir kafni í saurrennunum. Þess utan sé strætin full af áflogum drukkinna manna og kvenna. Áfengisnautnin fylli strætin svöllurum, dýflissurnar glœpamönnum, sjúkrahúsin kryplingum. Hún fái vald yfir konum ekki síður en körlum, gjöri þær óhæfar til barnsburðar, eða börnin óheil og aumingja frá móðurlífi.

Þessi ummæli, sem fram komu á þingi Breta um þetta leyti sýna, hve áfengisbölið þá var orðið alment og hve alvörugefnir menn með þjóðinni fundu sárt til út af því. Þeim skildist þegar, hve mannfélaginu væri stórkostleg hætta af því búin. Í grundvallarlögum Metódistakirkjunnar, var ofdrykkjan talin stórsynd og það að kaupa og selja áfenga drykki. Um þetta leyti fer þá líka að verða vart fyrstu hreyfinganna í mannfélaginu í þá átt, að það yrði sjálft að hafa einhverjar tilraunir í frammi til að ráða bót á

þessum mikla meinbug. Það gerðist ekki alt í einu, heldur vöknuðu menn smátt og smátt til viðurkenningar þeirrar skyldu. Smám saman fór mönnum að skiljast, að stjórn landsins myndi litlu til leiðar koma. Ofdrykkjan var ein af mörgum bölkveikjum, er gerðu vart við sig seinni hlut 18. aldar og komust í algleyming, en urðu svo á 19. öld til þess, að hafist var handa og baráttan gegn þeim gerð að velferðarskilyrði fyrir mannfélagið. Læknar tóku um það bil að snúa athygli sinni að heilbrigði mannlegs líkama og skilyrðum hennar; áður höfðu þeir husgað um sjúkdómana að eins. Í enskum heimi rituðu læknar tveir um áfengisbölið frá sjónarmiði heilbrigðisfræðinnar, í byrjan 19. aldar. Var annar þeirra dr. Trotter í Edinborg, hinn Benjamín Rush í Philadelphia; hann var bæði læknir og stjórnmálamaður. Er þess hér getið vegna þess, að skömmu síðar hófst bindindishreyfing í Bandaríkjum með almennum samtökum. En þangað hafði ofdrykkjan borist frá brezku eyjunum. Mun nú sagt verða nokkuð gjör frá fyrstu sögu hreyfingar þessarrar, en þó í eins stuttu máli og frekast má.

## II.

### *Almenn samtök til að hnekkja áfengisnautn.*

Nýi heimurinn varð á undan hinum gamla með að stofna til almennra samtaka, áfengisbölinu til hnekkis. Þær hreyfingar tóku að gera vart við sig með byrjan 19. aldar. New York-ríkið reið á vaðið. Árið 1808 var fyrsta bindindis-félag myndað í bænum Saratoga. Massachusetts-ríkið kom næst. Þar mynd-

aðist félag áfengisnautn til hnekkingar 1813. Þetta virðist hafa verið fyrsti félagsskapur með þessu augnamiði. Samt er sagt að tilraunir hafi verið gerðar þegar 1800, til að fá menn til að skrifa nöfn sín undir skuldbindingar *(pledges)* til að halda sér frá nautn áfengis. Hreyfingin fekk góðan byr og mæltist hvarvetna vel fyrir. Kirkjudeildirnar ýmsu léðu henni fylgi sitt. Fjölmennur félagsskapur myndaðist í Boston árið 1826, er nefndist: Félag til stuðnings hófsemi í Ameríku. Slíkum félögum fjölgaði svo ört, að árið 1833 voru þau orðin um 6000 í ýmsum ríkjum og meðlimatala á aðra miljón. Mest var barist gegn áfengum vínum. Fyrstu tilraunir með að fela alla áfenga drykki í skuldbindingunni mishepnuðust. Smáfélög fáein gengu þar á undan. En Félag til stuðnings hófsemi í Ameríku hafnaði því nýmæli 1833, en samþykti það 1836, og hefir því ákvœði verið haldið ávalt síðan.

Um aldamótin var áfengisbölið í algleymingi á Írlandi og afleiðingar þess einna lakastar þar í allri Norðurálfu. Enda verður Írand fyrst til allra Norðurálfulanda að stofna til félagsskapar því til hnekkis. Árið 1818 myndaðist dálítill hófsemdar-*klúbbur* í bænum *Skibbereen.* Upp úr því mynduðust fleiri félög. Bezt náði hreyfingin sér niðri í Ulster. Þar myndaðist hófsemi-félag 1829, sem kent var við héraðið. Sagt er að félögin hafi þá ekki verið orðin færri en 26 á Írlandi og tvö eða þrjú á Skotlandi. Brátt barst hreyfingin einnig til Englands, 1830 var hún búin að ná sér niðri í Yorkskíri og Lanca-skíri. Þá var fyrsta blaðið sett á stofn: Tíðindi bindindis-félaganna.

Sögðu þau félögin þá orðin 127, borgandi meðlimi 23,009, og 60,000 manns, er stæði í sambandi við þau og héldi sér frá áfengisnautn. Brezka og erlenda bindindisfélagið var stofnað í Lundúnaborg 1831. Var Lundúna-biskup forseti þess og hét hann Bloomfield, og erkibiskup ensku kirkjunnar einn af heiðursforsetum þess; hann hét Sumner. Þegar Victoria drotning var krýnd árið 1837, gerðist hún verndari þessa volduga félags. En um miðbik aldarinnar kom afturkippur mikill í framgang málsins. Áfengisnautnin reis aftur upp í algleymingi. Félag þetta leystist upp 1850. Eins og í Bandaríkjum var baráttan á Englandi upphaflega að eins gegn áfengum vínum. En upp úr þessu var farið að halda fram algerðu bindindi *(tee-totalism*)* Sóttu fylgismenn hreyfingarinnar þá málið svo fast og með frekju svo mikilli, að það varð málstaðnum að tjóni. Og þá ekki síður hitt, að margir af forkólfum hreyfingarinnar þóttu lélegir bindindismenn. Fylgið dvínaði bæði á Englandi og í Bandaríkjum, þótt mikill væri áhuginn í fyrstu.

En á þessu tímabili eignaðist bindindishreyfingin þó fyrstu hetjuna, sem mikið kvað að. Það var írskur prestur, *Theobald Mathew* frá Cork. Vanalega var hann nefndur *faðir Mathew.* Fjögur ár ferðaðist hann í kring á Írlandi og kveikti eldhug hvarvetna þar sem hann fór (1838-42). Fólk flyktist um hann og margir rituðu nöfn sín á skuldbindingarskrána. Mönnum taldist svo til, að á Írlandi væri 1841, ekki

---

*) Fyrsta atkvæðið í orðinu er ensk mállýzka, sveitamál eins konar, *tee* áherzluorð (*tee* = té = t).

færri en 4,647,000 bindindismenn. Sú tala er næsta eftirtektarverð, því fólkstalan á Írlandi þann dag í dag nær henni ekki. Bindindisfundi sína byrjaði hann í litlu skólaherbergi. Á fyrsta fundinum ávarpaði hann þá, sem þar voru samankomnir með brennheitri ræðu, því maðurinn var fyrirtaks mælskur. Að endingu sagði hann: „Eg ætla að verða fyrsti maður til að rita nafn mitt í bókina, sem þarna liggur á borðinu, og eg vona að hún verði fljótt full hjá okkur.“ Gekk hann svo að borðinu, tók pennann og sagði: „Þarna fer það í drottins nafni!“ Að þrem mánuðum liðnum voru 25,000 nöfn komin í bókina, að fimm mánuðum liðnum 131,000 og eftir níu mánuði 156,000 *). Á þessum fjórum árum fækkuðu mannsmorð á Írlandi úr 247 og ofan í 105. Á fjórum árum næst á undan hafði verið ráðist á lögregluþjóna 91 skifti, en á þessum fjórum árum vildi það til að eins 58 sinnum. Kveikt hafði verið í húsum 459 sinnum, nú aðeins 390 sinnum. Rán og gripdeildir voru áður 725 nú 257. Árið 1839 voru 66 sakamenn dæmdir til lífláts. Árið 1846 að eins 14. Á sama tíma fækkaði tala þeirra, sem dæmdir voru til betrunarvinnu úr 916 niður í 504. Ósjaldan segja menn, að bindindisstarfsemin komi engu til leiðar. En á þrem árum minkaði nautn áfengra vína frá 10,815,000 gallónum og ofan í 5,290,000, eða meira en helming. Var það alt í raun og veru að þakka föður Mathew, því annars staðar átti málið mjög erfitt uppdráttar. Sýnir það hve mikið eldmóður og

---

*) Sbr. Edward Gilliat, *Heroes of Modern Crusades.*

dugur einstaklingsins fær til leiðar komið á þessu svæði eins og öðru. Árið 1843 fór hann til Englands. Ekki urðu áhrifin af starfi hans eins mikil þar, en samt furðu-mikil. Til Ameríku fór hann 1850. En þegar er hann lézt 1856 var málið því miður í afturför bæði á Englandi og í Ameríku. Útgjöldin í sambandi við þessa starfsemi hans voru fjarska mikil og urðu honum ofurefli. Hann lenti í botnlausum skuldum og var eitt sinn settur í fangelsi fyrir. Árið 1847 veitti Victoria drotning honum 300 punda árslaun ($1500), en það náði ekki nema hálfa leið til að hjálpa honum úr vandræðunum*).

Í Bandaríkjum hafði málið nokkurn veginn samtímis tekið fjörkipp all-mikinn, sem kendur var við Washington. Dálítill hópur drykkjumanna, sem höfðu séð að sér, hrundu þeirri hreyfingu af stað í Baltimore 1840 með opinberum fundahöldum. Mörg ný félög mynduðust, hálf miljón manna skuldbatt sig til bindindis, og margt þeirra miklir brennivíns berserkir áður. En þó vel gengi í bili, datt áhugi almennings fljótt niður og menn urðu þreyttir á bindindis-æsingum.

Þegar nú ekki gekk betur að ná tilganginum en þetta með siðferðilegum fortölum, fóru menn að hugsa upp önnur ráð. Þá fer bindindismönnum að hugkvæmast, að eina ráðið til að stemma stigu fyrir áfengisnautninni sé að koma því til leiðar, að hún verði bönnuð með lögum. Voru fyrstu bannlög samþykt í New York-ríki 1845, en numin úr gildi tveim ár-

*) Sbr. J. F. Maguire M. P. *Father Mathew, a Biography* (1863).

um síðar. Í Maine-ríkinu voru bannlög samþykt 1851. Sama hreyfingin hefir gjört vart við sig á Englandi. Árið 1853 myndaðist þar alls herjar félag til þess að fá til leiðar komið strangri löggjöf, er algjörlega kæmi í veg fyrir fyrir verzlan með áfenga drykki.

Á seinni tímum, síðara hluta 19. aldar og fram á vora daga, hefir bindindisstarfsemin verið tvens konar. Menn hafa reynt að hnekkja áfengisnautninni með frjálsum samtökum, er setja sér fyrir markmið að efla sannfæringu almennings fyrir skaðsemi áfengis með siðferðilegum fortölum og með því að útbreiða þekkingu á afleiðingum drykkjuskapar. Og menn hafa hins vegar leitast við að takmarka eða útrýma áfengisnautn með því að koma á algerðu lagabanni. Tilraunirnar í síðarnefnda átt hafa verið öllu ákveðnari og afkastameiri, einkum í Bandaríkjum. Í meira en hálfa öld hefir bindindismálið þar verið í flokki stjórnmálanna og hafa þar margar tilraunir verið gerðar af hálfu löggjafarvaldsins. Árið 1869 var alþjóðlegur bann-flokkur myndaður. Bindindis starfsemi á Bretlandi færðist aftur í aukana á tímabilinu frá 1860—70, en hefir verið miklu meira hægfara en áður. Samt sem áður hefir henni stöðugt miðað í áttina, en þar gengið nokkuð örðugra að fá löggjafarvaldið á sitt band. Árið 1910 höfðu níu ríki í Bandaríkjum leitt áfengisbann í lög: Maine, Kansas, Norður-Dakota, Georgia, Oklahoma, Alabama, Mississippi, Norður-Carólína og Tennesee. Mönnum taldist þá svo til, að helmingur íbúa Bandaríkjanna lifði undir bannlögum, sem ýmist ríkin eða einstök héröð

höfðu leitt í lög (sveitabann). Í Kanada hefir áfengisbann náð lagagildi á Prince Edward eyju. Á Íslandi var áfengisbann samþykt 1908 og verður nú bráðum í gildi. Í Noregi hefir helmingur bæjanna samþykt áfengisbann með lögum frá 1906. Í Belgíu og Sviss er áfengisgerð af malurt *(absinth)*, sala þess og innflutningur, bannað með lögum frá 1908. Á Nýja Sjálandi hefir bannlaga hugmyndin rutt sér til rúms og árið 1910 voru bannlög í gildi í sjöunda hluta nýlendunnar. En um tilraunirnar, sem gerðar hafa verið til að stemma stigu fyrir áfengisnautn og því böli, sem af henni leiðir, með alls herjar löggjöf, í stærri eða minni lögsagnar-umdœmum, þyrfti að rita sérstaka ritgerð, ef gera ætti fulla grein fyrir.

## III.

### *Áhrif áfengisnautnar á mannfélagið.*

Í raun og veru hafa alvarlegir og siðvandir menn ávalt haft þá sannfæringu, að áhrif áfengisnautnar væri yfirleitt skaðleg. Þau skaðvænlegu áhrif liggja ekki í láginni og ætti engum siðvöndum manni að dyljast. Ofdrykkjan hefir sljóvandi áhrif á vitsmuni og siðferðistilfinningu. Hún hefir oft dýrsœði, ofbeldi og glæpi í för með sér. Sé hún varanleg, gerir hún þann, sem hún fær vald yfir, óhæfan til hvers konar starfa, — óhæfan til að vinna fyrir sér og sínum og óhæfan til að starfa fyrir mannfélagið. Fátækt, volæði, sjúkdómar, ölæði *(delirium)*, brjálsemi eða vitfirring sigla hvarvetna í mannfélögunum í kjölfar ofdrykkjunnar. En þegar um slíkt er dæmt, skyldi

þess ávalt gætt, einnig af bindindisvinum, að það er ekki ofdrykkjan ein, sem er orsök í öllu þessu böli. Til alls þessa liggja einnig aðrar orsakir og oft mjög erfitt um að dæma, hvern þátt ofdrykkjan á í þessu margháttaða böli mannanna. Vísindaleg rannsókn vorra daga hefir leitast við að komast fyrir þetta, að svo miklu leyti sem unt er. Hún leitast við að láta ályktanir, sem dregnar eru af almennum athugunum, verða sem nákvæmastar og ábyggilegastar. Vér skulum nú með fáeinum orðum benda á nokkur atriði í þessu sambandi, en biðjum lesendur vora um leið að muna, að hér er einungis unt að lyfta tjaldskörinni frá feikna miklu og markverðu þekkingar-svæði, sem falið er almenningssjónum á bak við tjaldið. Til þess að draga upp tjaldið sjálft og sýna svæðið alt þyrfti heila bók og hana eigi litla.

## IV.

### *Áhrif áfengisnautnar á efnahaginn.*

Flestum eða öllum hagfræðingum kemur saman um, að ofdrykkjubölið eigi all-mikinn þátt í fátæktinni í heiminum. En það verður ávalt erfitt að ákveða nákvæmlega einmitt hvað mikinn. Skýrslur eru fáar til í þeim efnum og ekki nákvæmar. Það er svo skamt síðan að farið var að gefa fátœktarbölinu nokkurn verulegan gaum. Menn skoðuðu það sem annan ólæknanda sjúkdóm, sem svo og svo mikill hluti mannkynsins yrði að bera með þolinmæði og væri fyrirhugaður til af forsjóninni. Nú skilst mönnum, að bót muni til við hverju böli. Jörðin muni hafa nóg auð-

æfi fólgin í skauti sínu til þess að öllum líði vel. Fátæktarbölið megi lækna og ráða bót á eins og hverju öðru böli. En þess vegna verður líka áhuginn sterkari og sterkari með að grafast fyrir ræturnar.

Menn hafa þá veitt því eftirtekt að fátæktin og ofdrykkjan verða ekki samferða í mannfélögunum. Í góðæri minkar fátæktin, en ofdrykkjan vex. Þegar illa lætur í ári vex fátæktin, en ofdrykkjan þverrar. Fátœktinnni á Englandi hefir lengi verið viðbrugðið. Yfirleitt mun hún heldur hafa rénað á síðari tímum. En á tímabilinu á eftir 1860 óx hún til muna, en ofurölvi þvarr að sama skapi. Á góðœristímabilinu frá 1870—77 minkaði fátæktin, en þá var mikið drukkið. Aftur óx fátæktin að mun, er viðskiftalífið lamaðist og deyfð var yfir. Eftir 1891 og til 1894 varð ofdrykkjan minni, en fátæktin meiri. En eftir 1894 varð hreyfingin á báðum svæðum aftur sú sama. *Síðan* 1900 hefir áfengisnautnin farið þverrandi, en örbirgð aukist. Eina undantekningin frá þessarri reglu er deyfðartímabilið mikla frá 1884—88. Þá stóð fátæktin í stað.

Af þessu er nú sú ályktan dregin, að þó ofdrykkja sé all-oft aðal-orsök fátœktar og stundum eina ástæðan, þá er þó sá þáttur yfirleitt ekki nærri eins mikill og sá, sem spunninn er af atvinnuleysi og lágum launum. Einn af helztu hagfræðingum og félagsfræðingum Englendinga heitir *Charles Booth* (fæddur 1840). Hann hefir eytt miklum hluta æfi sinnar og afar-miklu fé til að rannsaka mannfélagsmálin ýmsu og safna skýrslum um þau. Árangurinn af þessum störfum sínum hefir hann lagt niður í ritverk eitt mikið, sem

út kom á árunum 1891—1893. Nefnir hann bókina: *Líf og lífsstörf lýðsins í Lundúnaborg.* Tilgangur bókarinnar er að sýna „hlutfallið, sem fátæktin, volæðið, spillingin stendur í við vinnulaun og lífsþægindi og að lýsa þeim lífsskilyrðum yfirleitt, sem hver flokkur mannfélagsins á við að búa". Þar er fjöldi af uppdráttum, er sýna mjög greinilega hin ýmsu stig fátæktarinnar eftir strætum borgarinnar, alt með litum og litbreytingum. Mikið af þeirri löggjöf til mannfélagsbóta, sem annaðhvort er alveg nýkomin í gildi á Englandi eða er nú á ferðinni, á rót sína að rekja til þessarra rannsókna. Booth veitti til dæmis mjög skyldu efni eftirtekt — kjörum þeim, er aldurhnigin gamalmenni áttu við að búa. Og nú geldur þjóðin þeim flokki fólks eftirlaun, öllum sem efni brestur til lífsþarfa, svo nú hefir örbirgðar-vofan orðið þar frá að hverfa. Árið 1904 var Booth gerður einn af meðlimum leyndarráðsins brezka.

Skýrslur Booths taka áhrif áfengisnautnarinnar á fátækrabölið eins nákvæmt til greina og hann sá sér fært. Sá er fyrstur ríður á vaðið, finnur sjaldnast hvar bezt er að fara. Niðurstaðan varð þessi í austurhluta Lundúnaborgar: *Mikil fátækt*, hjá þeim tveim flokkum fólks, er lægst stóðu; *níu* af hverjum hundrað höfðu lent þar sökum ofdrykkju; *fimm* af hverjum hundrað vegna þess að eiga drykkfelda eða óþrifna konu. *Fátækt* nefnir hann kjör tveggja mannflokkanna þar fyrir ofan. Í þeirri fátækt höfðu *sjö* af hverju hundraði lent sökum ofdrykkju, en *sex* fyrir að eiga drykkfelda eða óþrifna og eyðslusama konu.

Árangur eða niðurstaða rannsókna þessarra

er naumast hægt að segja að styðji þá skoðan, að ofdrykkja sé aðal-orsök fátæktarinnar. Miklu fremur virðast þær vera í samræmi við þœr breytingar, sem fátæktin tekur eftir árferði. Samt sem áður kemur það glögt í ljós, að ofdrykkjan er ein af orsökunum, sem til þess eru að mikill hluti mannanna lendir í botnlausri fátækt og á við mestu eymdarkjör að búa. Ef unt væri að vinna bug á ofdrykkjunni, væri um leið einni orsök færra til fátæktarbölsins mikla, sem mannkynið þjáir. *Rowntree**) heitir maður, sem gert hefir svipaðar rannsóknir í sambandi við fátæktarbölið í *York* á Englandi. Hann sá sér ekki fært að gera áætlanir með tölum. Hann komst að þeirri niðurstöðu að ofdrykkja væri ekki ein af aðal-ástæðum fátæktarinnar, þar sem hann fann hana á hæsta stigi, hjá því fólki, er allra-lægst stóð í mannfélagsstiganum. En hann áleit hana sterkustu orsökina *(predominant factor)* til fátæktar á öðru stigi. Í borginni Manchester gerði *McDougall*, öldurmaður, árið 1883 rannsóknir í þessum efnum og kemst hann að þessarri niðurstöðu um hlutföllin milli ofdrykkju og fátæktar: Af hverjum hundrað fátæklingum voru 24 karlmenn drykkjumenn, 4 konur; börn og ekkjur drykkjumanna voru 21 af hverju hundraði. Rannsókn var hafin í ríkinu Massachusetts 1894—95 af skrifstofu þeirri, sem þar safnar skýrslum um kjör daglaunamanna. Þar kom það í ljós, að nærri því 40 af hverju hundraði fátæklinga kendu ofnautn áfengis um fátækt sína, og hér um bil 5 af hverju hundraði kendi ofdrykkju

*) Sbr. Rowntree and Sherwell, *The Temperance Problem and Social Reform.*

foreldra sinna um fátæktina. Miklu umfangsmeiri en þetta þyrfti rannsóknir þessar að verða til að vera vel ábyggilegar. Einkum þykja þessar síðustu skýrslur miður áreiðanlegar en skyldi. Það er alment um óknyttamenn og þurfalinga, að sögn þeirra, er þessum skýrslum safna, að þeir kenna ofdrykkju um kjör sín, þar sem hin eiginlega orsök þó oft og tíðum er óbeit þeirra á allri vinnu.

## V.

### *Áhrif ofnautnar áfengis á siðferðið.*

Flestum kemur saman um, að ofdrykkju sé um mikið af þeim ofbeldisverkum að kenna, sem framin eru gegn mönnum. En aftur standi hún í litlu eða engu sambandi við þau siðferðisbrot, sem framin eru gegn eignarrétti. Á Englandi eru níu tíundu hlutar allra siðferðisbrota á því svæði, að svo miklu leyti sem þau varða lög. *Dr. Sullivan,* enskur læknir, sem stendur í þjónustu betrunarhúsanna, álítur, að „ofnautn áfengis sé orsök í 60 siðferðisbrotum af hverjum hundrað, þeirra er lög varða og teljist til ofbeldisverka, og orsök í enn fleiri smærri brotum, er teljast megi til sama flokks“. Og enn fremur sé hún „að líkindum orsök til nærri helmings allra skírlífisbrota“. Þar á móti verði þess ekki vart að hún auki fengsemi eða stelvísi. Hvergi er áfengisnautn meiri en með námamönnum, en ofbeldisverkin eru almennust með sjómönnum, sjálfsmorð sjaldgæfust með námamönnum. Þetta segir dr. Sullivan að sé vegna þess, að stöðugur drykkjuskapur sé sjaldgœfari með náma-

mönnum. Þjóðerni og loftslag virðast hér hafa mikil áhrif. Menn hafa gjört sér mikil ómök til að komast eftir hlutföllunum milli ofdrykkju og siðferðisbrota í ýmsum löndum. Í einu fangelsi á Þýzkalandi fundu menn, að 36 af hverjum hundrað föngum voru drykkjumenn, að 51 ofbeldisverk af hverjum hundrað voru framin af mönnum ofurölva, að 70 af hverjum hundrað, sem staðið höfðu lögreglunni í hári, höfðu verið meira og minna undir áfengisáhrifum, að 66 skírlífisbrot af hverju hundraði höfðu verið framin af drykkjurútum. Á Ítalíu er áfengisnautn kent um 50, 60 og 75 áverka af hverjum hundrað, sem menn verða fyrir og mjög eru algengir þar í landi. Árið 1892 fundu menn að 40 af hverjum hundrað karlkyns glæpamönnum höfðu verið undir áhrifum ofdrykkjunnar, þegar er þeir frömdu glæpina. Í Danmörku voru árið 1903 ekki færri en 43 af hverjum hundrað, sem dæmdir voru sakamenn, drykkjuseppar. Þessar bendingar, sem flestar eru bygðar á opinberum skýrslum ætti að fullnægja til að færa sönnur fyrir sambandinu milli ofdrykkju og mikils hluta þeirra siðferðisbrota, sem framin eru. En ennþá eru rannsóknirnar ekki nógu nákvæmar til að heimila meira en slíka almenna ályktan. Til er samt sem áður ein tegund glæpa, sem ofdrykkjan ein er hér um bil alveg orsök í og í þeirri sannreynd felst ein lang-hryllilegasta sakargiftin gegn henni. Píslum og þjáningum, sem börn verða að líða, vegna vanrækslu og hrottalegrar grimdar drukkinna foreldra er naumast unt að lýsa. Á Englandi er til félag er nefnist: Félag til að koma í veg fyrir grimd gegn börnum. Það hefir komist að þeirri niðurstöðu,

að 90 af hverjum hundrað tilfellum, er það verður vart við, sé bein afleiðing ofdrykkju-ósómans.

## VI.
### *Áhrif ofdrykkjunnar á geðsmuni.*

Læknum og lærðum mönnum virðist koma saman um, að áfengis nautnin sé orsök til geðsturlunar að mjög miklu leyti. Á árunum 1893—1905 voru 43,694 manns á geðveikra-hælunum í New York. Á þessum tólf ára tíma segist dr. *Robert Jones* hafa fullvissað sig um, að 16 af hverjum hundrað hafi sturlast vegna ofdrykkju eða hófleysis í þá átt. Eitt helzta geðveikra-hælið á Englandi er *Claybury*-hælið. Á sama tímabilinu komust menn að þeirri niðurstöðu, að þar hefði 17 af hverju hundraði bakað sér geðsturlan með ofnautn áfengis,—22 af hverjum hundrað karlmönnum, 12 af hverjum hundrað kvenmönnum. ,,Óhætt er að fullyrða'', segir dr. Crowley ,,að frá 20—25 af hverju hundraði allra sturlaðra manna, er fátækralöggjöfin nær út yfir, hafa bakað sér brjálsemi með ofdrykkju''. Enn þá freklegar kveður við hjá öðrum lækni um þetta atriði, dr. *T. B. Hyslop.* ,,Eigin reynsla mín'', segir hann, ,,hefir komið mér á þá skoðan, að áfengisnautn sé annaðhvort bein eða óbein orsök til brjálsemi í að minsta kosti 50 tilfellum af hverjum hundrað''. En fæstir taka svo djúpt í árinni. *Dr. T. S. Clouston* hefir gert áætlan um, að áfengis ofnautn sé orsök í hér um bil 20. hluta (20%) allrar brjálsemi á Bretlandi hinu mikla og Írlandi. Alt eru þetta læknar með langa reynslu, sem haft hafa

umsjón á geðveikum mönnum, og allra manna bezt settir til að komast eftir hinum réttu orsökum.

En þetta er að eins önnur hlið málsins. Þeir sem bezt hafa veitt drykkjumönnum eftirtekt, hallast mjög alment að þeirri skoðan, að áfengis-ástríðan stafi að mjög miklu leyti af einhverri geðbilan. Sá maður, sem af stjórnarinnar hálfu á Englandi hefir umsjón á hendi með drykkjumanna löggjöfinni, dr. *Branthwaite,* tekur fram í skýrslu sinni fyrir árið 1908, sem út kom 1910: "Það er alls engum vafa bundið, að þegar við erum að taka inn og lækna menn, sem hingað eru sendir samkvæmt drykkjumanna lögunum, erum við að fást við hálfvita *(feeble-minded).* Það yrði mjög torvelt að finna mikið meira en hér um bil þriðjung allra þeirra, sem teknir hafa verið til gæzlu, hæfa til þess að ganga undir próf og fá vitnisburð fyrir meðallags vitsmuni". Þetta sannar hann svo með tölum og töflum, sem hér yrði oflangt mál upp að taka.

Brjálsemi eða geðsturlan er þess vegna bæði orsök og afleiðing áfengisnautnar. Það verða menn að hafa í huga, þegar um þetta er dæmt. Skýrslur þessar eru miðaðar við England, af því sem þar hefir einna nákvæmust gangskör verið gerð í þessum efnum. Frá öðrum löndum mætti gefa þessar bendingar: Á Ítalíu telja skýrslur frá 26 hælum drykkjuskap orsök til brjálsemi. Frá *Brescia*-hælinu eru skýrslur á þessa leið: 1894—98 fimtán af hundraði; 1899—1903 nítján af hundraði; 1898 tuttugu og sjö af hundraði. En hér hefir að einhverju leyti verið breytt til um aðferð eða tilhögun. Þeir sem vanir eru að fara með slíkar skýrslur finna, að þessi mikla hækkan talnanna

er ekki alls kostar eðlileg. Á árunum frá 1900 til 1904 voru í Sviss 21 af hverjum hundrað, sem teknir höfðu verið inn á hælin, sturlaðir af áfengisnautn, í hópi karlmanna. En nokkuð meira en 4 af hverjum hundrað konum geðsturluðum, voru drykkjukvendi. Á tímabilinu frá 1899—1903 voru í Danmörku, af þeim sem voru á geðveikra hælum, 21 af hverjum hundrað sturlaðir af völdum ofdrykkjunnar. Í Austurríki árið 1903 voru 14 af hverju hundraði slíkra manna drykkjumenn. Á Frakklandi var 12 af hverju hundrað manns með sturlaða geðsmuni fólk, sem átti lengri eða skemmri ofdrykkjusögu.

## VII.

## *Áhrif ofdrykkju á afsprengi.*

Eitt af því sem hvert gott málefni verður að varast, er að fara með öfgar. En öfgar eru ósannaðar og ósannanlegar staðhæfingar og ýkjur, sem gerðar eru einhverjum málstað til stuðnings. Því er ekki að neita, að farið hefir verið með mikið af svo freklegum fullyrðingum um skaðleg áhrif áfengis, að langt eru fram úr öllu hófi, og langt fram úr því sem nokkurar heimildir eru til. Slíkt skyldi ávalt forðast. Oft og einatt er góðum málstað með því unnið hið mesta tjón. Sá sem reynir að sanna of mikið, veikir málstað sinn, en styður ekki. Það hefir lengi verið álitið, að börn drykkjumanna yrði að líða margvíslegar píslir á sálu og líkama fyrir syndir foreldranna, að þau sé veikbygð og lasburða, og fædd með alls konar sjúkdóma að erfðum. Einkum er það oft staðhæft,

að þau taki áfengisþorstann og ástríðuna að erfðum. Vísindalegar rannsóknir þeirra manna, sem mesta þekkingu hafa í þessum efnum, styðja þessar staðhæfingar ekki, — að minsta kosti ekki í heild sinni. Alment hefir það samt verið álitið, að börn drykkjumanna hafi oftast veiklaðan líkama, en naumast eru til fyrir því ábyggilegar sannanir. Þetta hefir verið gert að rannsóknarefni í Lundúnaborg á seinni árum (1910) við háskólann þar, *London University*, af þeim Professor *Karl Pearson* og jungfrú *E. M. Elderton.* Tilgangurinn var að komast eftir áhrifunum, sem drykkjuskapur foreldranna hefði haft á heilsufar, líkamsbyggingu og vitsmuni afkvæmis þeirra. Studdust þau við skýrslur frá einum af skólum Edinborgar, þar sem slík börn voru, og sömuleiðis við skýrslur frá þessum sérstöku skólum í borginni Manchester. Í Edinaborg náði rannsóknin til hér um bil 1000 barna, í Manchester til nálægt 2000. Það var á aldrinum frá 5 til 14 ára, og bæði drengir og stúlkur teknar til greina, nokkurn veginn jafn-margt af hvorum fyrir sig. Og niðurstaðan, sem komist var að, var þessi: "að ekkert *ákveðið* samband var hægt að finna milli vitsmuna, líkamsbyggingar eða heilsubilunar barnanna og áfengisnautnar foreldranna á neinu svæði sem rannsóknin náði út yfir".

En aðal-ályktanir, er dregnar voru af þeim sannreyndum, sem þar voru fyrir hendi, voru á þessa leið: Dauðsföll fleiri í þeim fjölskyldum, sem hneigðar eru til áfengisnautnar, en hinum, þar sem hún á sér ekki stað. Þetta kemur meira fram á mæðrunum en feðrunum. Foreldrar, sem áfengis neyta, eignast

vanalega fleiri börn. En af þeim deyja fleiri, svo áhöld verða um barnafjöldann hjá þeim, sem drekka og hinum, sem ekki drekka. Börn drykkjumanna eru vanalega dálítið hærri og þyngri en börn reglumanna, en verða nokkuð minni vexti, er foreldrarnir hafa drukkið í æsku, en hætta óreglunni með aldrinum. Heilsufar barna drykkjumanna dálítið betra en hinna, einkum með tilliti til tæringar og flogaveiki. Vitaskuld er þetta ekki svo, *vegna* áfengisnautnar foreldranna, heldur *þrátt fyrir* hana. Þeir, sem hraustastir eru til heilsu, eru oft mest hneigðir til vínnautnar. Drykkjuskapur foreldranna virtist ekki vera orsök til vitsmunaskorts hjá börnunum. Það var ekki unt að finna neitt samband milli áfengisnautnar foreldranna og gáfnafars barnanna.

Af því rannsóknir þessar brjóta bág við gamlar skoðanir í þessum efnum, hefir þeim verið fundið bæði eitt og annað til foráttu. Verður vitaskuld við það að kannast, að þær eru ekki nærri því eins víðtækar og vera skyldi, til þess að gera þessa niðurstöðu að algildu lögmáli. En eins langt og rannsókn þessi nær, er hún bygð á heilbrigðum athugunum. Og hún er eiginlega fyrsta tilraunin til að rannsaka þetta efni á vísindalegan hátt. Enda er í rauninni ekkert í þessari niðurstöðu, sem vekur furðu varfærinna og óhlutdrægra athugenda. Dr. *Arthur Shadwell** í London hefir fyrir mörgum árum sýnt fram á, að mikið samband á sér stað milli sterkrar líkams heilbrigði og tilhneigingar til áfengisnautnar. Drykkjumenn eru oft

---

*) Sbr. A. Shadwell, *Drink, Temperance and Legislation.*

duglegri og framtakssamari en aðrir, og það er vegna þess líkamsþrótturinn er meiri, en hjá öllum þorra þeirra, sem ekki drekka. Það er almenn reynsla skipstjóra, að brezkir sjómenn, sem erfitt er við að eiga sakir áfengis-ástríðu, og þess vegna eru oft settir hjá og erlendir sjómenn teknir fram yfir, af því þeir eru meiri reglumenn, sýna dugnað og vinnuþol, er á liggur, um fram hina. Sömu söguna hafa vélastjórar og verkstjórar að segja, sem stór fyrirtæki hafa með höndum í suður-hluta Norðurálfu.

Nokkurar líkur eru til, að svo framarlega sem um arfgengi sé að ræða í þessum efnum, muni það fremur vera andlegs eðlis en líkamlegs.

## *VIII.*
## *Áhrif áfengisnautnar á dauðsföll.*

Það er mjög mikið vandamál að komast hér að nokkurri ábyggilegri niðurstöðu. Ótal aðrar orsakir blandast þar saman við, sem mjög örðugt er að sundurgreina. Þess vegna má búast við, að mikið, sem um það er sagt, sé bygt á ágizkunum. Samt sem áður hafa menn ýmsar sannreyndir til að fóta sig á í þessu efni. Opinberar skýrslur á Englandi hafa dálka fyrir "drykkjuskap, delirium tremens", sem orsakir til dauða. Á 35 ára tímabilinu frá 1870 til 1905 voru hlutföllin þessi, að á hverjum fimm árum dóu 37.6 ; 42.4 ; 48.2 ; 56.0 ; 67.8 ; 85.8 ; 78.2. Athuganir þessar náðu yfir eina *miljón* dauðsfalla. Stundum geta skoðanir læknanna í þessum efnum haft nokkur áhrif á tölurnar. Samt sem áður hefir sú eftirtekt, sem

drykkjuskap hefir verið veitt, leitt til þess að miklu meira tillit er til hans tekið í kenslubókum, sem orsakar til dauða, en fyrrum átti sér stað. Í skýrslum fyrir árin 1900 og 1901 er tekið fram, að tala þeirra dauðsfalla, sem talin eru að stafa af drykkjuskap, hafi hækkað vegna þess, að þeim sem dáið hafa af taugabólgu (*neuritis*) hafi verið bætt í þann dálkinn. Nú er það venjulegt orðið, að dauðsföllum, sem orsakast af lifrarveiki (*cirrhosis*), er skipað í sama flokk, þar sem þessi sjúkdómur langoftast kvað stafa af ofdrykkju.

Skýrslur yfir dauðsföll af drykkjuskap og lifrarveiki ná alls ekki út yfir öll dauðsföll, sem af áfengisnautn stafa. Af skýrslum frá Danmörku og Sviss hefir það verið dregið, að á Englandi og Wales sé alt of fá dauðsföll talin orsakast af áfengis-nautn, og að þau ætti að vera einum 6 sinnum fleiri en skýrslurnar sýna. En auk þeirra dauðsfalla, sem beinlínis eru afleiðingar ofdrykkju, er fjöldi dauðsfalla þar sem vínnautn hefir gert líkamann móttækilegan fyrir aðra sjúkdóma, og hraðað dauðanum á þann hátt. Tæringu álíta menn einn af þeim sjúkdómum, sem einkum standi í sambandi við áfengisnautn, en það eru líka ýmsir aðrir. Í Danmörku eru dauðsföll í hópi karlmanna yfir tvítugt, 42 af hverjum hundrað, talin afleiðingar ofdrykkju.

Hve lamandi áhrif áfengisnautnarinnar eru á öll líffærin sést ljóslega af tölu iðjulausra karlmanna. „Prestastéttin, sem fæsta hefir, er deyja af drykkjuskap, hefir líka merkilega fáa, sem líða af líffærasjúkdómum“ (*Shadwell*). Bændur, sem þó deyja fleiri af

afleiðingum ofdrykkju en prestar, eru þeim nærri því jafn-heilsugóðir, og stafar það af vinnu þeirra undir berum himni. Á Englandi er talið að flestir gestgjafar deyi úr lifrarveiki, og fjöldi iðjulausra karlmanna. Stafar það vitaskuld af því, að það þykir laglegra að setja á dánarvottorðið, en að segja, að þeir hafi látist af völdum Bakkusar. Skýrslurnar benda á, að ástandið með iðjulausum karlmönnum sé all-varhugavert; tölurnar eru þar mælskari en margar ræður. Milli 25 ára aldurs og 65 eru dauðsföllin í þeim flokki manna hærri en í nokkurum öðrum flokki mannfélagsins. Það er líka þess vert að veita því eftirtekt, að fátækt virðist hafa góð áhrif á heilsufarið. Prestar eru fátækastir allra mentaðra manna og embættismanna. Þeir, sem vinnumenn eru hjá bændum úti á landsbygðinni, eru fátækastir allra verkamanna, en hafa heilbrigði eins góða og þeir sem hraustastir eru, nema hvað þeim er hættara við tæringu.

## IX.

### *Áhrif áfengisnautnar á almenningsálit og löggjöf.*

Yfirleitt mun óhætt að segja að tilfinning þjóðanna fyrir ofdrykkjunni sem einu hinu mesta mannfélagsmeini sé stöðugt að vaxa. Almenningsálitið er stöðugt að þokast í þá áttina að þetta þjóðarböl þurfi að hefta með viturlegri löggjöf. Í Bandaríkjunum, þar sem almenningsálitið liklega hefir einna fljótust áhrif á löggjöfina, er tilfinningin gegn áfengisbölinu stöðugt að verða sterkari. Hvergi er líklega almenningi manna gefnar eins rækilegar upplýsingar, bæði í

ræðu og riti, um skaðsemi áfengisnautnarinnar, bæði að því er fjármunalega sóun snertir og hin illu áhrif hennar á mannfélögin. Árið 1910 taldist mönnum svo til, eins og áður er sagt, að helmingur íbúa Bandaríkjanna lifði undir bannlögum. Nú telst mönnum svo til, að ríkja og sveitabann nái yfir nálega þrjá fjórðunga eða 72% af yfirborði landsins. Að hreyfingin til að koma áfengisbanni á sem víðast þar í landi vann engan stórsigur við kosningarnar 1912 og varð ekki heldur fyrir neinum stór-hnekki, stendur í sambandi við, að þá fóru fram forsetakosningar og önnur stórmál drógu alla athygli fólksins til sín. Við þær kosningar komst samt sem áður ríkið *West-Virginia* í tölu *þeirra* ríkjanna með stórkostlegum meiri hluta atkvæða (92,342). Það er líka þess vert, að á það sé bent, að ýms járnbrautarfélög í *Pennsylvania*-ríkinu, hættu að selja áfengi með mat eða á annan hátt á borð-vögnum sínum, til þess knúð af samtökum þeirra, er útrýma vilja áfenginu og veitingakrám öllum. Nokkur járnbrautarfélög í *Illinois*-ríkinu neyddust til að gera hið sama, sökum sveitabanna. Þar má ekki áfengi selja nær hermanna-stöðvum eða hermanna heimilum, samkvæmt síðustu löggjöf, en 2/3 mílu vegar brottu. Sömu lög banna nautn nokkurra áfengra drykkja á ferðamanna vögnum eða brautarstöðvum. Sömuleiðis banna þau druknum mönnum að stíga á járnbrautarlest. Fyrir þessi lög hættu 11 járnbrautarfélög í ríkinu að selja áfengi á fólksflutningavögnum. Árið 1911 var tilraun gerð til að nema úr gildi lög um sveitabann frá 1907, en hepnaðist ekki. Suður Kyrra-

hafsbrautin er tekin þessi allra síðustu ár að reisa hressingar-hýsi *(recreation houses)* með fram öllum brautum sínum, í þeim tilgangi að aftra mönnum sínum frá áfengi og drykkjukrám. Eins og kunnugt er, ræður nú sterk hugsjónaalda í stjórnmálum Bandaríkjanna, sem lengi hefir verið að brjótast til valda. Eitt af ætlunarverkum hennar er, að hrinda sjálfkjörnu stjórnmála hrottunum) *political bosses*) frá völdunum og allri þeirri spillingar-þvögu,sem þeir hafa í eftirdragi Takist það, er enginn vafi á, að það verður sigur fyrir vini og fylgismenn áfengisbannsins og bindindis í heild sinni. Hingað til hefir vald þessarra stjórnmála hrotta verið svo mikið yfir stjórninni sjálfri, að það hefir haft í för með sér almenna lítilsvirðingu á löggjöfinni, svo það hefir orðið alþýðu viðkvæði : "Bannlögin banna ekki!" því vínsölumennirnir hafa stjórnmálahrottana á sínu bandi með því að ausa í þá nógu fé. Það er líka svo, að sambandslögum samkvæmt hefir mátt senda áfengi frá *votum* ríkjum inn í *þurru* ríkin, og að ríkisvaldið ekki hefir náð lagahaldi á því meðan það er í upprunalegu umbúðunum (*original package*). Það kemst fyrst að, þegar þær hafa verið rifnar upp eða innihaldið fengið einhverjum umboðsmanni í hendur. Það var eitt af óhappaverkum *Tafts*' forseta, að hann í febrúarmánuði síðastliðnum (1913) neitaði lögum staðfestingu, sem ekki létu áfengið friðheilagt í frumumbúðunum heldur. En á síðustu dögum fyrir þingslit, voru lögin samþykt, þvert ofan í neikvæði forseta, með tveim þriðju atkvæða meiri hluta.

Það er stór-merkur vottur um viðgang áfengis-

bannsins í Bandaríkjum, að nú skuli mega á það benda, að nærri þrír fjórðungar* af yfirborði landsins skuli nú vera *þur*-lendi. Helmingur Bandamanna, sem nú eru ekki færri en 90 miljónir talsins, hafa gert vínsöluhús með stjórnarleyfi útlæg. Þetta er að langmestu leyti að þakka starfsemi félags þess, er nefnist *Anti-Saloon League*. Það hefir verið starfandi í ein 20 ár. Það er eins konar bandalag, sem myndast hefir á milli kirkjudeildanna ýmsu, til að útrýma drykkjukránum (*Saloons*). Það hefir kynt sér ástandið svo um land alt, að það veit fyrirfram, hvað gert muni verða, hve nær sem bannlög komast fram á stjórnmálasvæðið í einhverju ríki. Þetta alls herjar Bandalag hefir komið margfalt meira til leiðar en sá stjórnmálaflokkur, sem Bannlagaflokkur (*Prohibition Party*) nefnist. Nú er svo komið, að 72% af öllu yfirborði Bandaríkjanna — 2,130,746 fermílur — er *þurt* land á máli bannvinanna. Ríkin eru nú orðin *níu*, þar sem það er lögum gagnstætt að selja áfengi nokkurs staðar innan takmarkanna. Þau eru þessi: Georgia, Kansas, Maine, Mississippi, Norður-Carolina, Norður-Dakota, Oklahoma, Tennessee, West-Virginia, eins og áður er tekið fram. En það eru tíu önnur ríki, þar sem meira en 90% af öllu yfirborði er *þurt*. Þau ríki eru þessi: Alabama, Arkansas, Colorado, Florida, Kentucky, New Hampshire, New Mexico, Utah, Vermont, Wyoming. Í Arkansasríkinu hafa nýlega verið samþykt lög, sem heimta, að

---

*) Sbr. Frank Parker Stockbridge: *The Church Militant Against the Saloon.* Worlds Work, vol. XXVI, 703—712.

bænarskrá sé samin og undirrituð af öllum hvítum mönnum og konum, sem heima eiga í því mannfélagi, áður vínsöluhús megi opna. Vitaskuld verður þetta sama sem áfengisbann, sem nær yfir alt ríkið. Hins vegar má taka fram, að það er ekki eitt einasta ríki, sem alt er *votlendi*. *New Jersey* kemst næst því. Í Pennsylvania er leyfi veitt í þrem-fjórðu hlutum ríkisins að eins. En í Illinois og Missouri er 72% *þurt*. Í New-York ríki eru 58% bannlagasvæði.

Miklu örðugra er bannlagamálið viðfangs, þar sem um stórborgir er að ræða. Enn er Bandalagið langt frá að hafa lagt þær undir sig. En það heldur áfram í þá áttina. Það hefir slegið bannlaga hring í kring um þær, og hafið umsátur með bannlagaskoðunum. Öll þau níu ríki, þar sem bannlög eru þegar komin á, eru að lang-mestu leyti bænda-ríki. Það er ekki meira en 20% fólksfjöldans, sem býr þar í borgum. Einungis tvö af ríkjum þessum, Georgia og Tennessee, hafa borgir með 100,000 íbúum. Meira en helmingur íbúanna í 17 öðrum ríkjum, eru komnir á *þurt land* vegna sveita bannlaga. Níu þessarra ríkja hafa engar borgir, þar sem íbúatala nemur 100,000. Sex önnur hafa eina slíka borg. Minnesota hefir tvær. Í þrettán ríkjum er 25% og 50% fólksins á *þurlendi*. Og í þessum þrettán ríkjum er 22 borgir með 100,000 íbúa eða meira. Í þeim níu ríkjum, sem þá eru eftir, og *Columbia*-sveitinni, er minna en 25% fólksins enn á *þurru* svæði. En í þessum ríkjum eru 15 borgir með 100,000 eða meira; í þeim á 71% fólksins heima. Þar sem nú viðgangur bannlagamálsins er orðinn svo mikill, hugsar Bandalagið sér bráð-

lega, að gera tilraun með að fá samþyktan viðbæti við grundvallarlög eða stjórnarskrá Bandaríkjanna, er banni áfengissölu um gjörvalt landið. Hve fljótt menn sjá sér fært að hrinda því stórmáli af stað, er enn eigi unt að segja, né heldur hvernig það gengur. En hve brýn nauðsyn til slíkrar löggjafar er, sést bezt á því, að á árunum milli 1870 og 1880 tvöfaldaðist áfengisnautn í Bandaríkjunum. 1880 nam hún 6 gallónum á hvern mann. Þrátt fyrir alt, sem gert hefir verið til að sporna við henni síðan, hefir hún stöðugt farið vaxandi, þó ekki hafi það verið að sama skapi, svo árið 1910 nam hún ekki minna en 23 gallónum á hvert höfuð. En þessi síðustu tvö ár hefir hún staðið algerlega í stað og er það aftur talandi vottur þess, að starfsemi bindindisvina er alt annað en árangurslaus. Hvorki virðir þjóðin hana vettugi, né heldur er henni á glæ kastað.

Í baráttunni milli siðleysis og siðvendni vinnur siðvendnin ávalt sigur á endanum. Og í baráttunni milli auðvalds og siðferðishugmyndanna verða þær ávalt sigursælli að lokum. Sú verður ávalt raunin á í Bandaríkjunum, og er þar þó við ramman reipi að draga. Framfarirnar hafa verið hraðskreiðari miklu, að því er vínsölubannið snertir, en búast mátti við. Árið 1908 var það samþykt í Mississippi og Norður-Carolina. Í ríkinu síðarnefnda var því skotið til alþýðu-úrskurðar *(referendum)*, og meiri hlutinn varð 44,000. Sama ár var 11,000 vínsölukrám lokað í Bandaríkjum. Næsta árið bættist Tennessee við í tölu *þurru* ríkjanna, með því að banna vínsölu á fjögra mílna svæði út frá hverri kirkju eða skólahúsi, og alla áfengisgerð í ríkinu. Suður-Carolina hefir

samþykt lög um sýslubann (*county prohibition*) með alþýðu atkvæði (*referendum*), og Wyoming hefir numið úr gildi alla vínsölustaði utan löggiltra bæja. Árin 1912 og 1913 hefir verið hert á bindindis löggjöf að miklum mun í 17 ríkjum. Stærstu framfarasporin, sem stigin hafa verið á þessum árum, eru tvö: Vestur-Virginia hefir með alþýðu-atkvæði samþykt vínsölubann um alt ríkið, sem gengur í gildi 1. jan. 1914, og sambandsþingið (*Congress*) hefir samþykt lögin, sem banna að senda áfengi til sölu inn í annað ríki, er samþykt hefir vínsölubann. Bandalagið hafði barist í 20 ár fyrir þessarri síðari lagabót, sem af öllum er álitin stór-merkileg. En sambandsþingið hafði þegar 1906 sýnt, að bindindisskoðanirnar voru teknar að þrýsta allfast utan að. Það ár veitti sambandsþingið $25,000 til þess að koma í veg fyrir, að Indíánum væri selt áfengi. Í þeirri hviðu er sagt, að brotinn hafi verið fjórðungur miljónar af *whiskey*-flöskum, 76 spilahús verið lögð í eyði, meira en 1000 manns teknir fastir og nokkurir stigamenn drepnir.

Tímaritið *American Contractor*, sem er tímarit byggingar og mannvirkja fyrirtækjanna í landinu, sýnir, að árið 1906 eyddu öl- og víngerðarmenn í Bandaríkjum $14,578,000 til nýrra bygginga og til aukningar kaupsýslu sinnar. Á sama tíma eyddu kirkjufélög í Bandaríkjum að eins $5,632,751 til bygginga. En árið 1912, sex árum síðar, var hlutfallið orðið öfugt. Þá eyddu kirkjufélögin $14,870,506 til nýrra bygginga, en áfengissalar að eins $2,937,783. Fyrstu fjóra mánuðina af árinu 1913 segir tímarit þetta, sem alls eigi er líklegt að sé neitt vilhalt í þessum efnum, að safnaðarfélög hafi

lagt út tíu sinnum meira fé til nýrra kirkna, en öl- og víngerðarmenn hafi gert til að færa út sínar kvíar.

Alþjóðaþing var háð í Brussel 1911, til þess að fá stórveldin til að koma sér saman um alls herjar reglugjörð um áfengissölu til frumbyggja fjarlægra heimshluta. Því miður varð ekkert samkomulag, en meðan á slíkum samkomulags tilraunum stendur, hefir ríkisritari Breta fyrir nýlendurnar skipað svo fyrir, að áhöld til áfengisgerðar skuli ekki flutt til nýlendanna í Vestur-Afríku, og svæðið, sem áfengisbannið nær yfir í *Nigeria,* hefir verið fært út um 3000 fermílur. Í *Ceylon* hefir óleyfilegum áfengisgerðar húsum verið lokað. Tollur á innfluttu áfengi hefir verið hækkaður svo, að hann er kominn upp í 5½ shilling hvert gallón í *Sierra Leone,* á Gullströndinni og í Suður-*Nigeria.* Í *Hong-Kong* og í *Malaya* hafa einnig þungir tollar verið lagðir á áfengi.

Bindindislöggjöf hefir stórum þokað áfram, svo að segja í öllum hlutum Bandaríkja, eins og sýnt hefir verið fram á. Nýfundnaland, Brezka Columbia, Grenada, Papua, Vestur-Ástralía, Brezka Honduras, Basutoland, Brezka Guiana, Manitoba og England, Skotland og Írland líka, hafa á ýmsa vegu verið að takmarka vínsölu og hefta opinber leyfi til hennar.

Á Englandi hefir fram komið frumvarp til laga um, að minka ofdrykkju með því að hefja opinbera vínsölustaði þar upp á móts við kaffihúsin (*Café*) á meginlandi Norðurálfu. Hugmyndin er að koma ýmsum umbótum til leiðar, — auka rúm, hægindi,

hreinlæti, heilsusamleg þægindi, hafa mat á boðstólum, hafa almenn borð og stóla til að sitja í, í stað þess að hýma við búðarborðin háu, sjá um að menn hafi tækifæri til saklausrar dægrastyttingar, svo sem spila og tafls, njóti um leið þess, að fá að hlýða á söng og hljómlist, og að opnir garðar standi í sambandi við veitingahúsin, og ýmislegt annað til hollrar hressingar.

Á Frakklandi er ofnautn áfengis enn eitt af allra erfiðustu mannfélagsmálum. Löggjafarvaldið gefur henni heldur alls eigi þann gaum sem þyrfti. Í febrúar 1912 lagði neðri málstofan frumvarp á hilluna, sem senatið hafði samþykt, og takmarka átti tölu vínsölustaðanna. Áfengisnautnin fer vaxandi. Samkvæmt opinberum skýrslum nam hreinn vínandi (*alcohol*), sem tollur var borgaður af, árið 1909 ekki minna en 29,524,132 gallónum, 1910 var það 30,778,748 gallónar og 1911 komið upp í 34,628,396 gallóna.

Áhrif áfengisnautnar á almennings álitið eru tvens konar. Þau eru fyrst og fremst lamandi, eftir því meira sem hún er almennari. Hún sljóvar siðferðistilfinningu einstaklingsins og hún sljóvar siðferðistilfinningu mannfélagsins. Almenningsálitið lokar lengi vel augum fyrir öllu því böli, sem hún hefir í för með sér. En eftir því sem bölið vex og verður almennara fer alvörumönnunum, sem ekki geta látið sér standa á sama um heill og velferð þjóðfélagsins, að blæða það böl í augum; þeir hefjast handa og leitast við að vekja almennings álitið. Þegar því nauðsynjaverki hefir verið haldið áfram um stund, fer löggjafarvaldið að vakna. Því fer að skiljast, að hér sé stór-mikilsvert

velferðarmál á ferðum, sem eigi skyldi látið afskiftalaust. En um leið og almennningsálitinu tekst að vekja samvizku stjórnmálamanna, vakna þeir í fjötrum. Þeim er kunnugt um, að áfengissalarnir fylla pyngjur stjórnmálaflokkanna og að án þeirra myndi hún verða býsna tóm. En í kosningabaráttunni finna menn til þess ekki síður en annars staðar, að auðurinn er afl þeirra hluta, sem gera skal, jafnvel þó það svæði ætti að vera alveg undanskilið þeirri reglu. Þá eru líka tekjur hins opinbera annars vegar. Stjórnmálamennirnir eiga einlægt í herkjum með að láta þær tekjur fullnægja þörfunum. Sé þeim tekjum hafnað, sem áfengistollurinn gefur, verður tekjuhallinn svo mikill í bili, að stjórnmálamanninn brestur hug til að leggja út í þá hættu. Reynslan mun nú vera sú samt, að hættan er sjónhverfing. Aukin velmegan margborgar á fáum árum tekjuhallann, sem verður í bili.

*Reynslan ætti að hafa kent bindindisvinum, svo eigi væri þeim unt að gleyma, að hvað vel sem hlynt er að takmarkan eða afnámi áfengissölu með löggjöf, er þeim bráðnauðsynlegt að vera sívakandi og sístarfandi, svo ekki falli alt niður í sama farið aftur, og síðari villan verði lakari hinni fyrri. Það verða íslenzkir bindindisvinir ekki sízt að hafa hugfast.*

## X.

### *Niðurlagsorð.*

Áfengisnautnin og afleiðingar hennar er eitt af meinum mannfélagsins. Hún er ekki eina meinið, en hún er eitt af mörgum og hefir margt ilt í för með sér. Öll ofnautn áfengis er brot gegn góðum siðum. Þar sem hún er almenn, spillast siðirnir að sama skapi. Menningin kippir fótum undan sjálfri sér með því að sjá í gegn um fingur við hana og lofa henni að sigla sinn eigin sjó. Á hinn bóginn skyldi bindindisvinir ávalt hafa hugfast, að það bætir ekki málstaðinn að kenna henni um alt. Þó ráðin væri bót á ofdrykkju og bannlög væri komin á um allan heim, myndi samt sem áður langt frá því, að ráðin væri bót á mannfélagsmeinunum öllum. En vitaskuld væri þá einu færra. Þau eru svo fléttuð hvert inn í annað og svo samtvinnuð mannlegu eðli, að naumast verður ráðin bót á einu, meðan önnur sitja við sama keip. Enn hefir maðurinn svo undur ófullkomið vald yfir sjálfum sér í öllum efnum. Hann hefir enn svo lítið vald yfir lund sinni og ástríðum. Menningarstarfið ætti alt að því að miða að gera hvern mann að húsbónda á heimili sínu. Það er hið göfuga markmið allrar siðmenningar. En sá tindur er nokkuð hár og

uppgangan brött. Engan skyldi því furða, þó ferðin sé hæg.

En vel sé hverjum góðum dreng og góðri konu, sem öðrum kennir að greiðka sporið!

---

Á bls. 137 eru menn beðnir að leiðrétta; þar stendur í þriðju línu að neðan, "að áfengis ofnautn sé orsök í hér um bil 20. hluta (20%) allrar brjálsemi". Þar á vitaskuld að standa: hér um bil 5. *hluta* (20°/₀) allrar brjálsemi.

